sem útnesi, svá viðr[1] sem Noregr er austr til marka ok norðr til hafs.

13. Hér eptir gerask orrostur margar langar hríðir, en hina efstu ok hina mestu orrostu átti hann í Hafrsfirði fyrir norðan Jaðar við[2] konunga af landi ofan, [Kjötvann auðga ok Haklang[3]; þar kómu með þeim margir ríkismenn með skipaher miklum, svá sem segir Þjóðólfr[4] or Hvini:

Heyrðu í Hafrsfirði
hve hizug[5] barðisk
[konungr inn kynstóri[6]
við Kjötvann auðlagða;
knerrir kómu austan
kapps um lystir
með gínöndum höfðum
ok gröfnum tinglum.

Hlaðnir váru þeir haulda
ok hvítra skjalda,
vigra vestrœnna
ok valskra sverða;
grenjuðu berserkir,
guðr var þeim á sinnum,
emjuðu[7] úlfheðnar,
ok [ísarn[8] dúðu.

Freistuðu ens framráða,
at[9] þeim flýja kendi,
allvalds austmanna,
er býr at[10] Útsteini;
stöðum nökkva brá stillir,
er hánum var styrjar væni,
hlömmun var á hlífum[11]
áðr en Haklangr félli.

Leiddisk þá fyr Lúfu
landi at halda,
hilminum hálsdigra,
hólm lét sér at skildi;
slógusk und sessþiljur
er sárir váru,
létu upp stjölu stúpa,
stungu í kjöl höfðum.

1) vítt 2) tvá *tilf.* 3) *mgl.* 4) skáld *tilf.* 5) *saal. B;* hizi *A.* 6) konungr kynstórr 7) *rettet;* enn uðu *B*; ymdu, *A.* 8) *rettet;* í sár járn *A*; í sár *B.* 9) er 10) á 11) *rettet;* hlífdum, *A og B.*

Á baki létu blíkja,
barðir váru grjóti,
Svafnis salnæfrar,
seggir hyggjandi;
Œstusk austkylfur
ok of Jaðar hljópu
heim or Hafrsfirði,
ok hugðu á mjöðdrykkju.

Hér minnisk Hornklofi þessarrar orrostu:

Hrjóðr lét hæstrar tíðar
harðráðr skipa barðum
bárufáks ens bleika
barnungr á lög þrungit.

Þar svá at barsk at borði,
borðhölkvi rak norðan
hlífar valdr fyr Hildar
hregg döglinga tveggja;
ok orðnœfrir[1] jöfrar
orðalaust at morði
(endisk rauðra randa
rödd) dunskotum kvöddusk.

Háði gramr, þar er gnúðu[2],
geira hregg við seggi,
(rauð fnýstu ben blóði)
bryngögl í dyn Sköglar;
þá er á rausn fyr ræsi
-réð egglituðr- seggir
æfr gall hjörr við hlífar[3]
hnigu fjörvanir -sigri.

Þar eptir siðaðisk landit, guldusk skattar hit efra sem hit ytra. Nú er hann orðinn fullgerr maðr um afl, vöxt ok ráðagerð. Hár hans 14
var sítt ok flókit, fyrir þá sök var hann lúfa kallaðr. Þá skar Rögnvaldr jarl á Mœri hár hans ok gaf hánum nafn ok kallaði hann Harald hinn hárfagra [ok þetta kvað Hornklofi:

þá var lofðungr
lúfa kallaðr
er í fylkis l . . . . .
. . . . . . ovum valt[4].

Siðan var Haraldr hárfagri kallaðr með konungs nafni[5]. Þá var hann meir en tvítugr at aldri en síðan átti hann mart barna ok af hans ætt eru komnir allir Noregs konungar. En þat var tíu vetr er hann barðisk

1) *saal. B;* osnæfrir, *A.* 2) *rettet,* gnúði *A og B.* 3) *saal. B;* hlífðir, *A.* 4) *Linjen indcirkles i A.* 5) *Fra* [ *mgl. i B.*

áðr til lands, en hann yrði einvaldskonungr at Noregi[1]; hann friðaði vel land sitt ok siðaði.

15. Ragna hin ríkuláta hét mær ein er átti bygð þá náliga alla er þótn er kallaðr ok Land heitir ok ey þá alla, er nú Eynbygð er kölluð; þat var ok mælt um Rögnu at hon var allra meyja fegrst. Ragna var dóttir Aðils hins auðga; Aðils var Ásu sunr þóru dóttur, en þóra var dóttir þeirra Eysteins konungs ok Ástríðar dóttur Aðils konungs, er Aðils svarti var kallaðr. En Aðils faðir Rögnu var þá fráfallinn, en Ragna var einberni hans. En þá var Haraldr konungr tólf vetra gamall er þetta var, ok Ragna var ok tólf vetra jafnaldra Haralds. En Haraldr lagði elsku mikla á Rögnu, en þá er Haraldr lét ástarorð sín i ljós við Rögnu, svaraði hon á þessa lund: „þat mæli ek víst með sannindum, at eigi em ek betra unnusta verð en þér eruð, veldr því hvártveggja konunglig byrð yður ok svá öll konunglig tign ok fegrð er á yðr er; en þó áðr en ek fella fulla ást til yðar, þá vil ek þess verða vör, hvárt heldr skulu verða arfar Neriðs hins ráðspaka frænda yðars, herra konungr, þér eða synir Gandálfs.“ þá svaraði Haraldr reiðr ok mælti svá: „þat ætlaða ek, Ragna, at þú skyldir fyrir ástar sakir með ágætri sœmd vera leidd til minnar sængr, en fyrir því at þú hefir brugðit mér þessum brigðslum, þá er nú þess vert at

16. þú sér svá leidd til minnar sængr sem ein fátœk frilla.“ þá mælti Ragna við konunginn: „eigi skulu þér, herra konungr, reiðask við, þó at vér mælim oss gaman, ok hœfir þat ekki konungdómi yðrum at brjóta kapp við kvennmenn ok þó allra sízt við meybörn smá sem ek em, heldr er yðr sœmd þat, herra konungr, at deila kappi við konunga aðra, er nú eru skipaðir um alt land innan. þat vil ek ok segja yðr, ef ek ræð mér sjálf, þá verð ek hvártki yður frilla né enskis manns annars, ok annathvárt skal ek hafa þann at eignum manni, er alla Noregs menn gerir sér at þegnum, eða skal ek engan hafa.“ þá er Haraldr konungr heyrði þessi orð, þá strengði hann þegar heit ok svór við höfuð sitt, at hann skyldi enga eigna konu eiga í Noregi nema Rögnu, ok þó með þeim hætti, at hann gerði alla menn at þegnum sér í Noregi. þat lét hann ok fylgja, at sú kona var verðari at eiga ágætan konung, heldr en einhvern heraðshauld, er svá skörulig orð hefir í munni sér sem

17. Ragna. þá gerði ok Haraldr ný lög um kvennarétt, at sá maðr er tekr konu nauðga, þá skal hánum þat verða at útlegðarsök, ok skal hann kaupa sik með 40 marka sex álna eyris í frið aptr. En sú kona er hon leggsk á laun, þá skal hon ganga í konungs garð ok týna frelsi sínu þar til hon er leyst þaðan með þrem mörkum sex álna eyris. „En

[1]) landinu, *B.*

fyrir því set ek þessi lög, at hver sú kona, er hon vill góð vera, þá vil ek at hon hafi sjálfræði á sér at halda kvensku sinni fyrir hverjum manni, en sú kona er hon vill ill vera, þá gjaldi hon ókvensku sinnar eptir því sem nú hefi ek mælt. Því heit ek ok at engum guði skal ek blót fœra þeim er nú göfga menn, nema þeim einum er sólina gerði ok heiminum hagaði ok hann gerði. Ok með því ek berumk þat fyrir, at ek vil vera einvaldskonungr at Noregi ok leggja undir mik alla aðra konunga, þá er áðr eru bæði ríkir ok máttugir, þá skal ek í þess trausti alla hluti gera, er máttugastr er ok öllu ræðr. Engi skal mér ok svá allkærr vera at vináttu, er annan guð göfgar en þann, þvíat ek þikkjumk þat sjá til sanns, at sá guð má ekki mér hjálpa ok engum öðrum, er hann hefir ekki meira ríki en einn stein eða einn skóg. Ek em maðr einn ok veit ek at ek skal deyja sem aðrir menn, ok kenni ek yfirgjarnligan hug með mér, en ef ek vissa at ek skylda jafnan lifa sem ek veit at guð lifir, þá mynda ek eigi una fyrr en ek hefða allan heiminn undir mér ok mínu forræði; fyrir því er þat merkanda um þessa guði: ef þeir hefði guðdóm nökkurn eða afl með sér, þá yndi þeir eigi svá litlu ríki at ráða, einum steini eða litlum lund; fyrir því skal hverr maðr vitandi láta sér þat skiljask“, sagði konungr, „sá er nökkut vit hefir fengit, at sá einn er sannr guð er alla hluti hefir skapat; þá má hann einn fulla hjálp vinna manninum, þvíat hann hefir manninn görvan sem alt annat; fyrir því man ek á þat stunda meðan ek lifi, at svá sem hugr minn stundar til þess guðs er öllum er máttugari, svá væntir mik ok, at af hans trausti skal ek enn verða máttkari öllum smákonungum þeim
sem nú eru í Noregi.“ En þá er Guðormr frændi Haralds konungs 18.
heyrði þessi orð, þá stóð Guðormr upp ok mælti í hljóði fyrir allri hirð Haralds konungs ok mörgum bóndum ok miklum fjölda annarra manna, ok var þessi fundr á Haðalandi hinn átta dag jóla, ok tók Guðormr svá til orðs: „Varla ætla menn hafa heyrt fyrr jafnsnotrlig orð or munni tveggja barna, þeirra sem eigi eru ellri en tólf vetra gömul, sem nú höfum vér heyrt or munni Haralds konungs ok Rögnu Aðilsdóttur: en þat má víst mæla með sönnu, at engi maðr hefir heyrt um vára daga, hvártki ungs manns né gamals þau sem jafnviðrkvæmilig má þykkja sem þau sem Haraldr konungr hefir mælt í dag, ok hefir hann þau sum mælt, er mikit má auka starf þeirra manna, er hánum vilja fylgja um þat fram er engi hans frænda hefir haft fyrir hánum, ok hafa þeir þó allir ýrit óróamenn verit. En fyrir því at svá höfðingjasamlig er orðin rœðan Haralds konungs, þá er nú engum manni viðskiljanda, æ meðan líf má endask, til fylgðar við hann, þeir sem áðr hafa þjónat hánum eða hans frændum, fyrr en þetta er reynt hvárt þetta má með

19. auðnu endask til fulls, er Haraldr konungr hefir mælt.“ Í þeim sama stað sverr Guðormr við höfuð sitt, at hann skyldi aldri skiljask við Harald konung æ meðan hann hefði líf, ok engan annan guð göfga nema þann er öllu ræðr. Haraldr konungr gaf á þeim degi Guðormi frænda sínum ríki þat, er Skjöldr hafði fyrir ráðit, ok í þann tíma var Óðins salr kallaðr ok vík þá með er Saltvík er kölluð, er nú heitir Œyslve ok allar strandir með er Saltvíkrstrandir váru kallaðar. Þetta ríki alt gaf Haraldr konungr Guðormi frænda sínum ok austr til Svínasunds, ok gerði hann þar Guðorm hertoga yfir[1].

20. Hann[2] átti 20 sunu ok með mörgum konum, ok urðu tveir konungar í Noregi, Eiríkr blóðöx ok Hákon góði. Var Eiríkr blóðöx í elzta lagi suna hans, en Hákon í yngsta lagi, þriði Ólafr digrbeinn, fjórði Björn kaupmaðr [er sumir menn kölluðu búnu[3], fimti Guðormr, setti Hálfdan svarti, sjaundi Dagr, átti Hringr, níundi Guðröðr skirra, tíundi Rögnvaldr, ellifti Sigtryggr, tólfti Fróði, þrettándi Hrœrekr, fjórtándi Tryggvi, fimtándi Gunnröðr, sextándi Eysteinn, sjautjándi Sigurðr risi, átjándi Guðröðr ljómi, nítjándi Hálfðan hvítbeinn er sumir kölluðu háfœtu, tuttugti Rögnvaldr rykkill er sumir kalla Ragnar.

### *Um viðrskipti Haralds konungs hins hárfagra ok Aðalsteins góða konungs í Englandi.*

21. Þenna tíma réð Englandi ungr konungr Aðalsteinn góði er þá var tiginn[4] maðr einn hinn mesti í Norðrlöndum. Hann sendir menn sína til Noregs á fund Haralds[5] konungs við þesskonar sending, at sendimaðr gékk fyrir konung, selr hánum sverð gulli búit, bæði með hjöltum ok meðalkafla, ok öll umgerð var búin gulli ok silfri ok sett dýrligum[6] steinum. Heldr[7] sendimaðr sverðshjöltunum fyrir konungi[8] ok mælti: „hér er sverð er Aðalsteinn Engla konungr sendi yðr at gjöf.“ Konungrinn tók um meðalkaflann ok þegar mælti sendimaðrinn: „nú tóku þér svá[9] sem várr konungr vildi, nú skaltu vera þegn hans ok sverðtakari.“ Haraldr konungr fann at þetta var með spotti sent, hugsar fyrir sér vandliga ok spurði spekimenn[10] sína hvárt drepa skyldi sendimanninn[11] eða neisa konung á aðra lund? eigi vildi hann vera þegn Engla konungs ok enskis manns í veröldu. Þá minnisk Haraldr konungr með fortölum sinna manna, at þat er eigi konungligt at drepa sendimenn annars konungs, þá er bera óaukit erendi síns herra, heldr at láta ráð ráði í mót koma ok orð orði, lætr á braut fara

[1]) *Cap. 15, 16, 17, 18, 19 udel. i B.* [2]) Haraldr [3]) *mgl.* [4]) tignar [5]) *saal. B;* Hákonar *urigtig A.* [6]) dýrum [7]) hélt [8]) konung [9]) við *tilf.* [10]) spekinga [11]) *saal. B;* sendimenn *A.*

menn Engla konungs í friði. Annat sumar sendir Haraldr skip vestr
til Englands ok fær til hinn bezta vin sinn Hauk hábrók at stýra. Kon-
ungr fær hánum í hendr eitt barn[1] þat er fœtt hafði ambátt konungs, sú
er hét þóra mostrstöng; hon var æzkuð í Mostr á Sunnhörðalandi.
þessi sveinn hét Hákon, ok kallar móðirin at hann væri sunr Haralds
konungs. En Haukr kom vestr til Englands ok fann Aðalstein konung
í Lundúnum ok gékk fyrir hann, þá er borð váru í brottu, kvaddi
konunginn. Konungr bað hann vel kominn; þá mælti Haukr: „Herra!
Haraldr konungr Norðmanna sendi yðr góða kveðju, þar með sendir
hann yðr einn hvítan fugl vel vandan, ok bað[2] venja enn betr héðan ífrá.“
Tók barnit or skauti sínu[3] ok setti í kné konungi[4], hann leit til, en Haukr
stóð fyrir konungi ok hneig hánum ekki ok hafði undir skauti[5] sér á
vinstri hlið snarpeggjat sverð, ok svá váru búnir allir hans menn, ok
váru saman þrír tugir manna. þa mælti Aðalsteinn konungr: „hverr á
barn þetta?“ þá svaraði Haukr: „Ambátt ein í Noregi, ok mælti Har-
aldr konungr, at þú skyldir henni barn fœða[6].“ Konungr svaraði: „eigi
hefir þessi sveinn þræls augu.“ Haukr svaraði: „ambátt er móðirin, ok
segir hon at Haraldr konungr sé faðirinn, ok er nú sveinninn þinn knésetn-
ingr; þér er nú jafnvant við hann sem við þinn sun.“ Konungrinn
svaraði: „hvi[7] mynda ek fœða Haraldi konungi barn, þó at þat væri eig-
innar[8] konu barn? en hálfu síðr ambáttar barn“, ok þreif annarri hendi til
sverðs, er lá íhjá hánum, en annarri hendi barnit. þá mælti Haukr:
„fóstrat hefir þú eitt[9] barn Haralds konungs, ok [á kné sett[10], ok mátt þú
myrða þat ef þú vilt, ok mant þú ekki at hváru með því mega eyða
öllum sunum Haralds konungs, ok man þat mælt héðan ífrá sem hingat
til, at sá er úgöfgari er öðrum fóstraði[11] barn.“ Eptir þetta snýr 22.
Haukr í brott ok snarar möttulinn á vinstri hönd sér, en hefir brugðit
sverðit í annarri[12] hendi; gékk sá út fyrst hans manna, er síðast hafði
inn gengit. Fara þeir við svá búit til skips síns, ok var veðr hagstœtt
undan landi í haf, ok þess neyta þeir, sigla til Noregs. Ok er þeir
kómu á konungs fund þá þakkaði hann Hauki vel sína ferð. En Aðal-
steinn konungr lætr þar Hákon uppfœðask í hirð sinni, ok er hann
kallaðr síðan Aðalsteins fóstri. Í þvílíkum viðrskiptum konunga fannsk
þat, at hvárr þeirra vildi heita meiri en annarr, ok er gört ekki mis-
deili þeirra tignar fyrir þessa sök, [ok var hvárr þeirra[13] konungr í sínu
ríki til dauðadags.

1) svein einn 2) yðr *tilf.* 3) skauta sínum 4) konungs 5) skikkju
6) upp fœða. 7) *saal.. B;* því *A.* 8) eiginkonu 9) nú, konungr!
10) knésett 11) fœðir 12) hœgri 13) *saal. B*; at hvártveggi
var *A.*

### *Um Eirík blóðöxi.*

23. Eiríkr blóðöx var sunr Haralds konungs er konungr unni mest. Hann setti Eirík höfðingja innan hirðar, því at konungr var þungfœrr af elli, tignaði hann Eirík í því, at hann setti hann í hásæti sitt ok lét hann heita konung, gaf hánum vald at stjórna hirð sína ok at skipa[1] konungs málum ok at dœma lands lög. Með þeima hætti stóð ríkit þrjá vetr áðr en Haraldr konungr andaðisk. Hann varð sóttdauðr á Rugalandi ok er [haugr eptir hann[2] í Haugasundi, þá hafði hann verit þrjá vetr ok sjau tugu vetra konungr.

24. Eptir Harald tók Eiríkr blóðöx [við ríkinu[3], en Hákon var vestr í Englandi. Eiríkr konungr átti Gunnhildi, er kölluð var konunga móðir, dóttir Özurar [tota eða[4] lafskeggs norðan af Háloga[5] landi. Eiríkr konungr var maðr mikill ok sterkr, hreystimaðr [fríðr á sjónum, á lunderni harðligr, fjárgjarn, úforsjáll, sigrsæll ok orrostumaðr[6] mikill. Gunnhildr kona hans var fögr sjónum ok tigulig, ekki mikil kona, djúphuguð, margmálug ok grimmlunðuð, eigi vinholl, œrit gjörn til fjár ok landa. Þau áttu nökkur börn [þessi sem nú nefnum vér[7]: Gamli, Guðormr, Haraldr, Erlingr, Ragnfröðr, Sigurðr sleva; Ragnhildr var dóttir þeirra, er giptisk í Orkneyjar. Þessi öld var skömm ok þótti þó landsmönnum ýrit[8] löng, fyrir því at þeir kölluðu konung áhlýðinn, en [dróttningin var hin illgjarnasta[9]. Þat lýstisk með því at Eiríkr lét drepa Björn kaupmann, Ólaf digrbein ok fleiri brœðr sína. Þat var margra manna mál at hann mundi vilja eyða brœðrum sínum, ok ráða einn konungdóminum, ok hefja[10] svá sína sunu til ríkis eptir sína daga, ok varð hann úvinsæll[11] við alla alþýðu.

### *Um Hákon góða.*

25. Hákon góði fœddisk upp með Aðalsteini ok tók þar skírn í barnœsku. Frá hánum er svá sagt, at hann var líkr feðr sínum at fríðleik, sterkri ok meiri en hans ættmenn höfðu verit. Þórólfr Skólms sunr[12] var kallaðr jafnsterkr Hákoni, en engi fannsk hinn þriði þeirra maki at sterkleik. Hakon var hœfilátr[13], djúpráðr, ráðhollr, minnigr, glaðr, heilhugaðr, vitugr; kurteisari í allri atgörvi en aðrir menn, til vápns eptir afli ok atgörvi. Konungrinn, fóstrfaðir hans, unni hánum umfram alla menn, ok svá öll alþýða, er hans nafn kunni. Aðalsteinn gaf hánum sverð þat, er hjöltin váru af gulli, ok Hákon reyndi svá

1) skipta 2) heygðr 3) ríki 4) *mgl.* 5) Háleygja 6) *mgl.* 7) er svá heita 8) œrit 9) dróttning illgjarna 10) hafa 11) fyrir þat *tilf.* 12) Þórálfr Skúmssunr 13) blíðlátr, *her begynder den förste Lakune i B.*

hart, at hann hjó í kvernstein einn ok beit alt til augans, þat var kallat síðan kvernbiti. Þat sverð hefir Hákon alt til dauðadags.

Einum vetri síðar en Haraldr konungr hafði andazk, spurðisk andlát hans til Englands vestr, ok á því sama sumri með ráði Aðalsteins fóstrföður síns fór Hákon til Noregs; at þeim gerði veðr ilt í hafi, ok skildusk liðit, týndisk sumt en sumt tók Noreg, ok þeir er næstir kómu því er Eiríkr konungr var, fóru á fund hans, ok sögðu hánum at Hákon bróðir hans myndi farizk hafa í hafi; þessa sögu bar konungr fyrir Gunnhildi, ok lét vera vel orðit þat at hann skyldi ekki óttask Hákon at konungdómi sínum. Hon svaraði á þessa lund: 26.

**Há- reið á bak báru**
**borðhesti -kon vestan[1],**
**skörungr[2] léta brim bíta**
**börð, er gramr hefir fjörðu.**

Af vísendum sínum vissi hon, at Hákon hafði fjör, ok kom hann sínu skipi heilu við Noreg, fór með sér vitrliga ok listuliga, beiddisk enskis, vingaðisk við alla, þýddisk ráðamenn, mintisk gamalla manna með spakligum ráðum, miðlaði gjafir leikmönnum ok œskumönnum, tamdi sik með þeim í leika ok gleði, sýndi í fjölmenni atgörvi sína á marga lund; fyrir þá sök lofaði hverr maðr hann, gerðisk orð á hánum, þat er flaug í hvers manns hús. Eptir þat girndusk allir til hans, en óttuðusk ofríki ok úlög, er á lögðusk við landsbúit, ok kendu allir Gunnhildi, en sá finnsk engi er í móti mæli, at hon væri þess valdandi. Leið svá vetr sá, at Hákon hafði eigi konungs nafn, en at sumri þrýstu bœndr saman ríki Eiríks, en mikluðu Hákonar megin, tóku Hákon til konungs yfir sér. Þá var hann náliga tuttugu vetra, er hann kom í land. Eptir þat þá heituðusk bœndr við Eirík, ok vildu ekki lengr illræði Gunnhildar þola. Með ráði vitra manna fór Eiríkr or landi ok sótti á fund Aðalsteins konungs eptir hans vinmælum, er hann hafði sent með Hákoni fóstrsyni sínum, at Eiríkr skyldi velkominn vera með Aðalsteini, ef hann vildi eigi úþokkask brœðr sínum Hákoni eða berjask við hann. Fékk Aðalsteinn Eiríki konungi at friðlandi ok yfirsókn Norðumbraland; þar tók Eiríkr skírn ok trú rétta. Norðumbraland er kallat af heiti Norðmanna fyrir þær sakir, at Norðmenn hafa löngum haft ríki yfir því landi; þar eru mörg örnöfn gefin með norrœnni tungu, svá sem er Grímsbœr ok Haugsfljót.

Eiríkr konungr, þá er hann tók ríki á Norðumbralandi, hugsaði 27.
fyrir sér, hversu víðlendr faðir hans var, þá er hann réð fyrir öllum Noregi ok mörgum skattlöndum, ok þóttisk lítit hafa til forræðis, ok

[1]) *rettet for* festan [2]) *rettet for* skonungr

fyrir þá sök lagðisk hann í vestrvíking ok herjaði víða á vestrlönd.
þeir eru synir Torfeinars jarls: Arnkell, Erlendr, þorfinnr hausakljúfr.
Sunr þorfinns, Hávarðr, fékk Ragnhildar, dóttur Eiriks konungs. þat
var eitt sumar, at Eiríkr konungr herjaði fyrir vestan Skottaland ok
um Írland ok um Bretland, ok eigi léttir hann ferðinni fyrr en hann
kom suðr fyrir England, ok herjar þar sem í öðrum stöðum, fyrir því
at þá var andaðr Aðalsteinn konungr, ok réð þá Englandi Játmundr konungr
28. sunr hans. Eiríkr hafði svá mikinn her, at hánum fylgðu 5 konungar. Með
því at Eiríkr var hreystimaðr mikill ok sigrsæll, þá treystisk hann svá
mjök sjálfum sér ok liði sínu, at hann gékk langt upp á land, ok fór
alt með hernaði; þá kom í móti hánum Ólafr konungr, hann var skatt-
konungr Játmundar konungs, þeir börðusk ok var Eiríkr borinn ofrliði
af lands her, ok féll hann þar með öllu liði sínu, ok þar féllu með hán-
um synir Torfeinars, Arnkell ok Erlendr. Eptir fall Eiríks lét Gunnhildr
yrkja kvæði um hann, svá sem Óðinn fagnaði hánum í Valhöll, ok
hefr svá:

Hvat ęr þat drauma? (kvað Óðinn)
ek hugðumk fyr dag litlu
Vallhöll ryðja
fyr vegnu fólki;
vakta ek einherja,
bað ek upp rísa
bekki at strá,
bjórker at leyðra[1],
valkyrjur vín bera,
sem vísi komi;
erumk or heimi
haulda vánir
göfugra nökkurra,
svá er mér glatt hjarta.

Hvat þrymr þar, Bragi!
sem þúsund bifisk
eða mengi til mikit? —
„Braka öll bekkþili
sem muni Baldr koma
aptr[2] í Óðins sali“.

Heimsku mæla (kvað Óðinn)
skalt þu, hinn horski Bragi!
þó at þú vel hvat vitir.

[1]) *saal. Snorres Edda;* lyðra *A.* [2]) *rettet for* eptir.

Fyr Eiríki glymr,
er hér mun inn koma
jöfurr í Óðins sali.

Sigmundr ok Sinfjötli!
rísit snarliga,
ok gangit ígegn grami!
inn þú bjóð,
ef Eiríkr sė,
hans er mér nú ván vituð.

Hví er þér Eiríks ván, (kvað Sigmundr)
heldr en annarra konunga?
því at mörgu landi (sagði Óðinn)
hann hefir mæki roðit,
ok blóðugt sverð borit.

Hví namt þú hann sigri þá,
er þér þótti hann snjallr vera?
þvíat óvíst er at vita (sagði Óðinn):
sér úlfr enn hösvi
á sjöt goða.

Heill þú nú, Eiríkr! (kvað Sigmundr)
vel skaltu hér kominn,
ok gakk í höll, horskr!
Hins vil ek þik fregna,
hvat fylgir þér
jöfra frá eggþrimu?

Konungar eru fimm, (sagði Eiríkr)
kenni ek þér nafn allra,
ek em hinn setti sjálfr.

Hér segir þat, at fimm konungar féllu með hánum, ok svá hvat mikill hermaðr hann hafði verit. Svá segir ok Glúmr Geirasunr í sínu kvæði, at Eiríkr herjaði, áðr en Haraldr konungr andaðisk, suðr við Halland ok Skáni ok víða um Danmörk, ok alt fór hann um Kúrland ok Eistland, ok mörg önnur lönd herjaði hann í Austrvegum. Hann herjaði ok víða um Svíþjóð ok Gautland; hann fór norðr á Finnmörk ok alt til Bjarmalands með hernaði. Í þeirri ferð sá hann fyrsta sinn Gunnhildi: þá var hon á fóstri ok at námi með Möttul Finna konungi, sá var allra fjölkunnastr. Ok síðan Eiríkr kom til Englands, þá herjaði hann um öll Vestrlönd. Fyrir þessa sök var hann kallaðr Eiríkr blóðöx. Eptir fall Eiríks konungs úvingask Játmundr konungr Gunnhildi ok sunum Eiríks, finnr þá sök til at Eiríkr herjaði innan-

lands á ríki[1] konungs. Fór þá Gunnhildr á braut af Englandi með sunum sínum til Danmarkar, fær þar friðland af Haraldi Gormssyni. Hann tók Harald sun Eiríks til fóstrs ok knésetti hann; ok var hann jafnan innan hirðar, en Gamli ok Guðormr lögðusk í hernað fyrst í Austrveg ok síðan í Noreg, ok gerðu alt þat ilt er þeir máttu í ríki Hákonar konungs.

### *Hákon kom til ríkis í Noregi.*

29. Hákon tók konungdóm í Noregi tveim vetrum síðan en faðir hans andaðisk. Hann var bæði vinsæll ok ársæll; hann setti lög um allan Noreg með ráði þorleifs ens spaka ok annarra vitra manna, ok af þeim lögum nýtti hinn helgi Ólafr konungr mestan hlut. Á hinu sextánda ári ríkis átti hann fjölment þing inn í þrándheimi á Mærini, ok á því þingi gerðu þrœndir konunginum tvá kosti, at hann skyldi [blóta eptir vanda[2] hinna fyrri konunga, ok fylla svá hin fornu lög til árs ok friðar, elligar mundu þeir reka hann af ríkinu, ef hann vildi í þessu svá vera fyrir þeim sem um ríki eða skatttöku. Konungr vildi þetta víst eigi gera. Ástvinir konungs ok mikit fólk géngu í millum ok biðja bœndr þyrmask við konung, ok tala þat, hversu nytsamligr þeirra höfðingi var sínum þegnum ok mikill ráðsmaðr til laga ok siða. Í annan stað biðja þeir konung minka þenna kurr ok taka einn lítinn hlut í samþykt, svá at blótmenn kalli eigi, at af hánum verði niðrfall laganna. Fyrir huggœðis sakar ok ástar við vini sína þá gerði hann eptir bœn þeirra ok blótaði.

30. Á sjautjánda ári ríkis gaf hann konungsnafn Tryggva syni Ólafs konungs Haralds sunar, bróðursyni sínum, ok gaf hánum ríki í Vík austr, setti hann þar til lands at gæta við Dönum ok víkingum, er þá gerðu mikinn skaða á Noregs ríki; ok lagðisk þat til hefndar við Hákon af guði eptir þat er hann hafði blótat, at í ríki hans var jafnan úfriðr af sunum Gunnhildar ok öðrum víkingum, ok lágu þeir til þess illvirkis í Brenneyjum, Varðeyjum, í Myl ok Mystrasundi. Hákon konungr fór at leita þeirra með tveim snekkjum ok hitti víkinga suðr fyrir Hallandi: Vindi ok Dani með 10 skipum, bersk við þá ok vann sigr ok rak fyrir borð mikinn hluta af liði þeirra, tók alt fé þeirra, herjaði víða á Halland ok Fjón, ok fór við svá búit í ríki sitt.

31. Á tuttugta ári kvámu synir Eiríks blóðöxar með herliði, Gamli, Haraldr ok Sigurðr, sunnan af Danmörku ok herja á Noreg, alt þar

[1]) *Saaledes rettet for* Eiríki [2]) *saaledes rettet ifölge Torfæus Hist. Norv. P. 2 Pag. 221 for* bœta aptr vandræði.

sem þeir fara. Hákon konungr var þá staddr á Norðmœri sunnarla með liði sínu, þar sem heitir Freiðarey, ok var Hákon eigi fyrr varr við, en þeir Gamli konungr lögðusk með her sinn í Féeyjarsundi við Féey í nánd Freiðarbergi; fóru menn í millum, ok var eigi kostr annars af Eiríks sunum en berjask. Hákon konungr lét sik ok eigi dvelja, þegar hann vissi at frændr hans girntusk á þat. Egill hét maðr gamall, sá var merkismaðr á œskualdri sínum Haralds konungs hins hárfagra ok var nú örvasi, hann hafði þat mælt, at hann vildi þann dauðdaga hafa at falla í fólkorrostu. Þá var svá mikill liðs munr, at vera mundu sex um einn Hákonar manna, þá bað Egill konunginn, at hann skyldi fá hánum merki eitt á hverju skipi ok mann til hvers merkis, ok váru þar 10 merki. En Eiríks synir, er þeir sá at lið Hákonar var miklu færra, ganga á land at fylkja við Freiðarberg ok ganga svá í mót Hákoni, ok verðr þar mikil orrosta. En er atlaga hafði tekizk, þá fór Egill ok 10 menn með hánum, ok hafði hverr þeirra merki í höndum, ok géngu svá fram með brekku þeirri, er þar var upp á nes eitt sem þeir börðusk, svá at merkin mátti sjá þaðan sem bardaginn var, en eigi þá er fylgðu eða báru. Nú sjá Danir hvar merkin fara ok hyggja þar munu fara mikit liðit, ok hræðask at þeir munu taka milli þeirra ok skipanna; héraf kemr flótti í lið Eiríks suna, ok flýja þeir sjálfir ok lið þeirra, ok þá er þeir koma á hæðina gegnt Freiðarbergi, þá sjá þeir aptr út á Rastarkálf, at ekki herlið fylgði merkjunum; lætr þá Gamli skjóta upp merki sínu ok kveða við lúðr sinn, samnask nú saman lið þeirra, ok skjóta á fylking, en Danir ok leiðangrs fólk flýja til skipa. Þá kemr Hákon konungr öllu liði sínu at þeim, hófsk nú annat sinn orrostan, ok féllu margir af hvárumtveggja, ok tók brátt at ganga á þá Gamla, ok skildisk lið þeirra, ok flýði Gamli ok þeir allir brœðr fram með berginu; en sumt tók upp á bergit ok var þar drepit, en sumt tók fyrir hamra ofan ok dó þar. En er þeir Gamli kvámu í fjöruna, þá varð hann sárr mjök af Hákoni konungi ok tók undan á kaf ok druknaði. Haraldr ok Sigurðr brœðr Gamla kómusk með sundi til skipa, en Hákon drap þar í fjörunni 3 skipsóknir af liði þeirra, ok hlóðu upp skipin undir þeim; í þau skip var lagðr í valrinn ok orpnir þar haugar utan at, þar stendr ok bautaðarsteinn hár sem Egill féll.

Synir Eiríks konungs er þeir kómusk á skip sín flýja aptr suðr 32.
til Danmarkar, en Hákon konungr fór eptir þeim um hríð ok fundusk ekki optar at því sinni. En þó at Eiríks synir hefði herjat mikit í Noregi, þá þóttusk þeir meira hafa látit í ferðinni, ok una nú hálfu

verr en áðr sínum hlut, ok með trausti Danakonungs ok liði því er hann heitr þeim, ætlask þeir aptr at venda ok hefna Gamla ok annarra manna sinna. Við þessarri ætlan gerir Hákon konungr þat ráð, at nefgildis skatta, þá er Haraldr konungr faðir hans hafði lagt á alt landit, lét hann taka hit ytra með sjó ok um þrœndalög ok leggja til skipa gerðar. Hann gerði ok nefnd í hverju þessu fylki, hversu mörg skip eða hversu löng at rúmatali skyldu vera or hverju fylki at mönnum ok vápnum ok vistum fyrir útlenzkum her, svá at hverr karlmaðr, sá er vígr var ok frjáls, skyldi eiga skjöld ok kesju ok höggvápn; fyrir því at konungr var opt ekki fjölmennr, þóttisk hann þar þá mega lið taka er hann var staddr, þegar nauðsyn væri ok herþurft; var þá reiðubúit skip ok menn með vápnum, hvar sem konungr þurfti at krefja. Hákon konungr lét gera vita á háfjöllum hit efra um alt land, svá at herboð fór á 7 nóttum frá hinum synsta vita í hina nörztu þinghá á Hálogalandi. Þat hendi nökkurum sinnum, at þeir menn, er gættu hins synsta vitans, urðu þess varir, at herskip mörg váru um eyjar ok nes, brendu bygðir ok drápu menn; þá var skotit upp vitum, ok var herhlaup um alt land, váru þetta þó ekki Gunnhildar synir né Danakonungs herr, þvíat í þann tíma váru margir víkingar þeir, er einn höfðingi réð fyrir mörgu liði ok herskipum. En þeir menn er norðan or landi fóru í leiðangr eptir vita uppboðinu, þá fóru þeir langa leið áðr en þeir spurðu it sanna, at þeirrar ferðar þurfti ekki, ok þeir víkingar er[1] herjat höfðu váru í brottu, ok höfðu vent í annan stað sínum hernaði. Þetta starf þótti mörgum manni ilt, fyrir því at engi nytsemd stóð af því, ok sjálfum konungi þótti svá illa, at hann lagði við líf ok limu[2] þeim manni, er kunnr ok sannr yrði at því, at hersögu segði þá er login reyndisk. Fyrir þessa sök þorði engi öðrum at segja, [þat at mörg skip sigldu sunnan með landi; þau fóru útleið ok kómu ekki meir við land, en þeir menn er þar váru á höfðu njósn af landi um farar ok veizlutökur Hákonar; en þat eru Gunnhildar synir, ok með þeim víkingr einn, sá er kappi var mikill ok hét Eyvindr skreyja; þeir höfðu vel búin skip at vápnum ok liði.[3] Hákon konungr tók veizlu, þá er þeir kómu or Danmörku með þenna her, í Storð á Fitjum, ok er hann leyndr þessum tíðendum ok allir

[1]) *her begynder atter B.* [2]) limi [3]) þó at mörg skip sigldi sunnan með landi. Nú bar svá at einu sinni at Gunnhildar synir sigldu sunnan af Danmörku ok fóru útleið, ok kómu ekki meir við land en svá at menn höfðu njósn um farar þeirra, ok svá höfðu þeir ok njósn um veizlutökur Hákonar konungs. Þeir höfðu skip vel búin at liði ok at vápnum, ok með þeim var víkingr einn mikill, sá er hét Eyvindr skreyja.

hans menn alt þingat til, er skipin sigla sunnan ok eigu skamt til eyjarinnar. Þá sat konungr yfir borðum. Nú kom kurr fyrir hirðmenn, at skip váru sén sigla, ok géngu út [þeir sem glöggsýnastir[1] váru at sjá, ok [mælti hverr til annars,[2] at þat myndi vera úfriðarmenn, ok bað hverr annan segja konungi. En engi [varð við[3] nema Eyvindr Finnssunr, er kallaðr var skáldaspillir, hann gékk inn [í stofuna ok mælti til konungs[4]: „lítil er líðandi stund, herra! en langt matmál." Konungrinn svaraði: „skáld! hvat ferr nú af víðum vegum?" Eyvindr svaraði á þessa lund:

Blóðöxar tjá beiða
brynþings fetilstinga
-oss gerask hnept- ens hvassa
hefnendr -setuefni;
heldr er vant, en ek vilda
veg þinn, konungr! segja
(fám til fornra vápna
fljótt) hersögu dróttni.

Þá svaraði Hákon konungr: „Eyvindr, þú ert góðr drengr ok vitr maðr, eigi myndir þú segja hersögu nema sönn væri." Þá mæltu allir þeir er hjá váru, ok sögðu at satt var, [ok þá sigldu skipin[5] ok áttu skamt til eyjarinnar. Þá[6] bauð konungr taka upp borðin, ok gékk út at sjá liðit, ok er hann hafði sét, kallaði hann til sín ráðgjafa sína ok spurði, [hversu með skyldi fara[7]: „hér sigla mörg skip[8], en vér höfum [lítit lið[9], ok vilda ek eigi leiða í ofmikinn háska hina beztu vini mína; en víst [ekki vilda ek ok[10] flýja, ef vitrum mönnum sýndisk eigi, at [þar væri ofmikil fólska[11]. Þá svaraði Eyvindr:

Samira[12], Njörðr enn norðar
naddregns hvötum þegni
(vér getum bili at bölva)
blámœrar skæ fœra;
nú er þat er rekr [á rakna
rúmleið[13] flota breiðan
(grípum vér í greipar
gunnborð) Haraldr sunnan.

Nú svarar hverr at öðrum sem einum munni, at hverr vildi heldr falla um þveran annan heldr en flýja fyrir Dönum. Þá mælti

[1]) nökkurir þeir er glöggþeknastir [2]) sagði hverr öðrum [3]) var til [4]) fyrir konung ok mælir svá [5]) at skipin sigldu [6]) því næst [7]) hvat þá skyldi at hafask [8]) sunnan, *tilf.* [9]) lið lítit ok þó frítt [10]) vilda ek [11]) þat væri mikil skömm eða fólska [12]) Samirat [13]) at regni rumskeiðs.

konungr: „Segit allra drengja heilastir! ok taki hverr sín vápn, ok man ekki til saka, hversu margir Danir eru um einn Norðmann“.

33. Eptir þat fór konungr í brynju[1] ok gyrði sik með kvernbítinum ok setti gyltan hjálm á höfuð sér; eptir þat tók hann skjöld sinn [ok kesju[2] ok fylkti liði sínu, ok lét hirðmenn ok boðsmenn alla saman, sem Eyvindr segir í kvæði því, er hann orti eptir fall Hákonar, ok setti hann þat eptir því, sem Gunnhildr hafði látit yrkja [eptir Eirík[3], sem Óðinn byði[4] hánum heim til Valhallar, ok segir hann marga atburði í kvæðinu frá orrostunni, ok hefr svá:

Göndul ok Skögul
sendi Gautatýr
at kjósa um konunga.
hverr Yngva ættar
skyldi með Óðni fara
í Valhöll at vera.

Bróður fundu þær Bjarnar
í brynju fara,
konung enn kostsama
kominn und gunnfána;
drúptu dólgar,
en dörr[5] hristisk,
upp var þá hildr um hafið[6].

Hét á Háleygi
sem á Hólmrýgi,
jarla einbani[7]
fór til orrostu;
gott hafði hinn gjöfli[8]
gengi Norðmanna,
ægir eydana
stóð und arhjálmi[9].

Í þessum þys kvað Eyvindr skáldaspillir einn gamankviðling til Hákonar konungs áðr en fylkingarnar legðisk[10] at:

Lýtr fyr löngum spjótum
landsfólk (bifask randir),
kveðr oddviti oddum
Eyvindar[11] lið skreyju.

[1]) hringabrynju [2]) *udel.* [3]) um Eirík sun sinn [4]) *saal. B;* bauð *A* [5]) durvörðr [6]) hafin [7]) *rettet*; einn bani, *A og B* [8]) göfgi [9]) hám hjálmi [10]) lœpisk [11]) *saal. B;* Eyvindr *A.*

Þá svaraði konungr:

Vel launa mér mínir
menn (œxlum styr þenna)
(hríð vex Hamdis klæða)
hodd ok rekna brodda.

Á þvílíku má sjá hversu úhræddr konungr var, er hann íhugaði svá sína hluti.

Gunnhildar synir ganga nú á land upp ok fylktu liði sínu, ok höfðu lið miklu meira. Þann dag var veðr heitt af sólu, þá steypti Hákon konungr af sér brynjunni ok setr upp hjálm sinn, eggjar alla sína menn til framgöngu hlæjandi, ok gladdi svá liðit með sínu blíðligu yfirbragði, eptir því sem Eyvindr segir:

Hrauzk or herváðum[1],
hratt á vǫll brynju
vísi verðungar,
áðr til vígs tœki;
lék við ljóðmögu,
skyldi land verja;
gramr hinn glaðværi
stóð und gullhjálmi.

Eptir þat tóksk bardagi ok var hinn harðasti. Þá er skothríð var lokit, brá Hákon konungr sverði sínu ok stóð framarla undir merkinu, hjó á báðar hendr, misti aldrigi, ok beit sverðit þó sem misti, sem hér segir:

Svá beit þá sverð
or[2] siklings hendi
váðir Váfaðar
sem í vatn brygði;
brökuðu broddar,
brotnuðu skildir,
glumdu[3] gylfringar
í gotna hausum.

Tröddusk[4] törgur
[fyr Týs ok bauga[5]
hjalta harðfótum
hausar[6] Norðmanna;
róma varð í eyju,
ruðu konungar
skírar skjaldborgir
í skatna blóði.

[1]) herfötum [2]) í [3]) glumruðu [4]) *saal. Sn.;* trauðuðu *A og B* [5]) *saal. Sn.;* við Týs um (of) valdi *A og B* [6]) *saal. Sn.;* hausa *A og B.*



Brunnu beneldar
í blóðgum undum,
lutu[1] langbarðar
at lýða fjörvi;
svarraði sárgymir[2]
á sverðanesi,
féll flóð fleina
í fjöru Storðar.

Eyvindr kreyja tók at ganga svá hart fram í orrostu, at hann frýði Norðmönnum hugar; hann sótti þar mest at sem merki Hákonar konungs fóru[3], ok spurði: „hvar er Norðmanna konungrinn? fyrir hví leynisk hann ok þorir eigi[4] at sýna sik? hverr kann [at segja[5] til hans?“ þá svaraði Hákon konungr: „halt[6] svá fram, ef þú vilt finna konung Norðmanna.“ þá kastaði Hákon konungr skildinum á hlið sér ok tók báðum höndum á meðalkafla sverðsins, ok hljóp fram undan merkinu[7]. þa mælti þórálfr Skúmssunr[8]: „látið mik, herra, í mót Eyvindi.“ Konungrinn svaraði: „mik vill hann hitta ok mik skal hann fyrir finna“. En konungr kom fram þar sem Eyvindr var ok hjó á tvær hendr[9], þá hjó Hakon konungr með kvernbítinum[10] báðum höndum í höfuð Eyvindi ok klauf hjálminn ok svá höfuðit í herðar niðr[11]. Um þetta orti síðan Eyvindr skáldaspillir:

Baðat valgrindar vinda
veðrheyjandi Skreyju[12]
gumnum hollr né gulli
Gefnar sinni stefnu,
ef [sólrýri sára[13]
sigrminnigr vilt finna,
fram haltu, njótr! at nýtum
Norðmanna gram, þannig[14].

Aðra vísu orti hann um fall Eyvindar skreyju:

Veit ek at beit hinn bitri
byggving meðaldyggvan
búlkaskíðs or báðum
benvöndr konungs höndum;
ófælinn klauf óla
eldraugr skarar hauga
gullhjöltuðum galtar
grandaðr[15] Dana brandi.

1) *saal. B;* bitu *A.* 2) *saal. Sn,;* sjórgymis *A;* sjórgymner *B.* 3) var 4) fram at ganga *tilf.* 5) segja mér 6) haltu 7) merkjum 8) *saal. B;* Skólmssunr *A.* 9) hliðar sér 10) kvernbít 11) ofan 12) *saal. Sn.;* Skreyja *A og B.* 13) sólspennir sunnan 14) *rettet for* ranna (hranna). 15) *rettet for* grandað.

Á aðra hlið Hákoni konungi stóð þórálfr sterki Skúmssunr ok drap margan mann með sínu sverði [er Fetbreiðr hét[1], sem konungrinn hafði gefit hánum, sem segir þórðr Sjárekssunr:

þar er böðharðir[2] börðusk
bands jódraugar landa,
lystr gékk herr til hjörva
hnits, í Storð á Fitjum,
áðr gimslöngvir ganga
gífrs hlémána drífu
naustablakks hit næsta
Norðmanna gram þorði.

Varði varga myrðir
vítt (vá skal frið slíta)
-jöfur vildu þann aldir[3]-
öndurt fólk -at löndum;
starf hófsk upp þá er arfi
ótta vanr á flótta
gulls, er gramr var fallinn,
Gunnhildar kom sunnan.

þrot var sýnt, þá er settusk
sinn róðrs[4] við hlumm[5] stinnan
-maðr lét önd ok annarr
úfár- bœndr sárir;
ok hjörkrafðir höfðu
huggendr munins tuggu
gauks við gjálfr um leikna
grunnu sand í munni.

Afreks[6] veit þat, er jöfri
allríkr í styr slíkum
gunnar Njörðr, þar[7] er gerði,
gékk næst, hugins drekku.

Í þessarri orrostu var ekki gott blauðum manni mótigang[8] at veita fyrir sakar afls ok vápna ok áræðis, ok þóttisk sá danskra manna bezt hafa, er [firstr var, en þeim leiddisk brátt er næstir váru[9]; ok brátt eptir fall Eyvindar skreyju kom flótti í lið Gunnhildar suna ok flýðu [sjálfir til skipa sinna[10]. En menn Hákonar konungs fylgðu

[1]) *saal. B;* festbreiðu *A.* [2]) *saal. Sn.;* barðharðir *A*; borðharðir *B.* [3]) eldask [4]) *saal. Sn.;* raðrs *A;* róðs *B.* [5]) þröm *Sn.* [6]) *saal. B;* afrek *A.* [7]) þeim [8]) mótgöngu [9]) *saal. B;* first var, en þeim síðast á brot er næst höfðu komit *A.* [10]) þeir til skipa sinna; féll þar mikit fólk af sunum Eiríks, en þeir flýðu sjálfir *B*

þeim lengi um daginn ok drápu alt af þeim þat er þeir máttu. En konungr lét taka skeið sína ok róa norðr með landi ok ætlaði til bús síns á Álrekstöðum[1], fyrir því at hann hafði fengit sár, var lostinn öru í arminn hœgra[2] þá er hann rak flóttann, ok blóð rann hánum svá mjök[3], at úmegin sótti á hann, ok þá er hann kom þar sem heitir Hákonar hella, þar hafði hann verit fœddr, ok þar dvaldisk hann um
34. nóttina ok lét slá sér landtjald ok flytja sik[4] á land. Þá er Hákon konungr kendi at sár hans var banvænligt[5], þá kallaði hann til sín ráðuneyti sitt ok talaði á marga lund fyrir sínum ástvinum um þá hluti, er gerzk höfðu á hans dögum, ok iðraðisk þá mjök þess, er hann hafði gert móti guði ok kristinna manna lögum í sinni meðferð. Þá buðu vinir hans at flytja lík hans vestr til Englands ok grafa hann[6] at kirkju. Konungrinn svaraði: „ek em eigi þess verðr, ek lifða sem heiðnir menn, skal mik ok svá jarða sem heiðna menn.“ ‚Með þessu marki sýndi hann iðrun sína, at hann aumkaði missætti þeirra frænda ok sendi bréf Gunnhildar sunum, ok var þat á, at hann gaf Haraldi frænda sínum hirð sína ok alt ríki sitt. Eptir þetta andaðisk Hákon konungr, ok hafði þá fyrir Noregi ráðit 20 vetr ok 6. Hann hörmuðu bæði vinir ok úvinir, sem segir Eyvindr skáldaspillir:

Góðu [dœgri verðr[7]
sá gramr um borinn,
er sér getr slíkan sefa;
hans aldrs
man æ vera
at góðu getit.

Man úbundinn
á ýta sjöt
Fenrisúlfr um fara,
áðr jafngóðr
á auða tröð
konungmaðr komi.

[Deyr fé,
deyja frændr,
eyðisk land ok láð;
síðan Hákon fór
með[8] heiðin guð,
mörg er þjóð um þjáð[9].

[1]) til Álreksstaða [2]) *udel.* [3]) mikit [4]) þar *tilf.* [5]) banhættligt [6]) þar *tilf.* [7]) dœmi var [8]) *tilf. Sn.; mgl. i B* [9]) *Fra [ mgl. i A og er taget af B.*

Menn hans fluttu lík hans á Sæim í Lýgrisfirði[1] á Norðhörðalandi, ok gerðu haug at. Áðr en Hákon félli höfðu synir Haralds hins hárfagra átta orðit vápndauðir, sem Eyvindr segir[2], ok kvað svá sem konungrinn kœmi til Valhallar, fyrir því at sá var átrúnaðr heiðinna manna, at allir þeir er af sárum andaðisk[3] skyldu fara til Valhallar:

[„Jarla bagi!
þú átt inni hér
átta brœðr", kvað Bragi[4].

Þá er bréf kvámu til Haralds [sunar Eiríks[5] ok þeirra brœðra, þau er Hákon konungr [hafði sent þeim[6], þá verða þeir fegnir þessarri orðsending ok skipask við at fara norðr með landi, ok vildu á fund Hákonar konungs frænda síns; ok er þeir kómu norðr þá var Hákon konungr andaðr. Var þá Haraldr tekinn til konungs.

*Um Harald konung Eiríks sun.*

Þá er Haraldr hafði tekit konungdóm[7] ok þeir brœðr, gékk 35.
hirð Hákonar konungs til handa hánum, ok varð hirðin brátt lítt samhuga, fyrir því at þeir er Hákoni höfðu þjónat, ok þeir er áðr váru með sunum Gunnhildar, höfðu átt áðr mörg vandræði sín á milli, ok þótti hvárum [sinn höfðingi öðrum betri[8]. Þat lýsir[9] í orðaskipti þessarra tveggja skálda. Glúmr Geirasunr kvað þetta:

Vel hefir hefnt (en hafna
hjörs berdraugar[10] fjörvi)
fólkrakkr[11] vann[12] fylkir
framligt, Haraldr Gamla;
ok[13] dökkvalir[14] drekka
dólgbands, fyr ver handan
roðin sá ek rauðra benja
reyr, Hákonar dreyra.

Þá er Eyvindr skáldaspillir heyrði þessa vísu þá kvað hann í mót aðra:

Fyrr rauð Fenris varra[15]
flugvarr konungr sparra
(málmhríðar svall meiðum
móðr) í Gamla blóði,

1) Lýfrisfirði 2) skáldaspillir *tilf.* 3) önduðusk 4) *mgl.* 5) Gunnhildar sunar 6) lét gera 7) konungs nafn 8) sínir höfðingjar öðrum betri 9) lýsisk 10) bendraugar 11) *saal. Sn.;* fólkrakkar *A;* folkrakkum *B* 12) *saal. B;* ofvant *A* 13) en 14) *saal. Sn.*; döggvalir *A og B* 15) *saal. B;* vara *A.*

Eyvind Skáldaspiller

þá er óstirfinn arfa
Eiríks of sak (geira
þat[1] tregr gæti gauta
grams fall) á sæ alla.

þá svaraði Haraldr konungr reiðr mjök: „Enn elskið þér[2] Hákon konung; farið þér enn með hánum ok verið hans menn.“ þá váru hræddir um Eyvind vinir hans ok ætluðu at konungr myndi vilja láta drepa hann; ganga til beggja vinir, biðja konung friðar, ok segja at Eyvindr má bœta á þá leið sem brotit var, ok biðja[3] yrkja aðra vísu ok kaupa sér svá vináttu konungs:

Lítt kváðu þik láta,
-landvörðr!- er brast -Hörða-
benja hagl á brynjur,
bugusk álmar, geð fálma:
þá er úfólgin ylgjar
endr or þinni hendi
fetla svell til fyllar
fullegg, Haraldr! gullu.

þá svaraði konungr: „lítt ok þó nökkut.“ þá mælti Glúmr Geirasunr: [„þá er lítit[4], herra! er ekki er.“ þá svaraði konungr: „sjá maðr verðr oss aldrigi trúr[5] svá lengi sem hann lifir.“ þá bað Glúmr Eyvind yrkja vísu um Harald konung, þá kvað hann [þetta ok gékk fyrir konung[6]:

Einn dróttin hefi ek áttan,
jöfurr dýrr! en þik fyrri,
(bellir bragningr elli)
bið ek eigi mér hins þriðja;
trúr var ek tiggja dýrum,
tveim skjöldum lék ek aldri,
fylli ek flokk þinn, stillir!
[fellr á hendr[7] mér elli;

áðr en ek týnda Hákoni.“ Eptir þat var Eyvindr litla hríð með Gunnhildar sunum ok fór síðan til búa sinna, ok svá gerðu flestir Hákonar menn, at þeir þjónuðu skamma hríð Eiríks sunum ok settusk heima at búum sínum. Synir Gunnhildar er sagt at tœki skírn vestr á Englandi í œsku, en er þeir kómu í land ok höfðu tekit allir konungs nafn, þá brutu þeir niðr hof ok blótskap, en engan mann nauðguðu

1) nú 2) meir *tilf.* 3) hann *tilf.* 4) þat er lítt 5) tryggr 6) þessa
7) fellsk á hönd

þeir til kristni, ok ekki er sagt frá trúar haldi þeirra annat, en sá var kristinn er þat vildi, en hinn heiðinn er svá vildi. Þeir brœðr Gunnhildar synir höfðu margar hirðir, ok fóru sumir hit efra um land, en sumir með sjó; ok gerði hallæri mikit um þeirra daga, fyrir því at af tók sildfiski ok alt sjófang, korn spiltisk. Þetta kendu landsfólkit guða[1] reiði ok því at konungarnir létu spilla blótstöðum þeirra. Eyvindr skáldaspillir sagði svá:

Snýr a Svölnis váru,
svá höfum inn sem Finnar
birki hind um bundit[2]
brums at[3] miðju sumri.

A þvílíku mátti merkja[4] hversu þung öld var, er svá mikill snjór var um mitt sumar, at alt búit var inni haldit[5] at fóstri. Synir Eiríks gerðusk ágjarnir við landsfólkit ok hirðu ekki um landslög; þat var ok kallat at þeir hirði fé sitt i jörðu sem smábœndr, ok vildu eigi mála gefa mönnum sínum. Svá sagði Eyvindr skáldaspillir:

Bárum -ullr!- um alla
-ímunlauks- á hauka
fjöllum Fýrisvallar
fræ Hákonar ævi;
nú hefir fólkstríðir Fróða
fjölglýjaðra[6] þýja
meldr[7] í móður holdi
mellu dólgs um fólginn.

Fullu[8] skein á fjöllum
fallsól[9] brávallar
Ullar kjóls um allan
aldr Hákonar skáldum[10];
nú er álfröðull elfar
jötna dólgs um fólginn
(ráð eru rammrar þjóðar
rík) í móður líki.

Hér fyrir gaf Haraldr konungr Eyvindi banasök; þá koma við vinir Eyvindar ok báðu konunginn taka sætt[11] fyrir þetta. Konungrinn beiddisk at Eyvindr skyldi fá hánum gullhring þann er Moldi hét, ok stóð 12 aura, ok svá varð at vera sem konungr vildi. Þá kvað Eyvindr þetta:

[1]) sinna, *tilf.* [2]) *saal. Sn.;* bundinn *A og B* [3]) á [4]) marka [5]) haft [6]) fáglýjaðra [7]) *saal. Sn.;* moldar *A* meld *B* [8]) *saal. rettet efter Sn.; A og B have:* Fyllar [9]) fallsólar [10]) skjöldum [11]) af hánum *tilf.*

Skylda ek, skerja foldar
skíðrennandi! síðan
þursa bœs[1] frá þvísa
þinn góðan byr finna,
er -valjarðar- verðum
-veljandi!- þér selja
lyngva -mens- þat er leng
látr minn faðir átti.

Eiríks synir drápu Sigurð Hlaðajarl inn á Ogló[2], svá sem segir Eyvindr skáldaspillir:

Ok Sigurð þann[3],
er svönum veitti
hróka bjór
Haddingja vals,
Farmatýs
fjörvi næmdu
jarðráðendr
á Oglóe[4].

Ok öðlingr
í ölun jarðar
alnar orms
ófælinn varð
lífs of lattr[5],
þá er landrekar
Týs áttung
í trygð sviku.

Synir Eiríks drápu ok Tryggva Ólafssun ok marga aðra konunga ok jarla ok aðra ríkismenn, sem Glúmr Geirasunr segir í Gráfeldar drápu, er hann orti um Harald konung:

Braut við brynjunjóta
bág (í) rifjunga ságu,
naddskúrar var nœrir
Noregs konungs, stóra[6],
valgaltar lét vélta
vargfœðandi marga,
úvægum[7], réð jöfri,
jafnborna sér þorna.

Haraldr konungr var þeirra brœðra vaskligastr, mikill orrostumaðr, íþróttarmaðr mikill um marga hluti, ok var fyrir þeim

[1]) *saal. Sn.;* kæs *A* tóls *B* [2]) Agðo [3]) hinn [4]) Aglóe [5]) *rettet,* oflatir *A* oflati *B* [6]) *saal. B;* stórar *A* [7]) ofvægjum.

brœðrum síðan Gamli féll. Guðormr var fallinn áðr en þeir Hákon ok Haraldr börðusk á Fitjum, ok féll í Austrvegum. Svá er sagt at [Sigurð slefu, bróður Haralds konungs, drap Klyppr hersir[1] bróður sunr þorleifs hins spaka, sunr þórðar [Hörðakára sunar[2], ok var þat til saka at Sigurðr hafði tekit konu Klypps nauðga. Klyppr lagði Sigurð í gegnum með sverði, en hans hefndi hirðmaðr hans, sá er hét Sigurðr[3].

Haraldr konungr gráfeldr var úti jafnan á [skipum með her sinn[4] til ýmisra[5] landa ok átti margar orrostur, ok hafði optast betr. 36.
Hann kom liði sínu[6] til Danmarkar, ok barðisk þar við Skáni ok hafði sigr við víkinga. Annat sinn herjaði hann vestr á [Skotland ok Hjaltland[7] ok hafði sigr[8] hvártveggja sinn. þriðja sumar fór hann með her sinn austr á[9] Gautland ok gerði þar mikinn úfrið. Fjórða sumar fór hann með her sinn norðr til Bjarmalands ok átti þar mikla orrostu á Vinubakka ok hafði sigr, drap þar mikit fólk, fékk bæði gull ok silfr ok mikit annat fé, ok fór aptr hit sama haust. Mikit starf hafði hann í ríkinu[10] ok lítt til nytsemdar landsfólkinu. Hans menn unnu hánum mikit, ok hann var þeim góðr, þó at bóndum væri hann harðr. þessi öld hefir verit í Noregi hörðust ok verst, fyrir þá sök at heiðinna manna þján sýsti[11] lítit gott, [ok þó[12] sjálfum þeim þungt er báru.

*Um Hákon' Hlaðajarl Sigurðarsun.*

Dóttir Haralds hins hárfagra var Ólof árbót, er átti þórir þegjandi á Mœri, ok þar var jarl. 37.
þeirra dóttir var Bergljót er átti Sigurðr Hlaðajarl, þeirra sunr var Hákon, er misti föður síns á ungum aldri; en er hann spurði fall föður síns, þá fékk hann sér skip ok hermenn[13] til, ok bjó vel lið sitt at vápnum, ok er hann var búinn hélt hann skipi sínu austr í Vík ok þaðan í Eystrasalt; tók þá at herja, ok gerðisk útileguvíkingr: herjaði um Svía veldi, [á Gauta, Vindi ok Kúri[14], alt austr um Sýslu[15], hafði friðland um vetrum í Danmörk, ok vingaðisk með fégjöfum ok heimsóknum við Harald konung Gormssun. Konungr tók vel því ok hafði Hákon með sér, en hvert sumar lá hann úti í hernaði. Hákon var manna fríðastr sjónum ok kurteisari en

1) *saal. B;* Sigurðr scyva bróðir Haralds konungs drap Klypp *urigt. A*
2) *saal. B;* harða *A* 3) enn gamli *tilf.* 4) á sumrum með her sínum
5) ýmsa 6) með liði sínu suðr 7) á Skotlandi ok á Írlandi 8) gagn
9) í 10) sínu ríki 11) plógaði 12) en 13) þar menn 14) ok Gauta, Vinda ok Kúra 15) *saal. B;* syslur *A.*

flestir[1], meðalmaðr at vexti, hann var bæði [vel hærðr ok skeggjaðr[2], atgervismaðr mikill um flesta hluti, talaðr[3] vel, djúpráðr, þolinmóðr, grimmr úvinum bæði með opinberum rœðum[4] ok leyniligum vélum, langrækr, mildr af fé. Á einu hausti váru þessi tíðendi með Danakonungi, at til hans kom bróðursunr hans, sá er hét Haraldr, hann var sunr Knúts [hins danska[5], Gormssunar; hann kom or víking með [mikit fé[6], fyrir því[7] var hann kallaðr Gullharaldr. Þenna vetr váru þeir Hákon báðir [í hirð Danakonungs.[8] Hákon fékk sótt hættliga ok lá lengi vetrarins. Með þessum hætti var mein hans, at hann neytti lítt matar ok drykkjar[9] ok svaf lítit; ekki hafði hann stóra[10] verki. Einn saman vildi hann jafnan vera eða með [fá menn, nema þá sem[11] hánum höfðu lengi þjónat. Svá kom at menn tóku þat at ráða[12], at hann myndi [vixtr vera ok eigi svá vitandi sem hann skyldi[13]. Konungr kom at finna hann, ok varð [lítit um þeirra rœðu[14], fyrir því at Hákon vildi fátt mæla. Gullharaldr kom ok at finna hann fyrir sakar hans vizku ok djúphyggju[15], er allir[16] sögðu, at hann væri hinn vitrasti maðr, ef hann hefði heilsu sína. Hann tók þá at rœða fyrir hánum sinn vanda, þviat[17] hann var konungs sunr ok þóttisk eigi vera verr til kominn ríkisins en Haraldr konungr, föðurbróðir hans. En er Hákon heyrði þessa rœðu, þá svaraði hann ok kallaði[18] hann eigi vera verr til fallinn at njóta síns faðernis[19], ok sagði ef Knútr hefði lifat, at Gormr ok allir Danir myndu vilja hann konung, en eigi Harald, en nú er hans sunr görr[20] einn víkingr, en ef þetta ráð[21] kemr fyrir Dani, þá munu þeir vilja[22] Knúts sun fyrir konung.

38. Haraldi sýnisk nú eigi annat ráð en beiðask af konunginum[23] landa ok ríkis, rœddi þetta mál fyrir konunginum frænda sínum eptir ráði Hákonar, ok vildi vita fyrst ef þat mætti gangask[24] með vild. Við þessa rœðu váru fáir menn. Konungr tók þungliga at skipta [sínu veldi undir aðra menn[25], slitu svá sínu tali at báðir váru reiðir. Þá[26] spurðisk at Hákoni bœttisk. Litlu síðar þá kom konungr á fund Hákonar, [berr upp sinn vanda, ok spyrr ráða, hver svör hann skyldi hafa, ok sagði hvers kraft var.[27] Hákon svaraði mœðiliga ok

1) menn aðrir *tilf.* 2) *saal. B;* harðr maðr ok vel siðugr *A* 3) *saal. B;* talaði *A* 4) ráðum 5) Danaástar 6) ofsa fjár — 7) þá sök 8) saman með Danakonungi 9) drykks 10) stranga 11) fámenni ok þá er 12) rœða 13) vixtr verða eða óvitandi 14) lítil þeirra viðrœða 15) djúpræðis 16) menn *tilf.* 17) ok þat at 18) taldi 19) en Haraldr konungr *tilf.* 20) sem *tilf.* 21) *udel.* 22) hafa *tilf.* 23) föðurbróður sínum *tilf.* 24) verða 25) við hann ríki eða landi 26) því næst 27) ok bar upp fyrir hánum hvers hann var krafðr, ok spyrr ráðs, hver svör hann skyldi hafa um þetta mál.

hörmuliga, ok sagði at hann harmaði mjök þetta mál ok lézk ilt[1] þykkja, ef þá skyldi minka ríki konungsins, er[2] hann var með hánum; en þó sagði hann Gullharald[3] til rétts kalla. „Gef til heilt ráð," sagði konungr, „fyrir því at ek sé, at þú ert mér velviljaðr ok lætr þér illan þykkja várn vanda." „Gefið mér stund til, herra! at [íhuga svá mikit vandamál[4]" sagði Hákon. Ok skiljask at svá búnu. Hér eptir má [njóta tals[5] Hákonar [ok skiljask[6] um þá hluti er mestu þótti varða.

Gullharaldr kom nú á fund Hákonar, kærir [sinn skaða[7]: faðir 39.
hans var dauðr, en sjálfr hann eignalauss[8], ok föðurbróðir hans reiðr[9], bað nú [mjök heilræða[10]. Hákon svaraði hánum ok lézk talat hafa mál hans við konung, ok lézk[11] eigi vel hug um segja, at nökkut myndi af konungi fá. Aðra tölu gerir hann til hugganar Haraldi, ok sagði at hann myndi konungr verða, ef hann vildi fylgja sínu máli[12], ok lét[13] mest myndu til skorta, ef eigi hlýddi[14] kapp ok þrályndi ok harðræði. Þá þóttisk Haraldr skilja at Hákoni sýndisk þat ráð, at hann létti eigi tilkallinu[15], ok sagði at eigi skyldi harðræði skorta, ef hann kœmi í fœri. En [nökkurri stundu[16] síðar kemr Danakonungr sjálfr til Hákonar at vita, hvárt hann hefði nökkut hugsat[17] hans mál. Hákon svaraði svá, at um hans mál [hefði hann vakat nótt ok dag ok mart sinn[18] hugsjúkr verit. „Ek hefi," sagði Hákon, „talat þetta fyrir vitrum mönnum ok yðrum góðum vinum, lízk öllum því meiri yðarr vandi, er [erendi er djúpara sét[19]; yðarr frændi Gullharaldr er þrálundaðr[20] á mál sitt[21]. En einn hlutr harmar oss mest ástvini yðra: Gormr faðir yðarr varð svá mikill maðr í [sinni ætt[22], at hann eignaðisk margra konunga veldi, nú verði þér þat miðla í tvá staði; hverr man [finna mega ráð til þess[23], at þér haldið veg yðrum fullum ok ríki ok löndum, en frændi yðarr[24] Gullharaldr fengi þau svör, at[25] hánum væri svarat eptir lögum ok réttendum?" Þá svaraði konungr með áhyggju 40.
mikilli: „Mart mælir þú, Hákon! Hversu má þetta vera at ek [miðli hálfu[26] Danaveldi[27] ok eiga þó einn alt?" Þá svaraði Hákon: „Hverr man lítit vinna til mikils; þat væri höfðingja bragð, at eiga sjálfr ríki sitt Danaveldi, en gera frænda sinn svá mikinn mann, at hann hefði

1) illa 2) meðan 3) tilkominn ok *tilf.* 4) hyggja at svá miklu vandamáli 5) ná máli 6) *udel.* 7) sitt mál, at 8) ríkislauss 9) ræðr 10) heilla ráða 11) lét sér 12) hánum 13) á þat *tilf.* 14) fylgði 15) kallinu 16) nökkuru 17) íhugat um 18) hafði hann vakat bæði nætr ok daga ok opt 19) optar er um rœtt 20) þrályndr 21) ef þér varnið hánum rétts *tilf.* 22) *saal. B;* í æru sinni *A* 23) *saal. B;* þat finna megu *A* 24) þinn 25) er 26) miðla hálft 27) við Harald *tilf.*

annat veldi eigi minna; svá myndi gera yðarr frændi[1] Gormr, at minkask eigi af göfgum frændum sínum, œxla heldr þeirra megin[2] ok taka þar til [annarra eign[3]." þá svaraði konungr: „Satt [mæli þér[4], Hákon, [þat væri víst höfðingja bragð[5]; en hvar er nú laust eða falt ríki?" þá svaraði Hákon: „Noregs veldi[6] er falt öllu landsfólkinu[7], ok Norðmönnum[8] er mikit úhapp at sínum konungum, svá eru þeir
41. ok makligir at deyja fyrir [mörg sín illvirki[9]." þá svaraði Danakonungr: „Synir Eiríks eru hreystimenn miklir ok sigrsælir, en Noregr illr[10] at sœkja með hernaði." þá svaraði Hákon: „Haraldr man ekki varask at koma til Danmarkar, ef þér sendið hánum orð[11]; þá má Gullharaldr drepa hann." þá mælti Danakonungr: „Ef Haraldr konungr [er drepinn, þá er[12] farit ríki Gunnhildar suna." Gengr þá [í brott[13] ok er kátr. Litlu eptir þetta reis Hákon upp ok taldisk[14] vera heill maðr. Kemr saman tala[15] þeirra frænda, Haralds konungs ok Gullharalds, ok [þar var hann sjálfr við; þeir rœddusk við marga daga[16], ok vissi engi maðr nema þeir[17], hvat í ráðagerð var.

42. Haraldr konungr Gormssunr sendi menn með[18] skipi í Noreg á fund Haralds fóstrsunar síns með þeim orðum, at Danakonungr hafði spurt ánauð ok hallæri af Noregi, ok þat at konungi var kostnaðarsamt at halda hirð sína, fyrir því at bœndr máttu eigi gjalda landskyldir sínar [fyrir féleysi[19]; bað Haraldr fóstrsun sinn koma til Danmarkar, ok bauð hánum Jótland til vetrsetu ok yfirferðar með tvau hundruð manna. þetta mál bar Haraldr konungr fyrir ráðgjafa sína, sýndisk hánum ráðligt at þiggja svá mikit lén af fóstrfeðr sínum, en sumir sögðu at [vera myndu[20] svik. En bœndr [fýsti mjök ok alla alþýðu[21], ok telja at vera munu en mestu heilræði, ok eigi konungligt at þora eigi at sœkja vináttu þvílíks höfðingja[22]. Ok fyrir þá sök at Haraldr konungr var áhlýðinn ok eigi djúphugaðr, þóttisk engan hafa skaða gört Danakonungi nema þat er hann rak nauðsyn til, þá ferr Haraldr til Danmarkar ok hafði þrjú langskip ok 80 manna á hverju skipi. Kom suðr til Limafjarðar [ok var þar staddr sem heitir Háls[23].

43. Gullharaldr var þá búinn með níu skip at fara í hernað; hann kemr með þessu liði öllu á fund Haralds Eiríkssunar. þá fann Haraldr

1) faðir 2) magn 3) ríkis sem væri 4) segir þú 5) *saal. B; mgl. i A* 6) ríki 7) *saal. B*; landsbúinu *A* 8) Noregsmönnum 9) illræði sín ok ill verk 10) ilt 11) herra! *tilf.* 12) væri drepinn, þá væri 13) braut 14) sagðisk 15) tal 16) rœddusk þeir við marga daga ok var Hákon með þeim 17) einir *tilf.* 18) skipuðu *tilf.* 19) féleysis sakar 20) þat myndi vera 21) fýstu hann mjök ok öll alþýða til 22) sem Danakonungr var *tilf.* 23) *tilf. B; mgl. i A.*

konungr Gunnhildarsunr[1], at hann var svikinn með ráðum[2] Hákonar ok tilsetningu Haralds Gormssunar ok framkvæmd Gullharalds. Haraldr konungr hét þá á lið sitt, bað þá bregða sverðum sínum drengiliga ok verja sik, brá hann sjálfr sverði ok stóð fyrir framan merki, svá sem segir Glúmr Geirasunr:

Mælti mætra hjalta
málmóðinn, sá blóði,
þróttarorð, er þorði
þjóðum völl at rjóða:
víðlendr um bað vinda
verðung Haraldr sverðum
(frægt þótti þat flotnum[3]
fylkis orð) at morði.

Heinþyntan lét hvína
hryneld at þat brynju
foldarvörðr, sá er forðum[4]
fjörharðan sik varði.

Eptir þetta tóksk snörp[5] orrosta, ok veittu þeir Haraldr mikit viðnám, ok þó [ekki lengi[6], fyrir því at Gullharaldr bar þá ofrliði, ok féll þar Haraldr konungr Gunnhildarsunr ok mestr hluti[7] liðs hans, ok vann konungrinn[8] áðr mikinn skaða á Dönum í manndrápi. Þessi orrosta var á landi, svá sem hér segir:

Hjoggusk hvárirtveggja
heggir mækis eggja,
varð í gegn at ganga
geirdrótt Haraldr þeirri;
sendir féll á sandi
sævar báls at Hálsi,
olli jöfra spjalli
orðheppinn því morði.

Í öðrum stað talask þeir við Haraldr Danakonungr ok Hákon Sigurðarsunr. Þá hafði Hákon búit skip sín[9] til hernaðar, svá sem hann var vanr. Þá mælti Hákon til Haralds konungs: „Herra! hversu geti þér fara munu Gullharaldi frænda yðrum? hvárt man Haraldr Eiríkssunr várr frændi drepinn [eða eigi[10]? Hann er víst góðr drengr ok hreystimaðr mikill[11], ok eigi myndi hann þessarrar vélar af yðr vara.“ Þá svaraði Danakonungr: „Þat er satt, at víst er þetta ilt verk at drepa

[1]) *udel.* [2]) ráðagerð [3]) *saal. Sn.;* flótta *A og B* [4]) fyrðum [5]) hörð [6]) eigi langt [7]) hlutr [8]) hann þó [9]) sitt [10]) *tilf.* [11]) ok mikill vinr yðarr *tilf.*

knésetning minn[1].“ þá mælti Hákon: „Herra! hversu trúan ætlið þér yðr munu vera Gullharald, ef hann sezk í Noregs veldi ok tekr konungs nafn? kann vera at vér róim leiðangrinn ok gjaldim vítit með várum ráðum, en sjám vér þat enn ráð, at koma mætti Noregs ríki undir yðr, herra! Gormr[2] eignaðisk mikit ríki, þat er eigi hafði hans faðir; hvert ríki skulu þér þat fá, sem[3] svá mikit sé eða meira en Danmarkar ríki, er faðir yðarr vann undir sik? þat væri höfðingja bragð at eignask Noreg en hefna fóstrsunar síns.“ Konungr svaraði: „Eigi byrjar oss at drepa várn bróðursun.“ Hákon svaraði: „[Vér megum[4] yðr launa friðland ok mikit[5] yfirlæti ok góðar gjafar[6] með því, at vinna Noreg á einum degi allan undir yðr; en þér, herra, gefið [oss til forræðis, ok hefðið þvílíkan skatt af, sem vér sættimk[7]
44. á, ok gerðumk ek maðr yðarr?“ þetta ráð líkar vel Danakonungi, ok binda þeir [með fastmælum sín á milli[8]. Síðan ferr Hákon með fimtán skipum, þeim[9] sem hann var vanr at hafa í hernaði, á fund Gullharalds, ok fundusk þeir litlu síðar en Haraldr Eiríkssunr hafði fallit[10]. Hákon leggr þegar at Gullharaldi, ok varð þar hörð orrosta, ok fellr þar Gullharaldr ok mart lið hans, en sumt flýði. Hákon tók þar gull þat alt ok lausafé, er Gullharaldr hafði átt ok hann hafði fengit á útlöndum, ok var svá mikit, at eigi váru dœmi[11] at einn maðr hefði [í Norðrlönd jafnmikit flutt[12].

45. Eptir þetta fór Hákon á fund Danakonungs ok sættisk við hann auðveldliga [af drápi[13] frænda hans. þat sama sumar fór Haraldr Gormssunr [til Noregs[14] með allan Danaher, ok fyrir hánum stukku[15] or landi Gunnhildr ok synir hennar vestr á Skotland. þá eignaðisk Haraldr Gormssunr alt Noregs veldi[16], ok setti Hákon til landsgæzlu[17] austr til Líðandisness ok gaf hánum jarls nafn, bað hann taka veizlur ok dœma landslög, en gjalda Danakonungi[18] skatta. Eptir þetta fór Haraldr heim til Danmarkar, ok skiljask þeir Hákon góðir vinir. Hákon jarl hafði þá rekit sinna harma, fyrir því at af hans ráðum var drepinn Haraldr Gunnhildarsunr[19]; sem Einarr skálaglam sagði:

Hvarfat aptr áðr en erfðan
óðstafr[20] föður hafði,
-herforðaðr[21] réð herða[22]-
hjörveðrs -konungs fjörvi-;

[1]) várn [2]) faðir yðarr *tilf.* [3]) er [4]) ek má [5]) gott [6]) er þér hafið mér veitt *tilf.* [7]) mér til forræðis landit ok hafið slíkan skatt af sem vér sættumk á [8]) nú með sér fastmæli [9]) *udel.* [10]) var fallinn [11]) til *tilf.* [12]) jafnmikit átt á Norðrlöndum [13]) um dráp [14]) í Noreg [15]) stökk [16]) ríki [17]) gæzlu landsins [18]) af *tilf.* [19]) Eiríkssunr [20]) *saal. rettet;* óstafr *A;* oddastafr *B.* [21]) hervörðuðr [22]) harða

varðat Freyr sá er fœri
fólkskíðs né man síðan
(því bregðr öld við aðra)
jarls ríki fram slíku.

Hákon var ríkr ok tók at efla blót með meiri freku en fyrr hafði verit, þá batnaði brátt árferð[1], kom aptr korn ok síld, [grœr jörðin með blóma[2]. Svá sem segir Einarr:

Ok herþarfir hverfa
Hlakkar móts til blóta,
randbríkar[3] fremsk rœkir
ríkr ásmegni[4] slíku.
Nú grœr jörð sem áðan,
aptr geirbrúar hapta
auðrýrir lætr áru
óhryggva vé byggva[5].

þá var friðr góðr með árinu, sem enn segir Einarr:

Engi varð á jörðu
ættum góðr nema Fróði
gætinjörðr, sá er gerði,
geirbríkar, frið slíkan.

Í annarri drápu segir Einarr á þessa lund:

Bygði lönd -en lunda
lék orð á því- forðum
Gamla kind sú er granda
-gunnborðs- véum þorði.
Nú er afrendra jöfra
Ullr geirvaðils þeirra
sóknarhvatr at[6] setri
settr[7] hverjum gram betri.

Hér má þat heyra, at synir Eiríks brutu niðr blótin, en Hákon hóf upp annat sinn[8].

þá er Hákon hafði ráðit einn vetr fyrir Noregi, kom Ragnfröðr Eiríkssunr ok beiddisk ríkis í Noregi; í móti hánum kom Hákon jarl með her, ok börðusk svá sem Einarr segir:

Enn reið öðru sinni
jarl borðmörum norðan,
sóknherðir lét sverða
sótt Ragnfröði á[9] móti.

1) *tilf. B; mgl. i A* 2) gréri jörðin með blómi 3) rauðbríkar 4) *rettet;* ásmegri *A;* at meger *B* 5) *saal. B;* byggja *A* 6) á 7) *saal. B;* setrs *A* 8) sinni 9) at

Hákon hafði lið meira ok skip smærri, ok fyrir þá sök lét hann síga[1] at landi, ok gékk upp af skipunum ok bauð Ragnfröði at berjask á landi við sik, en hann vildi eigi ok hræddisk landsher. Svá sem Einarr segir:

Hóf und hyrjar kneyfi
(hraut unda fjöld) þundar
(þat sleit víg á vági)
vandar dýr at landi;
né fjölsnerrinn fyrri
fémildr konungr vildi
(vægðit[2] jarl fyr jöfri,
Yggs niðr) friðar biðja.
Búinn lézk valdr, ef vildi
valmey konungr heyja,
haulda morðs[3] at halda
(herr féll of gram) velli.

Skiljask at svá búnu. Þá var Ragnfröðr um vetrinn í Sogni, en Hákon í Þrándheimi. Um várit eptir bauð Hákon út almenning um allan Þrándheim ok Hálogaland ok um öll fylki fyrir norðan Stað, ok varð allfjölmennr[4]. Svá er sagt at sjau tignir menn fylgdu hánum, svá sem Einarr segir:

Hitt var meir er Mœra
morðfíkinn lét norðan
fólkverjandi fjörva
för til Sogns of görva;
ýtti Freyr af fjórum
fólklandum (sá branda
Ullr stoð af[5] því) allri
yrþjóð Heðins byrjar.
Ok til móts á[6] meita
mjúkhurðum fram þurðu
með spörgœli svarfa[7]
sjau landrekar randa[8].

Kómu at Gunnhildar sunum inn í Sogni ok börðusk við þá, hafði Hákon sigr[9], ok drap af sunum Eiríks þrjú hundruð manna, svá sem hér segir:

Ströng varð guðr áðr gunnar
gammi nás und hramma
þröngvimeiðr um þryngvi
þrimr hundruðum lunda.

1) sígask 2) *rettet;* vægði at *B;* vægðez *A* 3) Njörðr 4) hann mjök fjölmennr 5) *saal. Sn.;* á *A og B* 6) at 7) *saal. Sn.;* sarpa *A;* aurgva *B* 8) *saal. Sn.;* handan *A;* höndum *B* 9) í þeirri (*d. e.* orrostu) *tilf.*

Knátti hafs at höfðum
(hagnaðr var þat) bragna
fólkeflandi fylkir
fangsæll þaðan ganga.

Svá mikit varð mannfall, at hér segir at jarlinn géngi at manna höfðum af þessum fundi. Eptir þessa orrostu flýðu synir Gunnhildar ok hon með þeim vestr um haf á Skotland. Réð þá Hákon Noregi eptir, sem Danakonungr hafði hann til settan, ok var þar mikil vingan þeirra á meðal.

A hinu þrettánda ári ríkis Hákonar jarls kómu boð or Danmörku, 46.
at jarlinn skyldi koma með her at veita styrk ok lið Haraldi konungi Gormssyni í móti Otta keisara. Bauð Hákon jarl út hálfan almenning [alt af sínu[1] ríki, fór á fund Haralds konungs eptir hans boði, ok er hann kom til Danmarkar, þá sendi konungr Hákon með miklu liði suðr til Danavirkis, ok var hann hertogi yfir liðinu, en konungrinn skyldi sjálfr fara at gæta lands [með skipaliði[2]. [Móti hertoganum Hákoni kom Otti keisari[3] með her Saxa, Frakka, Frísa ok Vinda. Þá varð hörð orrosta. Lauk svá at keisarinn flýði ok alt lið hans; svá sem hér segir:

Þrymr varð[4] logs er lögðu
leikmiðjungar þriðja
-arngreddir varð- odda
-andvígr- saman randir.
Sundfaxa kom Söxum
sœkiþróttr á flótta;
þá[5] er svá, at gramr með gumna
garð yrþjóðum varði.

Í þessarri ferð Otta keisara urðu mörg stórtíðendi, áðr en hann féngi sigrat ok unnit Danakonung[6]. Hann fór svá langt norðr í Danmörk sem heitir Marsey í Limafirði. Þar hitti hann Harald Danakonung með sínum her, ok varð áðr farflótti[7] fyrir keisaranum, þá er hann hafði áðr unnit Danavirki, sem heyra má í þeirri frásögn, hversu með miklum krapti þat varð[8] unnit af guðs fulltingi. Þá bað keisarinn Harald konung taka [við réttri[9] trú. Hann neitaði, ok taldi[10] sér þat byrja, at hafa þann sið sem hans foreldri hafði. Keisari lét telja trú fyrir konunginum[11] ok segja mörg stórmerki frá guði; þar kom um síðir, at Danakonungr bað sýna sér nökkut mark, at sá siðr væri betri, er keisari bauð, en sá er Danir höfðu áðr. Þá gékk fram Poppo biskup

[1]) um alt sitt [2]) við skipaher [3]) Otti keisari kom í móti Hákoni hertoga [4]) var [5]) þar [6]) með sínum her *tilf.* [7]) forflótti [8]) var [9]) rétta [10]) kvað [11]) hánum.

ok bar járn glóanda á[1] hendi sér, ok sýndi Danakonungi óbrunna hönd
47. sína. At sénum þessum jartegnum tók Danakonungr skírn ok trú rétta, ok alt lið hans. Eptir þetta sendi Haraldr konungr orð Hákoni jarli at koma til sín. Hann var enn eigi norðr sigldr þá er þetta var[2]. Fór jarlinn á fund Danakonungs með lítit lið ok var leyndr erendunum áðr en hann kvæmi[3] til konungs. Ok er þeir finnask þröngvir konungr jarlinum at taka skírn, varð hann ok því at heita, at láta þat boða um alt sit ríki. Fékk þá konungr hánum kennimenn, ok skiljask þeir síðan. Þá lágu á vestanveðr, en Hákon þóttisk þá œrit lengi verit hafa í Danmörk, ok vildi gjarna verða á brottu, setti á land upp presta ok lærða menn, dregr upp segl sín, sigldi[4] austr ígegnum Eyrarsund, ok herjaði á hvártveggja land[5], brendi bœi[6] ok drap menn, tók fé þar[7] sem hann mátti í Danakonungs ríki.

48. Þá er Hákon kom austr fyrir Gautland, þá feldi hann blótspón, ok vitraðisk svá sem hann skyldi hafa dagráð at berjask, [sér á[8] hrafna tvá, hversu gjalla ok fylgja alt liðinu. Svá sem hér segir:

Flótta gékk til fréttar
fellitýr á velli,
draugr gat dólga ságu
dagráð Heðins váða;
ok haldboði hildar
hrægamma sá ramma,
Týr vildi sá tíra[9]
teinlautar fjör Gauta.

Þá [lét Hákon jarl spilla skipum sínum[10], gékk upp á land með öllu liði sínu, fór herskildi yfir alt Gautland, ok brendi bœi ok rænti hvar sem hann kom. Þá kom í móti hánum Óttarr jarl Gauta, börðusk[11], ok lauk svá [at hann[12] flýði, en drepinn [hinn mesti[13] hlutr liðs hans. En Hákon tók fé mikit at herfangi, fór hann um Smálönd ok alt [til Vestrgautlands[14], skattar alt fólk, kom við svá búit aptr í Noreg; svá sem hér segir:

Háði jarl, þars[15] áðan
engi maðr und ranni,
hyrjar þing, at herja,
hjörlautar, kom sörla;
barat maðr lyngs enn lengra
loptvarðaðar barða[16]

[1]) í [2]) varð [3]) kom [4]) siglir [5]) landit [6]) bygðir [7]) hvar [8]) ok hann sér þá [9]) *rettet;* týna *A og B* [10]) fyrirlét Hákon jarl skip sín ok [11]) ok börðusk þeir [12]) með þeim at Óttarr [13]) mestr [14]) í vestra Gautland [15]) *rettet;* þar *A og B* [16]) *saal. Sn.;* garða *A og B*

(alt vann gramr um gengit
Gautland) frá sjó randir.

-Valföllum hlóð völlu-
varð -ragna konr- gagni
hríðar[1] áss at hrósa
(hlaut Óðinn val) Fróða.

Hákon fór ofan í Vík austr, ok váru þar komin boð Danakonungs um rétta trú, bauð hann, at hafna skyldi blótum ok láta skírask, ok fyrir sakar ríkis hans þá reis engi maðr því í móti, ok létu mjök margir skírask. Hákon jarl snéri aptr til blóta öllum þar sem hann kom, en hann hét þeim trausti sínu, ok blótuðu margir þeir er áðr höfðu skírn tekit; svá sem hér segir:

Öll lét senn hinn svinni
sönn Einriða mönnum
hverjum[2] kunn of herjuð
hofsland[3] ok vé banda.

Eptir þetta fór Hákon norðr í lönd ok hélt því ríki, er Danakonungr hafði fengit hánum, skattlausu[4] þaðan ífrá, ok gerði Víkina sér at herlandi, er þá lá undir Danakonungi, svá sem segir Einarr skálaglam:

Nú liggr alt und jarli
-ímunborðs- fyr norðan
-veðrgœðis fremsk víða-
Vík -Hákonar ríki-,

ok svá Eyvindr skáldaspillir:

þeim er alt austr
til Egða býs
brúðr valtýs
und bœgi liggr,

Litlu síðar bauð Haraldr Gormssunr út leiðangri um alla Danmörk ok fór með allan Danaher norðr til Noregs. Ok þá er hann 49.
kom [um Líðandisnes[5] í ríki þat, er menn höfðu haldit skatt[6] fyrir hánum, þá brendi hann bœi ok lét drepa menn, hvar sem hann kom, ok eyddi alt með sjónum[7], nema fimm bœir stóðu[8] í Sogni í Læradali, Haraldr konungr fór alt norðr til Staðs, en Hákon lá þar með miklu liði fyrir norðan Stað. þá er Danakonungr spurði til fjölmennis Hákonar ok viðrbúnaðar, vendi hann ferð sinni suðr til Danmarkar, ok hittusk þeir jarl[9] ekki [í þat sinn[10].

[1]) *saal. B;* hildar *A* [2]) *rettet;* herjum *A og B* [3]) hofs lönd *A og B* [4]) skattalaust [5]) fyrir Líðendisnes [6]) skatta [7]) sjó [8]) *udel.* [9]) *udel.* [10]) at því sinni

*Hér er um Jómsvíkinga.*

50. Haraldr konungr[1] herjaði á Vindland ok lét[2] gera borg mikla, þá er heitir at[3] Jómi, ok er sú borg kölluð síðan Jómsborg. Þar setti hann yfir höfðingja ok fór sjálfr heim til Danmarkar. Var þá úfriðr mikill lengi [á milli[4] Vinda ok Dana, ok herjuðu hvárirtveggja í annarra land[5]. En á ofanverðum dögum Haralds Gormssunar setti hann yfir Jómsborg Sigvalda sun Strútharalds jarls, ok gaf Danakonungr Sigvalda jarls nafn. Þá fóru margir höfðingjar af Danmörku til Jómsborgar: Þorkell hávi bróðir Sigvalda jarls, Búi digri ok Sigurðr hvíti[6] bróðir hans, Vagn Ákasunr, hann var systursunr Búa. Jómsvíkingar unnu mikit af ríki Burizleifs konungs, er þá réð fyrir Vindlandi.

51. Litlu eptir þetta gerðusk þau tíðendi í Danmörku at Haraldr konungr tók sótt, ok andaðisk hann. Strútharaldr faðir Sigvalda andaðisk ok á þeim misserum, [ok var Sveinn Haralds sunr tekinn til konungs í Danmörku[7]. En þá er Sigvaldi spurði andlát Haralds Gormssunar, þá sættisk Sigvaldi við Burizleif [Vinda konung, ok fékk Ástríðar dóttur Burizleifs ok hét því til[8], at koma Sveini Danakonungi til Vindlands [á vald[9] Búrizleifs. Litlu síðar bjó Sigvaldi skip eitt ok fór á því til Danmarkar ok kom við Sjóland, skamt frá því er Sveinn konungr var á veizlu. Þá brá Sigvaldi sér sjúkum ok sendi konungi orð, at hann kvæmi[10] á fund hans, ok lézk eiga við hann skyldarerendi[11] þau, er hann vildi at aðrir menn væri leyndir. Konungr trúði orðsending Sigvalda ok fór með fá menn á skip til Sigvalda, ok þegar er Sveinn konungr kom á skip jarlsins, þá bað Sigvaldi taka upp akkeri ok vinda segl, fyrir því at byrr var góðr undan landi, ok [sigldi með Svein konung[12] til Jómsborgar.

52. Eptir þat sendi Sigvaldi orð Burizleifi mági sínum, ok sagði at Sveinn Danakonungr var kominn til Jómsborgar, ok lézk hann dœma vilja millum þeirra, eða láta Svein konung fara aptr til Danmarkar. Í annan stað taldi hann fyrir Sveini konungi, at hann skyldi sættask við Vindakonung at því er Sigvaldi dœmdi[13], ok sagði, ef hann vildi þat eigi, at þá mundi hann koma á vald Burizleifs. At[14] þessu sættusk þeir, at hvárrtveggja konunganna játaði dómi Sigvalda jarls, ok er þeir höfðu þetta fastmælum bundit sín á millum, þá sagði jarlinn [upp ætlan

[1]) Gormssunr *tilf.* [2]) þar *tilf.* [3]) *saal. B;* nafni *tilf. A* [4]) millum [5]) lönd [6]) *udel.* [7]) *taget af B; mgl. i A* [8]) konung af Vindlandi ok fékk dóttur hans þeirrar er Ástríð hét, ok hét því hánum [9]) á fund [10]) kœmi [11]) skylt erendi ok [12]) sigldu með Sveini konungi [13]) millum þeirra *tilf.* [14]) af

sína, ok sagði þat fyrst í sættargerð sinni[1], at Sveinn Danakonungr skyldi fá[2] dóttur Burizleifs konungs, ok skyldi henni fylgja heiman sá hluti Vindlands, er Danir höfðu unnit af ríki Vindakonungs; í annan stað skyldi Burizleifr fá Þyri[3] dóttur Haralds konungs, systur Sveins konungs. Hon hafði fyrr verit gipt Styrbirni syni Ólafs Svíakonungs; þá lifði Haraldr konungr faðir hennar, hann hafði gefit henni eignir miklar á Fjóni ok suðr í Falstri ok í Borgundarhólmi.

Sigvaldi jarl skipti á þessa lund, at Burizleifr konungr skyldi 53.
hafa þann hluta Vindlands, er áðr var skildr til eignar Gunnhildar dóttur Burizleifs konungs, er Sveinn konungr skyldi fá, ok þat skyldi eiga Þyri Haralds dóttir. En Gunnhildr dóttir Burizleifs konungs skyldi eignask allar þær eignir, er Þyri hafði átt í Danmörku, ok þar taka alla tilgjöf sína í Danmörk, en Þyri alla sína[4] í Vindlandi, nema jarl [skyldi fá[5] Jómsborg ok öll þau heruð á Vindlandi, er hann skildi þar til. Þá lét Burizleifr konungr ok Sigvaldi jarl búa mikla veizlu í Jómsborg, ok var sú veizla brullaup Sveins konungs en festaröl Burizleifs konungs. Eptir þat fór Sveinn konungr heim til ríkis síns með Gunnhildi konu sína; þau áttu síðan tvá sunu, ok var hinn eldri kallaðr Knútr hinn ríki, annarr hét Haraldr. Þá er Sveinn konungr kom aptr af Vindlandi, sendi hann orð Þyri systur sinni, lét segja henni alt þat er hann hafði [sýst í[6] Vindlandi við Burizleif konung. Þyri varð þessum tíðendum úfegin, fyrir því at hon var vel kristin, ok sagði svá, at heldr vildi hon deyja með kristnum mönnum en koma á vald heiðins konungs ok spilla kristni sinni. Sat hon at búum sínum ok gætti eigna sinna nökkura vetr[7].

### *Um erfi eptir Harald Danakonung ok heitstrengingar Jómsvíkinga.*

Litlu síðar sendi Sveinn konungr orð Sigvalda jarli ok Þorkeli 54.
bróður[8] hans, ok segir at hann vill gera veizlu, erfi Haralds konungs föður síns, eptir fornum sið, ok bað þá brœðr til koma ok gera erfi Strútharalds jarls, síns föður, ok lézk skyldu til bjóða öllu stórmenni í ríki sínu, ok vildi at [þessarra manna[9] erfi væri bæði í einum stað, ok lézk mundu sjálfr halda starf fyrir veizlunni, ok taka kostnað af konungdómi sínum ok af jarls ríki á Skáni, er átt hafði Strútharaldr faðir Sigvalda jarls. Bað Jómsvíkinga koma svá marga sem jarlinn vildi haft hafa með sér. En er sendimenn kvámu til Sigvalda, þá löttu sumir menn

[1]) sættargerð þeirra, ok sagði fyrst [2]) Gunnhildar *tilf.* [3]) *saal. B;* Þuríðar *her og fremdeles A* [4]) tilgjöf *tilf.* [5]) skildi undan [6]) ráðit á [7]) síðan *tilf.* [8]) brœðr [9]) þessi tvinni

hann[1] þeirrar ferðar, ok töldu úvarligt at [leggja sik svá mjök undir vald Danakonungs[2], en sumir fýstu[3] ok báðu jarlinn fara með svá mikit lið, at Danir hefði ekki vald á Jómsvíkingum, ok þat ráð var tekit. Bjó jarlinn or Jómsborg 60 skipa, ok hafði alla hina ríkustu menn í þessa ferð, þá er í Jómsborg váru.

55. Sveinn konungr lét þessa veizlu gera á Hringstöðum á Sjólandi, ok lagði á mikla stund, at ekki [skorti þat til er fá mátti[4], at þá væri hon ríkari ok betri en áðr. Jómsvíkingar kvámu þann dag er at var gengit erfinu, ok fagnaði Sveinn konungr með mikillu blíðu Sigvalda jarli ok öllu hans föruneyti. Þá er erfi váru gör at fornum sið[5], þá skyldi þat skylt at gera þau á því ári, er sá hafði andazk er erfit var eptir drukkit[6], en sá er gera lét[7] erfit, hann skyldi eigi fyrr setjask í þess[8] sæti, er hann erfði, en menn drykki erfit. Hit fyrsta kveld er menn kvæmi[9] til erfis, þá skyldi skenkja upp full mörg [með þeim hætti sem nú eru minni, ok eignuðu þau full hinum ríkustu frændum sínum eða Þór eða öðrum guðum sínum, þá er heiðni var. En síðast[10] skyldi uppskenkja Braga full; þá skyldi sá er erfit gerði strengja heit at Bragafulli, ok svá allir þeir er at erfinu væri, ok stíga þá í sæti þess er erfðr var, ok skyldi þá fullkominn vera til arfs ok virðingar eptir hinn dauða, [en eigi fyrr[11].

56. En fyrsta kveld er þeir Sveinn konungr ok Sigvaldi jarl drukku erfi feðra sinna, þá setti konungrinn til þess menn at byrla höfðingjum Jómsvíkinga [þann drykk er sterkastr var, ok þeir yrði sem mest drukknir af[12]. En þá er bragafull var upp skenkt, ok áðr en Sveinn konungr hafði upp stigit í hásæti föður síns, þá strengði hann heit at áðr en [þriði vetr væri liðinn[13] skyldi hann fara með her til Englands ok drepa Aðalráð konung eða reka or landi, eða hafa sjálfr bana, ef eigi géngi þetta fram. Eptir þat at konungr hafði sezk í sæti Haralds konungs föður síns, þá strengði Sigvaldi jarl heit, at áðr en þrír vetr væri liðnir skyldi hann hafa drepit Hákon jarl i Noregi eða [elta hann[14] or landi, eða hafa sjálfr bana elligar. Þá mælti konungr: „Þetta er vel mælt ok mjök mannliga, ok unnum vér þér [mikit betr at hafa þat ríki[15] en Hákoni eða Eiríki syni hans.“ Þá strengði Þorkell heit

[1]) mjök [2]) eiga svá mikinn trúnað með Danakonungi [3]) *saal. B; fýstusk A* [4]) skœrti (*d. e.* skyrti) þat til er fá mætti [5]) eptir fornum siðum [6]) gört [7]) léti [8]) manns *tilf.* [9]) kómu [10]) *saal. B; A har dette noget forkvaklet;* minni með þeim hætti sem nú eru minni full horn hinum ríkustum frændum sínum eða öðrum góðum vinum sínum. En síðan [11]) *udel.* [12]) *saal. B;* þá var drukkit hit sterkasta ok þeir urðu mjök drukknir *A* [13]) þrír vetr væri liðnir [14]) eltan [15]) miklu betr þess ríkis

bróðir Sigvalda, at hann myndi fylgja brœðr sínum norðr til Noregs ok flýja eigi fyrr en um skut væri skip Sigvalda [jarls tvær skiplengðir[1] ef vér berjumk á skipum, en merki hans [á brautu ef vér berjumk á landi[2]." þá stóð Búi upp ok strengði þess heit, at hann skyldi fara í Noreg ok berjask með Sigvalda við þá Hákon ok Eirík feðga, ok flýja eigi fyrr en færri[3] standa upp en fallnir eru, ok halda þá[4] við meðan Sigvaldi vill berjask. Næst Búa brœðr sínum strengði Sigurðr hvíti þess heit, at hann skyldi fylgja Búa norðr í Noreg, sem hánum endisk drengskapr til, ok flýja eigi at Búa lifanda. þá strengði Vagn heit, at hann skyldi fara með Búa frænda sínum ok vera í bardaga með Sigvalda ok flýja eigi, ok þat lét hann fylgja, at hann skyldi eigi koma fyrr til Danmarkar en hann hefði verit í rekkju Ingibjargar, dóttur þorkels leiru mikils höfðingja í Noregi, at úvilja þorkels, eða Vagn skyldi hafa drepit hann ella. Björn brezki strengði þess heit, at fylgja Vagni fóstrsyni sínum. Hávarðr höggvandi ok Áslákr hólmskalli, skósveinar Búa, strengðu þess heit, at flýja eigi frá hánum, hvárt sem hann væri lífs eða andaðr, þá er bardaga væri lokit. [At liðnum heitstrengingum fóru þeir til svefns[5]. Um morgunin spurði Sveinn konungr, hvat Sigvaldi myndi af heitstrengingum manna, en hann mundi fátt af ok þóttisk of mælt hafa, en svá búit varð at vera. En þegar ífrá þeirri veizlu ætla Jómsvíkingar ferð sína norðr í Noreg, þvíat þeir vilja [enga njósn láta fyrir sér koma[6] í Noreg, at Hákon jarl mætti við búask eða Eiríkr jarl sunr hans.

### *Um Jómsvíkinga ok Hákon jarl illa í Noregi.*

þá er Jómsvíkingar hafa búit ferð sína af Danmörku með öllu 57.
því liði, er þeir höfðu or Jómsborg, [fara þá[7] norðr til Noregs, ok höfðu 60 langskipa ok flestöll stór ok vel búin at vápnum ok góðum drengjum. þeir kómu her sínum jólanótt at Jaðri, fengu veðr mikit ok gátu þó haldit öllum skipum sínum. þeir gera þegar upprásir, ræna ok drepa menn, alt [þat er þeir máttu[8]. Landsfólk flýði undan, tók sumt til skipa en sumt til fjalla eða á markir. Geirmundr hét ríkr bóndi, hánum kom engi njósn; þar kómu víkingar um nótt [í hans herbyrgi[9], ok flýr hann undan í lopt eitt ok fáir menn með hánum; þá tóku víkingar ok hjoggu loptit. En þeir Geirmundr vörðusk, ok

[1]) mér [2]) á bak er vér berjumk á landi uppi [3]) *saal. B;* fleiri *A* [4]) þó [5]) En at loknum heitstrengingum fara menn at sofa [6]) eigi láta fara njósn fyrir sér [7]) nú fara þeir [8]) þar sem þeir kómu [9]) at hánum

þá er hann sá at þeir myndu sóttir verða, þá hljóp hann or loptinu ok kom standandi á jörð. Vagn var þar nær ok hjó á hönd Geirmundi fyrir ofan úlflið, ok þegar [um leið hljóp Geirmundr[1] til sjóar, ok fær sér skútu ok menn með ok [ferr undan. Hann[2] kom á fund Hákonar jarls. Geirmundr hafði heyrt nefnda Jómsvíkinga, þá er hann hljóp undan, ok Vagn, ok sagði at hann[3] var smábeitr, er hann hjó ekki meir en hönd af manni [þeim er fyrir stóð[4]. Geirmundr hitti Hákon jarl at veizlu þar sem á Skugga heitir, ok þar var Eiríkr sunr hans. Þá gékk Geirmundr fyrir jarlinn, [þar hann sat[5] yfir borðum ok [heilsaði hánum[6]. Jarlinn spurði hann tíðenda. Geirmundr svaraði: „Eru[7] tíðendi“! Jarlinn mælti: „Lát góð vera.“ „Víst eru eigi góð ok þó sönn,“ sagði Geirmundr: „herr er kominn í land várt sunnan or Danmörku,
58. ok unnu mikinn skaða á yðru ríki[8].“ Hákon jarl svaraði reiðr ok mælti: þessi tíðendi eru illa login, ok fyrir löngu myndi Noregr auðr, ef Danir hefði herjat hvert sinn í Noreg er þér segið, ok eigi munu þér fyrr af láta, en nökkurr hangir uppi sá er[9] segir“. Geirmundr svaraði: „Fár vikur munu líða héðan, þá munu þér reyna brátt.“ Ok [brá upp handarstúfinum, ok lézk með því mega sanna sögu sína ok fleirum sárum[10]. Nú fær Hákoni jarli áhyggju ok öllu hans ráðuneyti; var þat fyrst til ráðs tekit at skjóta upp vitum [ok örvarskurðum ok skipferðum[11], stefndi[12] til sín hverjum manni, er þorði at verja sik ok fé sitt. Hákon jarl sjálfr ferr einskipa út ok inn eptir hverjum firði, vissi engi hans náttstað ok [engi hans örvæni[13]. Líðit samnask saman [í stórflokka, þat alt er fyrst var komit ok first var víkingunum[14], en þeir er næstir váru úfriðinum[15] flýja undan ok til at efla landsherinn með Hákoni jarli ok syni hans. Jómsvíkingar sœkja norðr með landi ok fá ekki viðrnám, þeir kvámu öllu liði sínu norðr um Stað, sigla fyrst til Hereyja ok hafa þaðan fréttir ok njósn af Hákoni jarli, ok fregna ekki annat en hann sé í fjörðum inn af þjóðleið, stundum norðr en stundum suðr. Þeir leggja herinum inn af þjóðleið ok utan at ey þeirri er Höð heitir, tóku þeir strandhögg á skip. Búi digri með sveit sinni hafði upp gengit, ok ráku þeir til skipa bú mikit fyrir sér. Til þeirra kom einn gamall bóndi ok kallaði á víkinga: „þér farið eigi hermannliga í[16] ókunnu landi ok

[1]) af. Geirmundr hljóp [2]) fór til þess er hann [3]) Vagn [4]) *saal. B*; er hann stóð fyrir *A* [5]) þá sat jarl [6]) kvaddi hann [7]) ill [8]) herra! *tilf.* [9]) slíkt *tilf.* [10]) *saal. B;* lézk mega sanna sögu sína með sárum sínum *A* [11]) *saal. B;* or báðum skipreiðum *A* [12]) bauð [13]) *saal. B;* hvergi hans örvæna *A* [14]) *saal. B;* ok stórir flokkar, þat alt er fyst var víkingar *urigt. A* [15]) *saal. B;* herinum *A* [16]) á

langt til sótt, eruð þér áburðarmenn [miklir ok[1] vilið nú auka nöfn yður í þessi för; þér takið kið ok kálfa ok geitr ok kýr, væri meiri frami at láta vera búit ok taka heldr björninn, er náliga man nú kominn [at bjarnbásinum[2], ef þér fáið tekinn[3]." Þá svaraði Búi: „frá hverjum birni segir þú [þar, sem[4] oss man happ at veiða?" Þá svaraði bóndinn: „sá hinn sami björn, ef nú veiði þér hann eigi, þá man hann alla yðr í munni hafa, [er eigi líðr langt ífrá[5]." Þá svaraði Búi: „heyr, bóndi! seg oss frá tiðendi góð ok sönn, þau sem oss er skylt at vita, vér skulum vel launa þér." Þá svaraði bóndi: „Vilið þér vel launa mér[6], þá má ek segja yðr til Hákonar jarls, hvar hann liggr inn á [Álm und hamrinum[7], ok veit ek eigi hvárt hann hefir eitt skip eða tvau, eigi eru fleiri en þrjú, ok í dag var hann eigi norðr róinn til liðs síns, ok ætlum vér, at vera man feigr, [er hann ferr svá úvarliga, ok víst hefir hann ekki til yðar fregit[8], eigi fœri hann svá ella." Þá mælti Búi til sinna manna: „Ofan hart til skipa, ok verum næstir sigrinum, nú sem fyrr njótum vér þess at vér höfum fyrst njósnina!" Þá hljóp sá mest er fóthvatastr[9] var, [ok bóndi fékk mikit fé eptir á eynni[10]. Búi bað sína menn slá festum ok leggja út skipin frá landi, lét blása [lúðri at liðit samnaðisk ok skundaði[11]. Sigvaldi jarl kallaði á hann ok spurði hvert Búi vildi róa, eða [hvárt hann hefir nökkut[12] fregit til Hákonar jarls. Búi svaraði, biðr þá alla róa, lézk ætla, at þann dag skulu þeir fá tekit [í hala[13] refinum, er nú dregr skaufit[14] inn hér með landinu [fyrir oss[15]." Þá svaraði Sigvaldi jarl: „eigi hefir þu enn tekit í halann hánum, ok vænna þykki mér at þú mant vera gintr." Þá svaraði Búi: „eigi mant þú þora at berjask við Hákon jarl, ef þú finnr hann með her sinn, ef þú þorir eigi at leggja til hans með 60 skipa, [þar sem hann hefir hit mesta þrjú skip fyrir[16]. Búi hét fast á menn sína at róa skyldi. Vagn var ok albúinn. Þá bað Sigvaldi slá festum, ok fóru öllu liðinu inn fyrir norðan eyna Höð. Þá var [lítill vindr[17]. Þá mælti Sigvaldi: vera kann at hann Búi hinn digri gangi sjálfr á björnbásinn þann, er hann hugðisk veiða myndu Hákon jarl; svá ferr hann sem feigr maðr." Búi ferr fyrst með sínu liði, þá Vagn, þá Sigvaldi. Þeir fóru inn með eyjunni alt til þess er þeir kvámu í Hjörungavág, þar hittu þeir fyrir Hákon jarl, eigi einskipa, heldr með hálft annat hundrað skipa, þat váru snekkjur ok skeiðir[18],

[1]) *saal. B; mgl. i A* [2]) á bjarnbásinn [3]) stiltan [4]) maðr! þeim er [5]) fyrr en langt sé héðan [6]) eðr engu [7]) Elftrum [8]) *tilf. B; mgl. i A* [9]) fimastr [10]) en bóndinn veik aptr búinu um eyna. [11]) í lúðr at liðit skyldi skynda. [12]) hvat hann hefir [13]) í halann á [14]) skaptit [15]) *mgl.* [16]) ok hefir hann nú et flesta ein þrjú skip [17]) lítit veðr á [18]) skeiðar

knerrir ok kaupskip, er Hákon jarl hafði fengit, er há váru borði ok öll vel skipuð af mönnum, vápnum ok grjóti.

59. Þar var með hánum hinn [fyrsti maðr[1] Eiríkr jarl sunr hans, ok Sveinn, Sigurðr ok Erlingr synir Hákonar jarls ok þó eigi sammœðra[2] við Eirík; þeir stýrðu þá allir skipum. Þetta segir Þórðr Kolbeinssunr í kvæði því er hann orti um Eirík jarl:

Mjök lét margar snekkjur
-mærðar örr- sem knörru
-óðr vex skálds- ok skeiðar
skjaldhlynr á brim dynja;
þá er ólítill utan
oddherðir fat gerða
(mörg var lind fyr landi)
lönd síns föður röndum.

Setti jarl, sá er atti
ógnfróðr á lög stóði
hrefnis, háfa stafna
hót[3] Sigvalda á móti.
Margr skalf hlummr, en hvergi
huggendr bana ugðu,
þeir er gátu sjó slíta,
sárgamms, blöðum ára.

En í gegn at gunni
glæheims skriðu mávar[4],
rendi langt með landi
leiðangr, Dana skeiðum[5].

60. Þá létu jarlarnir Hákon ok Eiríkr kveða við lúðra sína, ok settu upp merki sín, ok skipa til atróðrar. Hákon skipar sveit er hánum skyldi fylgja í orrostu, [á sitt borð hvárr, ok eru[6] þessir höfðingjar Skopti ok Rögnvaldr or Ærvík[7]. Þeir venda þar til atróðri, sem fyrir var Sigvaldi jarl, ok mœtask þeir jarlarnir í orrostu. Á stjórn Hákoni jarli er Sigurðr sunr hans, ok með hánum Eyvindr Finnssunr ok Erlendr steik innan or Naumudali, báðir lendir menn ok ágætir, þeir lögðu í móti Sigurði hvíta bróður Búa digra. En út í arminn var Eiríkr jarl ok með hánum Þorsteinn miðlangr, er allra víkinga var ágætastr, ok Þórir hjörtr norðan or Vágum, lendr maðr; þeir lögðu móti Búa, ok varð þar hörð orrosta með þeim. Á bakborða fylking Hákonar jarls lögðu þessir fram: Erlingr sunr hans ok með hánum Járnskeggi af Yrjum af Upphaugi ok annarr Styrkárr af Gimsum, er

[1]) fyrstr ríkr maðr [2]) sammœddir [3]) hóts [4]) *rettet*; máva *A; mgl. i B*
[5]) *rettet for* skeiðar [6]) *saal. B;* á hvárt borð *A* [7]) *saal. B;* Vætvík *A*

ágætastir váru lendra manna fyrir norðan Stað. þeim kom í mót þorkell hávi bróðir Sigvalda. Í utanverðum armi fylkingar lagði fram sínu skipi Sveinn Hákonarsunr, ok með hánum Gizurr hvíti lendr maðr ofan af Valdresi, ok annarr þorkell leira æzkaðr austan or Vík; þessir þrír höfðingjar halda upp orrostu við Vagn Ákasun.

þessi var hin harðasta orrosta ok hin ágætasta[1]. þessir váru 61.
íslenzkir menn með Hákoni jarli: Skúmr ok þórðr er kallaðr var örvhönd[2], synir þorkels auðga vestan af Mýrum í Dýrafirði, ok Vígfúss Vígaglúmssunr, [Tindr Hallkelssunr[3], hann orti drápu um Hákon jarl, ok í þeirri drápu er mart sagt frá Jómsvíkingum[4] ok þeirra orrostu; frá þessarra manna orðum hafa menn minni haft á því landi frá þeima[5] tíðendum, sumir[6] með kveðskap ok sumir[6] með frásögn annarri. Vígfúss orti þetta áðr en barzk væri, ok sveið hann klubbu eina, þá spurði Hákon jarl hvat þat skyldi; hann svaraði á þessa lund:

Hefi ek í hendi
til höfuðs görva,
beinbrot Búa,
böl Sigvalda,
sjá skal vera,
ef vér lifum,
eikiklubba[7]
óþörf Dönum.

þá kvað hann ok þetta:

Oss er leikr (en lauka
liggr heima vinr feimu)
þryngr at Viðris veðri
vandar, góðr fyr handum;
hlýs kveð ek hœla bosa[8],
(hann væntir sér annars
vífs und vörmum bœgi)
vér skreytum[9] spjör, neyta.

þessi orrosta hefir verit mjök ágæt ok aldrigi hafa Danir [þvílíkan bardaga átt[10] við Norðmenn[11], fyrir þá sök at þeir höfðu meira lið en Danir[12], en [þó létu þeir um hríð á hömlur[13] síga Sveinn Hákonarsunr ok hans menn fyrir Vagni, ok var þá at komit flótta, áðr en Eiríkr jarl lagði til járnbarðanum, ok lét Vagn þá undan aka, svá at þá lágu skipin svá frammi hvártveggja[14] sem verit hafði í fyrstu. þá er Eiríkr

[1]) mesta [2]) örvöndr [3]) *mgl. i B* [4]) Jómsvíkinga orrostu [5]) þessum [6]) sumt [7]) *saal. B;* alriklubba *A* [8]) *saal. B;* hlæso bœlis *A* [9]) *saal. B;* skeytum *A* [10]) *saal. B;* þvílíkar orrostur borit *A* [11]) fyrr né síðan *tilf.* [12]) hálfu minna *tilf.* [13]) langa hríð höfðu þeir betr, ok á hömlu lét [14]) hvárratveggja

kom aptr í sína fylking, hafði Búi fengit [sigr[1] ok höggvit tengsl ok leyst flotann; þá lagði Eiríkr barðanum at skipi Búa, svá at þeir tengðu saman [hvártveggja stafna[2] ok borð við borð, ok vildu hvárgir leysa fyrr en annathvárt væri hroðit. Þá varð mikit mannfall[3], er hvárirtveggja vágu höggvápnum. Þar var ilt [bleyðimanni innanborðs, þar var mikit manndráp á lítilli stundu, ok vissi engi maðr at telja[4] hversu
62. margir menn þar féllu. Norðmenn féllu meir hinn fyrra hlut orrostunnar, en svá lauk, at Danir létu sigrask[5], ok olli því mest ofrefli liðs ok hörð atsókn, ok hér með var illviðri svá mikit, at [hagl dreif svá stórt, at hvert korn, er þú tókt upp, þá vá eyri, en Danir áttu at horfa í móti því[6]. Þá lét Sigvaldi höggva tengsl ok undan halda, ok þegar eptir Þorkell bróðir hans ok Sigurðr hvíti, venda út or váginum. Þat sér Vagn Ákasunr ok mælti: „Hví flýr þú, hinn illi hundr! [or lítilli orrostu, ok selr þína menn við verði; þá skömm mant þú[7] hafa, er þú mant við lifa allan þinn aldr, ok lengi man uppi[8].“ Skýtr [snœrispjóti til[9] er skipit snérisk, ok hitti millum herða þeim er stýrði, en þat var annarr maðr, en eigi Sigvaldi, en hann vildi Vagn skotit hafa. [Þá var flýðr allr flestr Danaherr[10], ok þó mikit áðr drepit af. Þá leggr jarl skeið sína á annat borð Búa hinum digra, þar varð hörð viðrtaka: Áslákr hólmskalli ok Hávarðr höggvandi hlaupa upp í skip Hákonar jarls, ok drápu margan mann, en Þórðr ok Skúma[11] bróðir hans váru þeim ok nærstaddir, véla þeir nú tveir um Hávarð, höggr hann höndina hœgri af Þórði, en Skúma hafði mörg stór sár áðr en Hávarðr misti beggja fóta sinna. Vígfúss Vígaglúmssunr fær einn steðja, er legit hafði á þiljum, ok þar hafði hann hnoðit [við sverðshjölt sín[12]; hann fœrir steðjann með báðum höndum at Ásláki hólmskalla, kemr geirrinn í höfuðit, svá at haussinn brotnaði ok[13] heilinn lá úti. Þá kom Eiríkr upp með sína sveit í skip Búa; Þorsteinn miðlangr kom fyrst í fyrirrúmit[14], höggr til Búa um ennit þvert, svá at fal [báða eggteina á sverðinu. Búi veitir Þorsteini[15] sár undir höndina vinstri, svá at náliga beit [manninn í sundr[16]. Þá tók Búi kistur tvær fullar gulls ok kastaði fyrir borð, [ok allir skiparar hans hljópu fyrir borð með kistur sínar

[1]) svig á [2]) hváratveggja stafnana [3]) mannspell [4]) blauðum mönnum innanborðs, þar urðu mörg stórtíðendi á lítilli stundu í manndrápi, ok vissi engi maðr tal [5]) sígask [6]) dreif því hagli, er eitt haglkorn vá eyri, þar ígegn áttu Danir at horfa [7]) Sigvaldi svaraði: „með litlu verði selr þú menn þína til dauða, ok þá skömm mantu heim [8]) vera *tilf.* [9]) snart spjót í því [10]) þá var farit alt afl Danahers [11]) skúmr, *her og nedenfor B* [12]) sverðshjölt sín með [13]) *saal. B*; svá at *A* [14]) miðrúmit [15]) *saal. B;* báðar eggjar tennrnar, veitir hánum *A* [16]) hann sundr í miðju

ok váru allir drepnir[1]. Þá [snérisk alt liðit[2] at Vagni, þeir verjask lengi, fyrir því at skipit var hátt borði, en drengir innanborðs, ok smá skip höfðu næst lagt. Þá bauð Hákon jarl at taka knörr einn[3], ok leggja ífrá smá skipin[4] ok í staðinn en stœrri skipin. Um þetta kvað Vigfúss Víglúmssunr:

Varðat[5] hœgt, þá er hurðir
hjörklofnar sá ek rofna
-hátt söng Högna- geitis,
-hregg- til Vagns at leggja.
Þar géngu ver -þröngvir![6]
[þunníss- í böð -Gunnar-[7]
(ströng var danskra drengja
darra flaug) til knarrar.

Lauksk svá sem ván var, at þeir urðu ríkari er tignari váru ok aflmeiri[8]: varð Vagn handtekinn ok mart hans manna, ok leiddr á land, ok settir 30 manna með hánum á lág eina, ok rekinn strengr at fótum, en hendr þeirra váru lausar. Allir aðrir Danir váru flýðir eða drepnir 63.
eða særðir til ólífis. Þá gékk at[9] Þorkell leira at höggva þá. Þá mælti einn Jómsvíkinga: „Nú skal þat reyna er vér höfum [opt þrætt[10], hvárt höfuðlauss maðr veit nökkut; nú ef ek veit nökkut síðan, þá man ek stinga knífi mínum í jörðina, er af mér er höfuðit." Höfuð var af þessum höggvit, ok vissi hann ekki síðan, sem ván var at. Þá var annarr til höggs leiddr, sá mælti ok hló at:

„Gerða ek jarli
ör at vári[11],
þat var mér þá títt,
en þetta nú.

högg þú nú," sagði hann. Þá mælti Eiríkr jarl: „Vilt þú grið, góðr drengr!" „Þat skiptir," sagði hann, „hverr býðr." „Sá býðr," sagði hann, „er vald hefir til, Eiríkr jarl." „Vil ek þá gjarna," sagði hann. Þá tók Eiríkr jarl hann til sín. Þá var enn einn til höggs leiddr, sá mælti: „Hrútr!" [Þeir spurðu: „Hví mælir þú svá?" Hann svaraði: Mörg á hefir af yðrum mönnum nefnd verit í dag, ok vil ek því fá

[1]) *saal. B*; allir Búa þegnar hlaupa af borðinu með kistur sínar, menn hans váru allir drepnir, nema þeir er fyrir borð stíga með hánum *A* [2]) snéru jarlarnir öllu liði sínu [3]) mikinn *tilf.* [4]) smáskipum [5]) var at þar [6]) *Egilssons Conjectur;* þröngrar *A,* þröngan *B* [7]) *saal. B;* þunn um borð at gunni *A* [8]) afl höfðu meira [9]) til [10]) þrætt um jafnan [11]) *saal. B;* arvare *A*

hrútinn til[1].“ þetta þótti mælt hlœgiliga ok úhræddliga. Spurði Eiríkr jarl, ef hann vildi grið hafa, ok hann lézk vilja. þá var einn framleiddr til höggs, sá var vænn ok fríðr sjónum [hærðr vel[2] ok mikill vexti; hann sópar hárinu fram yfir höfuð sér, ok [bað eigi spilla hárinu í blóðinu[3]. þá svaraði einn: „Ek man at því gera, at eigi verði hár þitt blóðugt.“ Sá tók sér vönd einn ok snéri í hárit, en hinn er höggva vildi reiddi upp sverðit; Jómsvíkingrinn [hnykkir þeim manni, er í hár hánum hélt, ok kom sverðit á hendr þeim[4], ok beit sundr báða handleggina. þá mælti sá er bundinn var ok hnykt hafði höfðinu, þvíat hendr váru bundnar: „Lifa enn nökkurir Jómsvíkingar.“ Eiríkr jarl spurði: „Hvat heitir [þessi maðr[5]?“ „Ek em Haraldr[6].“ „Hvers sunr?“ sagði jarlinn. „Ek em kenningarsunr Búa. Vera má at svá[7] sé,“ sagði jarlinn; „vilt þú hafa grið?“ „Hverr man nú annarr [til vera[8],“ segir hann. þá mælti þorkell leira: „Skulu allir þessir menn grið hafa, er drepit hafa frændr vára fyrir augum oss, ekki gerum vér þá nýtt at því.“ Jarlinn sagði: „Vissir þú eigi þat fyrr, at ek var ríkari en þú?“ þá svaraði þorkell: „þat kann vera at vit ráðim ýmsir.“ Hann hafði öxi mikla í hendi sér, reiðir[9] upp ok hleypr œsiliga at strenginum þar sem Vagn sat[10], ok vildi drepa hann. Skarði víkingr hljóp [or strenginum[11], ok [fellir sik fram[12] fyrir fœtr þorkeli.
64. þorkell steyptisk yfir hann, ok varð laus öxin. þá hljóp Vagn upp, ok tók öxina ok hjó þorkel um þverar herðar, svá at í jörðu nam staðar. Eiríkr jarl bauð Vagni grið, ok sá at þat var skaði at drepa þvílíkan mann. Vagn þá þar grið með öllum sínum mönnum þeim, sem eptir váru. Hákon jarl settisk á lág eina[13] ok með hánum ráðunautar[14] hans. því næst gall strengr á skipinu því, er næst var landinu, ok þegar steyptisk af láginni Gizurr hvíti, ok var skotinn með öru í gegnum, ok fékk af því bana. Ok þegar var hlaupit til skips ok út á skipit, ok hittu þeir mann, er stóð á knjánum, [ok var þar Hávarðr höggvandi, ok spurði: „Sveinar!“ sagði hann, „lét nökkurr maðr sígask við lágina?“ þeir sögðu[15] at Gizurr hvíti var dauðr. þá mælti Hávarðr: „Minna happ varð at skotinu en ek hugða.“ þeir svöruðu: „Œrit er óhappit, ok eigi skalt þú vinna fleiri.“ þeir höggva hann

[1]) *saal. B;* svá mörg hefir áin af hrútinum nefnd verit í dag *A.* [2]) *tilf. B; mgl. i A* [3]) mælti: „spillið eigi hárinu, gerið eigi blóðugt [4]) *saal. B;* snérisk á hendr þeim er hélt *A* [5]) þú [6]) sagði hann *tilf.* [7]) satt [8]) vænni [9]) ríss [10]) var [11]) upp [12]) féll [13]) *saal. B;* lágina *A* [14]) ráðgjafar [15]) *saal. B;* hann hét Hávardr höggvandi, ok hann mælti: „spyri þér nökkur tíðendi, Sveinar! lét nökkurr maðr sigrask á láginni?“ þeir segja satt til *A*

svá smátt, at þó væri hann dauðr, at hann hefði þriggja manna fjör. Hákoni jarli hugnar illa, at [Vagn fékk grið[1], ok lét þeim munu vera þat mikinn ótila. Eiríkr jarl segir, [ef hánum líkaði illa, at hann skyldi hafa svá búit[2], ok skiljask þó[3] reiðir. Fór Vagn með Eiríki ok dvaldisk með hánum um hríð; þá fékk Vagn Ingibjargar dóttur þorkels leiru með miklu fé. Um várit fór Vagn suðr til Danmarkar, gaf Eiríkr jarl hánum þrjú langskip vel búin, ok skiljask þeir góðir vinir. Eptir bardagann gékk Hákon jarl at Skúmi þorkelssyni ok sá hann sáran til ólífis, ok mælti: „Illa hefir þinn faðir haldit[4], ef þú skalt eigi heim koma til handa hánum.“ þá orti Skúmr vísu:

þat kvað jarl at æri[5]
unnviggs fyr haf sunnan,
þá er á seima særi
sárelda spor[6] váru:
öllungis hefir illa,
eybaugs, ef skalt deyja,
víst hyggjum þat, viggja
valdr! þinn faðir haldit.

Hákon jarl gat sun, þá er hann var fimtán vetra gamall, ok hét 65.
sá Eiríkr jarl. þá er Hákon jarl kom aptr í Noreg, þá kvángaðisk hann ok fékk þóru Skagadóttur, systur Tíðendaskopta, ok hann fékk Ingibjargar dóttur Hákonar jarls. Sveinn var sunr Hákonar jarls ok þóru, ok Bergljót var þeirra dóttir, er átti Einarr þambarskelfir, Sigurðar váru tveir, Erlingr ok Hemingr ok Erlendr váru synir Hákonar jarls. þau Skopti ok Ingibjörg áttu sun, þann er Ormr hét ok var jarl, þaðan var kominn Erlingr jarl. Skopti var svá kærr Hákoni jarli, at hann skyldi í höfnum leggja næst jarlinum sitt skip, ok engi skyldi annat þora en leggja þegar á braut, er hann kom til. Svá bar til einu[7] sinni, at Skopti kom svá til föruneytis jarlsins, at í læginu lá þá fyrir Eiríkr sunr hans, ok bað Skopti hann [leggja or læginu fyrir sér[8]; en hann læzk eigi munu á braut leggja. þat heyrði[9] jarl, ok bað taka tjöld af sínu skipi, ok kvað engum skulu hlýða at halda[10] læginu fyrir Skopta. þá váru ok tjöld tekin af skipi Eiríks, ok sá hann, at hann var liðfár, ok lét síga sitt skip or læginu fyrir Skopta. Um haustit eptir fór Skopti millum búa sinna á skútu einni; þat spurði Eiríkr ok skipaði jafnmikit skip, ok lagði til fundar við Skopta, ok drap hann ok alla skipsókn[11] hans

[1]) Vagni væri grið gefin [2]) svá, þó at hánum líkaði illa, skyldi hann svá búit hafa [3]) þeir [4]) *rettet;* haldizk *A; udel. B* [5]) orði *urigt. B* [6]) *rettet;* spjǫrr *A*, spjöll *B* [7]) eitthvert [8]) á braut leggja [9]) Hákon *tilf.* [10]) á *tilf.* [11]) skipsögn

með hánum, sem segir í kvæði því, er ort er um Eirík, ok Eyjúlfr orti daðaskáld:

Meita fór at móti
mjök síð um dag skíði
ungr með jöfnu gengi
útvers frömum hersi,
þá er rauðvita reiðir
randvallar lét falla
(úlfteitir gaf átu
opt blóðvölum) Skopta.

[þetta er hit fyrsta verk Eiríks jarls er ort er um[1]. Hákon jarl ok Eiríkr jarl váru jafnan síðan úsáttir.

66. Eptir Jómsvíkinga orrostu þóttisk Hákon jarl fullkominn vera til ríkis, er hann hafði svá mikla höfðingja sigrat, þóttisk hann ekki þurfa at hræðask Dani um sitt ríki. Þá tók hann at harðna við [sitt landsfólk[2], ok gerðisk fégjarn ok rækti ekki lögin, ok mest var at því, at hann var vífinn[3] um konur, ok þar eptir gerðu menn hans: hvárki var hlíft[4] frændkonum ríkismanna né eiginkonum manna, hvártveggja[5] ríkra ok úríkra. Þá gerðisk mikit orð á um óvinsæld [jarlsins ok hans liðs[6], sögðu bœndr sem reyndisk, at þeir vildu eigi þola svá búit, ok[7] gerðu bœndr lið at Hákoni jarli ok hans mönnum. Þá var hann staddr í Gaulardali á bœ þeim er Rimul heitir, ok þar var hann
67. drepinn af skósveini sínum, sá hét Skopti Karkr. Erlendr sunr Hákonar jarls var drepinn á sundi, þá er hann hljóp fyrir borð, með hjálmunveli[8], en aðrir brœðr hans stukku or landi. Eiríkr sœkir austr í Svíaveldi á fund Ólafs Svíakonungs, var þar í góðu yfirlæti langa hríð, ok herjaði víða um Austrvegu, svá sem segir Þórðr Kolbeinssunr:

Jöfrum varð (en urðu
allhvast Danir falla)
blóðhelsingja bræðir
bróðir[9] Sigurðar œðri.

-Meinrennir!- brá manna
(margs fýsa sköp) -varga-
ljóða litlu síðar
læ Hákonar ævi.
En til lands þess, er lindar
láðstafr vegit hafði,

[1]) þetta er talit hit fyrsta fráverk Eiríks í hans sögu [2]) landsmenn sína [3]) ósiðarmaðr [4]) þyrmt [5]) bæði [6]) *saal. B;* við jarl ok lið hans [7]) einum vetri eptir Jómsvíkinga orrostu *tilf.*, [8]) hjálmurveli [9]) brœðr

hraustr þá er herr[1] fór vestan,
hygg ek kómu sun Tryggva.

Hafði sér við særi
(slíks var ván at[2] hánum)
auðs en upp um kvæði
Eiríkr í hug meira.
Sótti reiðr at ráðum
(rann engi því manna,
þrályndi gafsk þrœndum)
þrœnzkr jarl konung sœnskan.

## *Um Ólaf Tryggvasun ok um hans ævi.*

Ólafr digrleggr[3], sunr Haralds hins hárfagra, var faðir Tryggva konungs, þess er átti Ástríði dóttur Eiríks bjóðaskalla sunnan af Ofrastöðum[4]; þeirra sunr var Ólafr er [á barns aldri[5] fór með móður sinni í ókunn lönd frá[6] hánum ok öllum ættmönnum sínum, nam fóstr ok uppfœði[7] austr í Hólmgarði með Valdimari[8] gamla, þróaðisk ok óx hvártveggja með afli ok vetratali, þó mest með vizku ok atgörvi þeirri allri, er prýða má góðan mann[9]. Hann hafði mikinn metnað sem ván[10] var af konungi ok [af öllum[11] hans mönnum. Valdimarr konungr setti Ólaf höfðingja brátt innan hirðar, ok svá at stjórna hermönnum þeim, er varðveittu land konungs ok mikluðu[12] ríki Garðamanna. 68.

Ólafr vann margskyns[13] frægð í Garðaríki ok víða [í Austrveg[14], 69.
í Suðrlöndum ok Vestrlöndum, svá sem segir Hallfreðr vandræðaskáld:

Svá frá ek hitt at háva[15]
hörgbrjótr í stað mörgum
-opt kom hrafn at hepta[16]-
hlóð valköstu -blóði-.
Endr lét Jamta kindir
allvaldr í styr falla
-vandisk hann- ok Vinda
végrimmr -á þat snimma-.

Hættr var Hörða dróttinn
hjördjarfr Gota fjörvi,
gullskerði frá ek görðu
geirþey á Skáneyju.

1) hann 2) *saal. B;* af *A* 3) *tilf. B; mgl. i A* 4) Oprostöðum 5) með barnœsku 6) *mgl.* 7) uppfœzlu 8) Valdamari 9) höfðingja 10) vert 11) *saal. B;* þar með öllum út ífrá *A* 12) *saal. B;* miklaði *A* 13) margskonar 14) um Austrvegu 15) *rettet;* hávan *A og B* 16) hafna

Böðserkjar hjó birki
barklaust í Danmarku
hleypimeiðr fyr Heiða
hlunnviggja bœ sunnan.

Tíðhöggvit vann tiggi
Tryggva sunr fyr styggvan
leiknar hest á lesti
ljótvaxin hræ Saxa.
Vinhróðigr gaf víða
vísir margra Frísa
blökku brúnt at drekka
blóð kveldriðu stóði.

Hilmir vann at Hólmi
hjálmskóð roðin blóði
(hvat[1] ofdyldi þess höldar)
hörð ok austr í Görðum.
Rógs brá rekka lægir
ríkr valkera líki,
herstefnir lét hröfnum
hold Flæmingja goldit.

Gerðisk ungr við Engla
ofvægr konungr bægja,
naddskúrar réð nœrir
Norðhumbra[2] sá morði.
Barði brezkrar jarðar
byggendr[3], en hjó tiggi
(gráðr þvarr geira hríðar
gjóði) kumbrskar[4] þjóðir.

Gerði seims með sverði
sverðleik í Mön skerðir,
eyddi úlfa greddir
ógnblíðr Skotum víða.
Ýdrauga lét œgir
eyverskan her deyja,
(týr var tjörva[5] dýrra[6]
tírar gjarn) ok Íra.

Ólafr konungr Tryggvasunr átti tvær konur: Geilu[7] hina vindversku ok Gyðu [hina ensku[8]. Ólafr var kristnaðr vestr í Syllingum. Hann kom í Noreg vestan af Englandi, svá sem fyrr var sagt í kvæði Þórðar Kolbeinssunar.

[1]) hvar [2]) *saal. B;* Norðimbra *A* [3]) byggvendr [4]) *saal. Cd. Arn. Magn. 310 4to;* kumbskar *A;* lumberskar *B* [5]) *rettet;* tjorvar *A og B* [6]) dýran
[7]) *saal. baade A og B;* Geiru *Sn.* [8]) *tilf. B; mgl. i A*

Í þann tima er drepinn var Hákon jarl[1] kom Ólafr vestan ok sótti norðr í land, ok er hann kom í þrándheim tóku allir þrœndir vel við hánum, ok fyrst[2] Gauldœlir; gerðu þó allir samt sitt félag, fyrir því at hvárirtveggja höfðu um vant at ráða. Bœndr þurftu höfðingja þann, er þeim væri [bæði sœmd at ok traust[3], þar sem þeir höfðu gert samnað at Hákoni, ok af því [varð hann af lifi tekinn[4], en eptir hann váru synir ríkir ok harðfengir til hefnda. Ólafr konungr hafði ok [ofmikinn vanda[5], þar sem faðir hans var af lífi tekinn ok alt hans ríki hertekit, en hann verit í útlegð frá frændum ok óðulum frá barnœsku. Bœndr höfðu konungi at bjóða mikit traust ok fjölmenni, en á móti hafði hann at fá þeim virðuligan[6] höfðingja ok fullkominn í allri spekt, ok [fyrir því at vant er at ráða svá, at jafnan þykki vel ráðit[7]; dró þetta þó saman þeirra samþykki, ok tóku Ólaf til konungs á Eyraþingi; en hann [svaraði þeim vel ok vitrliga, ok lögbundu[8] þat fast, at hvárirtveggja skyldu veita öðrum [lið ok fulltingi[9] til allra lögsamligra[10] hluta. 70.

Nú ferr Ólafr konungr yfir endilangan Noreg[11] norðan frá landamæri ok suðr til Danmarkar; hann gerðisk maðr nú bæði ríkr ok göfugr, ok tók á sik mikit starf ok vandræði, meðan hann var konungr yfir Noregi. Hann hélt fyrstr Noregs konunga retta trú til Guðs, ok af hans stjórn ok ríki varð alt Noregs veldi kristnat[12], ok enn kristnaði hann fleiri lönd: Orkneyjar, Færeyjar, Hjaltland[13], Ísland ok Grœnaland; um þetta kristniboð urðu mörg stórtíðendi áðr en svá mikit [kœmi til leiðar um öll þessi lönd[14]. 71.

[En þegar vánu skjótara lét Ólafr konungr[15] efla kaupstað í Niðarósi, en þar hafði áðr verit einbœli. Ólafr konungr lét drepa stóra höfðingja, er á móti vildu rísa kristninni, sumum veitti hann ok mikit lén ok stórar gjafir, [þeim sem efla vildu hans[16] erendi. Erlingr Skjálgssunr fékk Ástríðar systur Ólafs konungs, ok hann hafði erendi hans alt austr í land. En á Hlöðum var þá [mest höfuðbœli[17] í þrœndalögum. Ólafr konungr lét gera skip á Hlaðahömrum[18], þat var miklu meira ok virðuligar[19] gört um alla hluti en önnur skip[20] í Noregi, þat hafði fjögur rúm ok 30, þar váru á gör drekahöfuð [öll 72.

1) *saal. B;* Í þenna tíma er áðr var Hákon jarl drepinn *A* 2) fyrstir 3) traustr 4) hafði hann látizk 5) vanda mikinn 6) virðiligan 7) átti hann opt um vant at ráða ok þó jafnan vel or ráðit 8) svarði þeim lög á móti; þeir bundu 9) styrk 10) vegsamligra 11) ok lagði undir sik *tilf.* 12) kristit 13) Hjatland 14) gott kœmisk á leið 15) Ólafr konungr lét 16) til at efla sitt 17) höfuðbœr mestr 18) *saal. B;* landhömrum *A* 19) virðiligra 20) langskip

með gulli lögð[1], ok var þat kallat Ormr enn langi; [í þetta skyldi engi maðr koma til ferðar yngri[2] en tvítugr, en engi eldri en sextugr. Margir hlutir váru þar til varnaðar mæltir ok boðnir þeim mönnum, er á Orminum langa váru; engi skyldi sá vera á þessu skipi, [er eigi[3] væri at nökkuru áburðarmaðr, ok þar finnask sönn[4] dœmi til, at á því skipi váru kappar einir, en engi grey eða bleyðimenn.

*Um úsætti annarra höfðingja við Ólaf Tryggvasun.*

73. Sveinn Danakonungr þóttisk missa mikilla eigna, þeirra er vera [skyldi tilgjöf[5] Gunnhildar konu hans, fyrir því at þyri hafði þær eignir, er Haraldr konungr hafði gefit henni, faðir hennar. En Burizleifr þóttisk [þó mjök svikinn at hann hefði tilgjöf þá, sem þyri skyldi hafa, þar sem konan[6] kom eigi til hans. Af fortölum[7] Gunnhildar ok áeggjan sendi Sveinn konungr menn eptir þyri, ok lét fylgja henni nauðugri til Vindlands ok á fund Burizleifs konungs; en hann tók með mikilli ást við ok gerði brúðkaup[8] til hennar, en hon hélt þó fram sínu þrályndi, ok kvazk eigi vilja hafa heiðinn mann heldr en fyrr, ok var svá sjau nætr með konungi, at [hvárki át hon eða drakk með hánum eða hans mönnum[9]. Ok með ráðum fóstrföður síns gat hon [leynzk í brott[10] á skóg einn, ok svá til þess er hon kom til sjóvar, ok þaðan[11] féngu þau eitt lítit skip, ok fóru svá til Danmarkar. En hon þorði þar eigi vera, fyrir því at hon ugði, at Sveinn konungr bróðir hennar myndi fœra hana aptr til Vindlands, ef hann [hefði vitorð af, at hon væri í Danmörku[12]. Fór hon þá leyniliga í Noreg á fund Ólafs konungs, ok bað hann leggja nökkut til hjálpræða, ok gerði hánum kunnigt um sínar atferðir. En konungr tók vel við henni ok sœmiliga ok gerði hana sér at eiginkonu [utan ráðs[13] Sveins bróður hennar. Hon bað opt Ólaf konung, at hann skyldi heimta fé af[14] Burizleifi konungi á Vindlandi, ok sagði, sem satt var, at hon hafði lítit af því er hon átti með réttu[15]. Brátt eptir þessa áeggjan býr Ólafr konungr ferð sína or landi, ok bauð út liði miklu ok hafði 60 skipa, fór austr til Vindlands ok í gegnum Danakonungs veldi[16] fyrir utan [hans vilja[17]. Ólafr konungr fær mikit fé, ok alt eignask hann þat er hann

1) gulli búin 2) á þessu skipi skyldi engi maðr yngri vera 3) nema 4) mörg 5) skyldu í tilgjöf 6) þá mjök svikinn, þó at hann hefði tilgjöf, þá er þyri skyldi hafa, þvíat konan 7) atkalli 8) brullaup 9) hon þá at þeim hvárki mat né drykk 10) hleypizk á braut 11) þar 12) vissi at hon væri þar komin 13) án ráði 14) at 15) at hafa *tilf.* 16) ríki 17) hans þökk ok vilja

beiddi, ok olli því mest liðveizla Ástríðar dóttur Burizleifs konungs, er átti Sigvaldi jarl at Jómi. En þá er Ólafr konungr fór af Vindlandi, þá sigldi hann lítinn byr til Danmarkar ok fagrt veðr, ok fóru þau skipin fyrir er smærri váru, en þau eptir en stœrri, fyrir því at þau þurftu meira veðrit [heldr en þau skipin en smærri[1].

Við einn hólma fyrir Vindlandi váru saman komnir margir stórir höfðingjar, en sá hólmi heitir Svoldr. Í þessum flota var Sveinn Danakonungr, er miklar sakir þóttisk eiga við Ólaf konung. Sú var ein, er[2] Ólafr konungr átti systur Sveins konungs, ok hafði fengit hennar at úleyfi hans; önnur sök var sú, at Ólafr konungr hafði sezk í skattland[3] hans Noregs ríki, er Haraldr konungr faðir hans hafði undir sik lagt. Sigvaldi jarl var þar ok með Danakonungi, fyrir því[4] at hann var Danakonungs jarl. Í þessum samflota[5] var mikill höfðingi Ólafr svænski[6], Svíakonungr, er hefna þóttisk eiga [Ólafi konungi miklar svívirðingar[7]: hann hafði slitit festarmálum við ok lostit með glófa sínum móður Ólafs konungs[8] ok dóttur Sköglartosta; þá sömu Sigríði átti þá Sveinn Danakonungr, ok var hon mjök áeggjandi[9], at Sveinn konungr gerði Ólafi mein eða svívirðing. En í þessu liði var Eiríkr jarl Hákonarsunr, er mestar sakir þóttisk eiga við Ólaf konung ok hans menn, þá er nær höfðu verit drápi Hákonar jarls ok flæmt[10] or landi alla sunu hans, [en Ólafr sezk[11] í ríkit eptir. 74.

Ástríðr hafði fengit Ólafi konungi ellifu skip, ok skyldi þat[12] lið fylgja hánum alt til þess, er hann kœmi um Danmörk. En þat [mest var til, at þau Burizleifr ok Ástríð tóku svá vel við Ólafi konungi, at Geila hafði verit[13] dóttir Burizleifs konungs ok systir Ástríðar, sú er Ólafr konungr hafði átt, þá er hann var í Vindlandi. Ólafr konungr hafði alls eitt skip ok 70, sem segir Halldórr úkristni[14]: 75.

-Óna- fór ok einu
-unnviggs- konungr sunnan
-sverð rauð mætr at morði
meiðr- sjau tugum[15] skeiða,
þá er hún lagar -hánum-
hafði jarl um krafðan
-sætt gékk seggja ættar
sundr- Skánunga fundar.

[1]) en þau er smærri váru [2]) at [3]) skattlönd [4]) þá sök [5]) flota [6]) *saal. B;* sværki *A* [7]) á Ólafi konungi mikillar svívirðingar [8]) *saal. B;* sværka *A* [9]) fýsandi [10]) flæmta [11]) ok sezk [12]) þetta [13]) *saal. B;* var umfram alt hversu Burizleifr ok Ástríð tóku vel við Ólafi konungi, fyrir því at Geila var *A* [14]) ókristinn [15]) tigum

76. þessir höfðingjar höfðu úvígan her ok lágu í höfn einni innan at hólmanum, en skip Ólafs konungs sigldu hit ytra fyrir, en höfðingjarnir váru uppi á hólmanum ok sá til, er flotinn sigldi austan. þeir sá at smáskipin sigldu fyrir. [Nú sjá[1] þeir eitt mikit skip ok glæsiligt[2]; þá mælti Sveinn konungr: „Förum til skipa sem skjótast[3], þar siglir Ormr langi austan.“ þá svaraði Eiríkr jarl: „Bíðum enn, herra! fleiri hafa þeir stórskip en Orminn langa einn.“ [Ok svá var[4]. þetta skip átti Styrkárr af Gimsum. Nú sá þeir annat skip enn mikit ok vel búit, höfðaskip. þá mælti Sveinn konungr: „Nú man hér fara Ormr langi, ok [gætum at vér verðim[5] eigi of seinir í móti þeim.“ þá svaraði Eiríkr jarl: „Eigi man þetta vera Ormr langi, fá hafa enn farit stórskip þeirra, en mörg munu til vera.“ Svá var þetta sem jarlinn sagði. [Nú sigldi skip með segl stafat[6], þat var skeið ok miklu meira en önnur skip, þau er siglt höfðu. þá er Sveinn konungr sá, at þat skip hafði eigi[7] höfuð á sér, þá stóð hann[8] upp ok mælti ok hló við: „Hræddr er Ólafr Tryggvasunr nú, eigi þorir hann at sigla með höfðum dreka sins; förum nú ok leggjum [til hans[9].“ þá svaraði Eiríkr: „Eigi er þetta Ólafr Tryggvasunr, ek kenni skip, fyrir því at opt hefi ek þat sét: þat á Erlingr Skjálgssunr, ok er betr at vér leggim um[10] skut hánum til þessar orrostu; þeir drengir eru þar innanborðs, er[11] vér megum víst vita, ef[12] vér hittum Ólaf Tryggvasun, [en opt er betra skarð[13] í flota konungs, en þessi skip[14] svá búin.“ þá mælti Ólafr Svíakonungr til jarlsins: „Eigi skyldum vér æðrask[15] at leggja til bardaga við Ólaf, þó at hann hafi skip mikit, ok er þat skömm mikil ok neisa, [er menn spyrja á önnur lönd[16], ef vér liggjum með her úvígan, en hann siglir þjóðleið hit ytra.“ þá svaraði Eiríkr jarl: „Herra! lát sigla [þessa skeið ef hon vill, ek man segja yðr góð tíðendi, at[17] eigi man Ólafr Tryggvasunr um oss hafa siglt, ok þenna dag munu þér[18] eiga kost at berjask við hann; nú eru hér margir höfðingjar, ok væntir mik þeirrar hríðar, at allir skulum hafa [yfrit at vinna[19].“ þá mæltu þeir enn, er fram kom [skeið ok mikit skip[20]: „þetta man vera Ormr langi, [ok eigi vill Eiríkr jarl,“ sögðu Danir, „berjask ok hefna föður síns, ef hann vill eigi nú[21].“ Jarlinn

1) *saal. B*; þá sá *A* 2) glasiligt 3) tíðast 4) *saal. B;* fyrir því at svá var ok *A* 5) verðum 6) Nökkur skip fóru þá um áðr en skip sigldi með stöfuðu segli 7) engi 8) *saal. B;* Sveinn konungr *A* 9) at sem harðast 10) á 11) at 12) at 13) betra er oss skarð 14) skeið 15) æðra 16) ok man þat spyrjask á öll lönd 17) þetta skip, ek man segja þér satt 18) vér 19) œrit at vinna fyrr en vér skiljumk 20) eitt mikit skip 21) *saal. B;* en vill Eiríkr jarl eigi berjask um ok hefna föður síns *A*

svaraði reiðr mjök ok sagði[1], at Dönum mundi eigi úleiðara verða at berjask en hánum ok hans mönnum. Þá var eigi langt at bíða til þess þrjú skip allstór sigldu, ok eitt miklu mest, ok hafði drekahöfuð gylt. Þá mæltu allir, at jarlinn hefði[2] satt sagt, ok þar fari[3] nú Ormr langi. Eiríkr jarl svaraði: „Eigi er þetta Ormr langi.“ Ok bað þá þó til leggja, ef þeir vildi. Ok þegar tók Sigvaldi skeið sína ok réri út til skipanna, lét skjóta upp skildi hvítum, en þeir [hlóðu seglum sínum ok biðuðu[4]; en þat it mikla skip er Tranan, ok stýrði Þorkell dyrðill[5], konungs frændi. Þeir spyrja Sigvalda, hver tíðendi hann segði þeim. Hann læzk kunna at segja þeim tíðendi af Sveini Danakonungi, þau er Ólafi Tryggvasyni er skylt[6] at vita, [lætr vera sett fyrir hann vélræði, ef eigi varaðisk hann[7]. Þá [létu þeir Þorkell fljóta skipin[8] ok biðu konungsins. Þá sá Sveinn konungr fjögur skip allstór sigla ok eitt miklu mest, ok á drekahöfuð þau er gull eitt var[9] á at sjá. Þá mæltu allir senn: „Furðu mikit skip ok frítt er Ormrinn langi, ekki langskip man jafnfrítt í veröldu vera, ok mikil rausn[10] er at láta gera þvílíkan grip.“ Þá mælti Sveinn Danakonungr: „Hátt[11] man Ormrinn langi bera mik, hánum skal ek stýra í kveld áðr[12] en sól setisk.“ Ok hét á lið sitt, at búask skyldi. Þá mælti Eiríkr jarl, svá at fáir menn heyrðu: „Þóat ekki skip hefði Ólafr Tryggvasunr meira, en þat er nú má sjá, þá [stýrir aldri Danakonungr því, ef þeir skulu tveir með sínu liði við skiptask[13].“ Sigvaldi er hann sá hvar skipin sigldu[14], [þá bað hann Þorkel dyrðil draga skipin undir hólmann, en Þorkell lét þeim betr standa veðrit at sigla á hafit, heldr en halda undir landit með skip stór ok byr lítinn; en þeir heimtusk þó með skipin undir hólmann þessi fjögur, fyrir því at þeir sá sum sín skip undir hólmann róa, ok grunaði þá[15], at vera mundi nökkur ný[16] tíðendi, [ok beittu sem næst[17] hólmanum ok hlóðu seglum sínum, ok tóku til ára sinna; þetta it mikla skip er kallat Ormr skammi. Nú sá höfðingjarnir þrjú skip sigla allstór ok hit fjórða síðast. Þá mælti Eiríkr jarl við Svein konung ok við Ólaf Svíakonung: „Standið nú upp ok til skipa, nú [má engi[18] þrætta at Ormr langi sigli[19], ok þar megu þér nú hitta Ólaf Tryggvasun.“ Þá [sló á þögn á höfðingjana, ok mælti engi, ok var á

[1]) ok lét eigi vera minni ván [2]) hafði [3]) ferr [4]) hlaða seglum ok bíða [5]) nefja [6]) *saal. B;* skylduligt *A* [7]) ok þarf hann þess, at hann varisk [8]) *saal. B*; skutu þeir í flota skipunum *A* [9]) váru [10]) hreysti [11]) *saal. B; mgl. i A* [12]) fyrr [13]) man Sveinn konungr við Danaher einn aldrigi þessu skipi stýra [14]) stýrðu [15]) bað þá Þorkel nefju draga Orminn undir hólmann, lét veðrit þeim betr standa at sigla á hafit ok at fara landhalt við stórskip ok lítinn byr. Þeir gerðu svá, heimtu undir hólmann, grunuðu at [16]) *mgl. i B* [17]) beita á veðr þeim nær [18]) man ek eigi [19]) siglir

liðinu mikill ótti[1], ok hræddisk þar margr við sinn bana. Ólafr Tryggvasunr sá hvar hans menn höfðu lagt undir hólmann, [ok þóttisk vita, at þeir myndu hafa spurt nökkur tíðendi, vendir ok þessum skipum inn at hólmanum[2], ok hlóðu seglunum. Sigvaldi jarl stýrði skeið sinni inn með hólmanum á mót liði konunganna, er innan [fór or höfninni[3], fyrir því[4] kvað Stefnir svá um Sigvalda:

Manka[5] ek nefna,
nær man ek stefna;
niðrbjúgt er nef
á níðingi þeim[6],
er Svein konung
sveik or landi,
en Tryggva sun
á tálar dró.

77. Sveinn Danakonungr ok Ólafr Svíakonungr ok Eiríkr jarl höfðu gert þat ráð á milli sín, ef þeir feldi Ólaf konung Tryggvasun, at sá þeirra er þessu var[7] næstr, skyldi eignask skip hans ok alt hlutskipti, þat er féngisk í orrostu; en veldi Noregs konungs skyldi hafa hverr við annan at þriðjungi. Þá sá Ólafr Tryggvasunr ok allir menn hans, at þeir váru sviknir, fyrir því at sær[8] allr var þakir með herskipum í nánd þeim, en Ólafr konungr hafði lítit lið, svá sem segir Hallfröðr af því er lið hans hafði siglt frá hánum:

Hygg[9] ek víst til mjök mistu
(mörg kom drótt á flótta)
gram þann er gunni framdi
gengis þrœnzkra drengja.
Nœfr vá einn við jöfra
allvaldr tvá snjalla
(frægt[10] er til slíks at segja
siðar) ok jarl enn þriðja.

78. Nú lagði í sinn stað hverr þeirra þriggja höfðingja: Sveinn Danakonungr með sitt lið, Ólafr Svíakonungr með sinn her, í þriðja stað bjó Eiríkr jarl sitt lið. Þá mælti við Ólaf konung vitr maðr einn, Þorkell dyðrill[11]: „Hér er mikit ofrefli liðs við at berjask, drögum[12] segl vár ok siglum eptir liði[13] út á haf, fyrir því þat er engum manni bleyði, at hann ætli hóf fyrir sér.“ Þá svaraði Ólafr konungr með háreysti: „leggið [skipunum saman í tengsl[14], ok herklæðisk menn

[1]) þögnuðu þeir allir, ok varð at ótti mikill [2]) *Fra* [ *tilf. B; mgl. i A* [3]) fóru [4]) þessa sök [5]) mankat [6]) *rettet;* þann *A og B* [7]) væri [8]) sjór [9]) þar hygg [10]) frægð [11]) dyrðill [12]) upp *tilf.* [13]) váru *tilf.* [14]) saman skipin ok tengið

ok bregði sverðum sínum; ekki skulu mínir menn á flótta hyggja!“ þetta orð váttaði Hallfröðr á þá lund:

Geta skal máls þess er mæla
menn at vápna sennu
dólgafangs við drengi
dáðöflgan bur kváðu.
[baðat hertrygðar[1] hyggja
hnekkir sína rekka
(þess lifa þjóðar sessa
þróttar orð) á flótta.

þá spurði Ólafr Tryggvasunr sína menn: „Hverr er höfðingi yfir[2] þessu liði, er hér liggr næst oss?“ þeir svöruðu: „þat hyggjum vér at Sveinn Danakonungr sé.“ þá mælti Ólafr konungr: „Ekki skulum vér óttask þat lið, aldri báru Danir sigr í orrostu, þá er þeir börðusk á skipum við Norðmenn.“ Ok enn spurði Ólafr konungr: „Hverir liggja þar út ífrá ok hafa mörg skip?“ Hánum var sagt, at þat var Ólafr Eiríkssunr Svíakonungr. þá svaraði Ólafr konungr: „Ekki þurfum vér at óttask Svía hrossætur[3], fyrir því at þeim man tíðara[4] at sleikja innan blótbolla sína heldr en ganga upp á Orminn langa undir vápn vár[5].“ Enn spurði Ólafr konungr Tryggvasunr: „Hverir eigu þau skip en stóru, er þar liggja út ífrá [þeim öðrum[6] flotanum?“ Hánum var sagt, at þat var Eiríkr jarl Hákonarsunr með Járnbarðann, er allra skipa var mest. þá mælti Ólafr konungr: „Mjök hafa þeir tignum mönnum í þenna her skipat í mót oss, ok at[7] þessu liði er oss ván harðrar orrostu: þeir eru Norðmenn sem vér, ok hafa oft sét blóðug sverð ok mart vápnaskipti, ok munu við oss þykkjask eiga skapligan fund, ok svá er ok.“ þessir höfðingjar fjórir, tveir konungar ok tveir jarlar, leggja til bardaga við Ólaf Tryggvasun, ok er Sigvalda lítt við orrostuna getit, [en þó segir Skúli þorsteinssunr í sínum flokki, at Sigvaldi var þar[8]: 79.

Fylgða ek Frísa dólgi,
(fékk ek ungr þar er spjör sungu,
nú finnr öld at eldumk,
aldrbót) ok Sigvalda,
þá er til móts við mœti
málmþings í dyn hjálma
suðr fyr Svoldrar myði[9]
sárlauk roðinn bárum.

Nú er þessi orrosta harðla snörp ok mannskœð, ok féllu Danir mest, 80.
því at þeir váru næstir Norðmönnum. Nú haldask þeir eigi við, ok

[1]) *saal. B;* bað hertryggvir *A* [2]) fyrir [3]) hrossæturnar [4]) blíðara [4]) *mgl.* [5]) yður [6]) *mgl.* [7]) af [8]) *tilf. B; mgl. i A* [9]) munni

leggja þeir or skotmáli, ok fór þessi herr, svá sem Ólafr konungr hafði sagt, með alls engan orðstír; en eigi at síðr[1] var hőrð orrosta ok löng, féll af hvárumtveggja mikit lið ok mest af Svíum, ok þar kom at Ólafr Svænski sá þat at bezta ráði fyrir sér ok sínu liði, at vera sem first, ok lét síga á hömlur aptr undan, en Eiríkr jarl lá við síbyrt. Ólafr konungr Tryggvasunr hafði lagt Orminn langa millum Orms skamma ok Trönunnar, en hin smæstu skipin yzt. En Eiríkr jarl lét fráhöggva hvert sem hroðit var, en lagði at þeim, er eptir váru. Nú er smærri skip Ólafs konungs ruddusk, stukku menninir undan ok géngu upp á hin stœrri skipin; varð í því mikit mannspjall í hvárntveggja flokkinn; en svá sem liðit féll af skipum Eiríks jarls, þá kom annat ekki minna í staðinn af Svíum ok Dönum, en eigi kom í staðinn þess liðs, er féll af Ólafi konungi. Ruddusk þá skip hans öll nema Ormrinn langi eigi, fyrir því at hann var borði hæstr ok bezt skipaðr. En meðan liðit var til, þá hafði þingat á gengit, ok hafði hann haldit sinni fullri skipan at manntali, þó at sumir létusk fyrir hánum. En þá er hroðinn var Ormr skammi ok Tranan, þá lét Eiríkr jarl þau ífrá höggva, en síðan lagðisk Járnbarðinn síbyrðr við Orminn langa, sem segir Halldórr úkristni:

Fjörð kom heldr í harðan[2]
(hnitu reyr saman dreyra,
tungl skárusk þá tingla
tangar) Ormrinn langi,
þá er borðmikinn barða[3]
brynflagðs reginn lagði
(jarl vann hjálms und hólmi
hríð) við Fafnis síðu.

Gerðisk snarpra sverða
(slitu drengir frið lengi)
þá er gollin spjör gullu
gangr um Orminn langa;
dólgs kváðu fram fylgja
fráns leggbita hánum
svænska menn at sennu
sunnr ok danska runna[4].

Hykkat ek vægð at vígi,
vann -drótt- jöfur sóttan
(fjarð- kom jarl at -jörðu)
ógnharðan -sik sparðit-[5];

[1]) *her begynder anden Lacune i B.* [2]) *rettet for* harða [3]) *rettet for* borð mikill barði [4]) *rettet for* í danska ranna [5]) *rettet for* sporðu

þá er fjarðmývils[1] fœrðuð,
fólkharðr! á tröð Barða,
lítt var Sifjar sóti
svangr, við Orminn langa.

þessi orrosta var[ð nú svá hörð at furða var at[2], fyrst af sókn drengiligri, ok þó mest af vörninni, er alla vega lögðu skip at orminum, en þeir er vörðusk géngu svá í mót, at þeir stigu niðr af borðunum ok í sjóinn, ok sukku niðr með vápnum sínum, ok gættu eigi annars en þeir berðisk á landi ok vildu æ fram. Svá kvað Hallfröðr:

-Sukku niðr af naðri-
naddfárs í böð -sárir-
baugs gerðut við vægjask
verkendr Heðins serkjar.
Vanr man Ormr, þó at Ormi
alldýrr konungr stýri,
þar er hann skríðr með lið lýða,
lengi slíkra drengja.

þar féllu menninir fyrst um mitt skipit, þar sem borðin váru lægst, en fram um stafninn ok aptr í fyrirrúminu héldusk menninir lengst við. þá er Eiríkr jarl sá at Ormrinn var auðr miðskipa, þá gékk hann upp með fimtán menn; ok er þat sá Úlfr enn rauði ok aðrir stafnbúar, þá géngu þeir or stafninum framan, ok svá hart at þar jarlinn var, at jarlinn varð undan at hrökkva ok aptr á skip sitt; ok þá er hann kom á Barðann, þá eggjaði jarlinn sína menn at sœkja at vel, ok géngu þá upp í annat sinn með miklu liði. Var þá Úlfr ok allir stafnbúar komnir at lyptingunni, en hroðit var alt skipit fram, sótti þá lið Eiríks jarls öllum megin at þeim Ólafi konungi. Svá sem Halldórr úkristni segir:

Hét á heiptar nýta
hugreifr (með Óleifi
aptr stökk þjóð um þóptur)
þengill sína drengi,
þá er hafvita höfðu
Hallands um gram snjallan
(varð um Vinda myrði
vápnreið) lokit skeiðum.

þá sótti Eiríkr jarl aptr at fyrirrúminu með sína menn, ok var þar hörð viðrtaka. Ólafr konungr hafði verit þann dag allan í lyptingunni á Orminum, hann hafði gyltan skjöld ok hjálm, þunga hringabrynju ok svá trausta, at ekki festi á henni, ok er þó svá sagt, at eigi skorti

[1]) *rettet;* fjarðmykils *A* [2]) *Lacune af nogle Ord i Texten, udfyldt efter* Odd Munks Saga Ólafs Tryggvasunar, *Cd. Arn. Magn. 310 4to.*

5

vápnaburðinn at lyptingunni, fyrir því at allir menn kendu konunginn, af því at vápn hans váru auðkend ok hann stóð hátt í lypting. En í hjá konunginum stóð Kolbjörn stallari með þvílíkan vápnabúnað sem konungr hafði. Nú fór þessi orrosta sem ván var, þar sem hvárirtveggja höfðu hraustir áhizk, at þeir létusk þó, er fámennari váru. Ok þá er alt var fallit lið Ólafs konungs, þá hljóp hann sjálfr fyrir borð ok brá skildinum yfir höfuð sér, ok svá Kolbjörn stallari, en hans skjöldr varð undir hánum á sjónum, ok kom hann sér eigi í kafit, ok þeir menn er váru á smáskipum tóku hann, ok hugðu at konungrinn væri sjálfr; hann fékk þó grið af jarlinum. En eptir þat þá hljópu allir fyrir borð, þeir er eptir lifðu, ok þó flestir sárir, ok þeir er griðin féngu váru af sundi teknir; þat var Þorkell nefja, Karlshöfuð, ok Þorsteinn, ok Einarr þambarskelfir.

81. En eptir þat er orrostunni var lokit, þá eignaðisk Eiríkr jarl Orminn langa ok önnur skip Ólafs konungs ok margs manns vápn, þeirra er drengiliga höfðu borit til dauðadags. Þat hefir Hallfröðr váttat, at Þorkell nefja flýði svá, at öll skip Ólafs konungs váru hroðin:

Ógrœðir sá auða
armgrjóts Trönu fljóta
(hann rauð geir at gunni
glaðr) ok báða naðra,
áðr en hjaldrþorinn héldi
hugframr or böð ramri
snotr á snœris vitni
sunds Þorketill undan.

Þessi orrosta hefir frægust verit á Norðrlöndum, af því at sagt er um vörn drengiliga, þar næst af atsókn ok sigrinum, er þat skip varð unnit á djúpum sæ, er engi maðr ætlaði vápnum sótt verða, en þó mest fyrir sakar þess er þvílíkr höfðingi féll, er þá var frægastr á danska tungu. Svá mikit gerðu menn sér um at vingask í allri umrœðu við Ólaf konung, at mestr hluti manna vildi eigi heyra, at hann mundi fallit hafa, nema létu at hann var í Vindlandi eða í Suðrríki, ok eru margar frásögur um þat görvar, en hans ástvinir hræddusk at þat mundi logit vera, ok lýsti Hallfröðr því vandræðaskáld, sá maðr er svá mikit hafði unt konunginum, at menn segja at eptir fall konungs fékk hann vanheilsu af harmi, þá er hánum vannsk til dauðadags. Þetta vitni bar Hallfröðr:

Veit ek eigi hitt hvárt heita[1]
hungrdeyfi skal ek leyfa

[1]) *rettet for* hvar hætta

dynsæðinga dauðan
dýrbliks eða þó kvikvan:
alls sannliga segja
(sárr man gramr at hváru,
hætt er til hans at frétta)
hvártveggja mér seggir.

Samr var árr um æfi
oddflagðs, hinn er þat sagði
at lofða gramr lifði,
læstyggs burar Tryggva.
Vera kveðr öld or eli
Ólaf kominn stála,
menn geta máli sönnu
(mjök er verr en svá) ferri.

Ok enn kvað hann þetta:

Mundut þess, er þegnar
þrótthardan gram sóttu
(frá[1] ek) með lýða liði[2],
landher ðar sköp verða,
at mundjökuls myndi
margdýrr koma stýrir
(geta þykkjat mér gotnar
glíkligs) or her slíkum.

Ok enn kvað hann:

Enn segir auðar kenni
austr or málma gnaustan
seggr frá sárum tiggja
sumr eða brott um komnum.
Nú er sannfregit sunnan
siklings or styr miklum
-kann ek ei mart við[3] manna-
morð -veifunarorði-.

Ok enn sagði hann:

Norðmanna hygg ek nenninn
(nú er þengill framgenginn,
dýrr hné dróttar stjóri)
dróttin und lok sóttan.
Grams dauði brá geði
góðs úfárar þjóðar,
allr glepsk friðr af falli
flugstyggs sunar Tryggva.

[1]) *rettet for* fær [2]) *rettet for* lífi [3]) *rettet for* at

82. Eptir orrostu áðr en[1] höfðingjar skildusk[2] jafna þeir með sér Noregs ríki: hafði Eiríkr jarl úskerðan þann þriðjung lands, er hánum [hafði til handa borizk[3], ok Sveinn konungr veitti Eiríki nökkurn hlut [af sínum hluta í Noregi[4], ok hafði þó Sveinn konungr Víkina alla austr til Líðandisness. Svá sagði Þórðr Kolbeinssunr:

En eptir víg frá Veigu
(vel ek[5] orð) und[6] gram norðan
land eða lengra stundu
lagðisk suðr til Agða.
En Sveinn konungr sunnan
sagðr er dauðr, en auðir[7]
(fátt bilar flestra ýta
fár) hans bœir váru.

Ólafr konungr svænski hlaut mikit riki í þessu hlutskipti um Upplönd öll ok nökkut norðr í[8] Þrándheimi, ok setti hann þar til landgæzlu yfir sinn hlut Svein jarl Hákonarsun, ok skyldi hann gjalda af skatta Ólafi konungi[9]. Eiríkr jarl ok Sveinn [bróðir hans[10] fóru þá til Noregs, ok hafði Eiríkr jarl Orminn langa, svá sem segir Halldórr úkristni:

Hjálmfaldinn bar hilmi
hrings at miklu þingi
(skeið glæstu þá þjóðir)
þangat ormrinn langi[11].
En suðr at gný gunnar
glaðr tók jarl við naðri;
áðr varð egg at rjóða
ættgóðr Hemings bróðir.

83. Eiríkr jarl lagði undir sik Noreg [sem áðr var sagt, ok þeir brœðr váru tveir ok var Eiríkr ríkari[12], hann átti Gyðu dóttur Sveins Danakonungs, þeirra sunr var Hákon. Eiríkr var hermaðr mikill alla ævi ok allra manna sigrsælastr: hann gerði þat hit fyrsta frægðarverk, at hann drap Tíðendaskopta [er fyrr var ritat, ok[13] annat sinn barðisk hann austr á Gautlandi, ok herjaði þar víða ok drap mikit fólk, ok sumt [handtók hann ok leiddi[14] til skipa, ok var þat leyst út með miklu fé; en hit þriðja sinn barðisk hann við Jómsvíkinga; hit fjórða sinn barðisk hann í Eyrarsundi, hrauð þar fjórar skeiðir[15] af Dönum; en hina fimtu orrostu átti hann á Stauri suðr við víkinga, ok drap

[1]) *her begynder B atter* [2]) skildisk [3]) bar til handa [4]) Noregs veldis þess er hann átti [5]) vel ek *rettet for* vant er [6]) *rettet for* um [7]) *rettet;* hin er auði *A*; hinn auðgi *B* [8]) af [9]) hinum svænska *tilf.* [10]) brœðr [11]) *rettet;* orminn langa *A og B* [12]) svá sem áðr var sagt, ok þeir tveir brœðr váru jarlar ok var Eiríkr ríkari [13]) *saal. B;* ok fyrr er sagt í riti at *A* [14]) tók hann höndum ok lét leiða [15]) skeiðar

marga, en suma rak hann á kaf. þar næst fór hann austr í Garðaríki á hendr[1] Valdimari gamla, herjaði víða um hans ríki, hann braut Aldeigjuborg[2] ok tók mikit fé, ok enn lengra fór[3] hann austr í Garðaríki, ok [herjaði alt sem hann fór[4], brendi borg[5] ok kastala, en bœndr runnu á markir með byrðar[6]. Enn tók hann í Eystrasalti [um haustit eptir þrjár skeiðir[7] víkinga, drap alt liðit ok tók [skip þeirra ok hvert fat er á var[8]; þar næst [fór hann austr á Gautland[9] ok brendi þar mörg þorp, fór ofan með herfangi miklu; þaðan fór hann herskildi [allar Aðalsýslur[10]; þar næst átti hann orrostu við Ólaf konung Tryggvasun [við Svoldr[11]. Eiríkr veitti uppgöngu á Skáni, tók þar mikit fé ok menn, ok áðr en hann kœmi til skipa, átti hann mikla orrostu við landsmenn ok hafði sigr, þar næst tók hann knörru fjóra fyrir Yggjustöðum[12] af kaupmönnum, hljópu sumir fyrir borð, en sumir váru herteknir ok bundnir, sátu svá ámeðan jarlinn ok hans menn skiptu fötum[13] þeirra. þessar orrostur allar taldi Eilífr[14] daðaskáld, þá er hann orti um Eirík kvæði, þat er kallat var Bandadrápa. Í þann tíma herjaði Eiríkr mest um Garðaríki ok veldi Valdimars konungs, en Ólafr konungr Tryggvasunr var þá í Noregi, ok gerði Eiríkr jarl þat til fjándskapar ok til úþokka [við Ólaf konung[15] eptir fall Hákonar jarls föður síns. þessir jarlar höfðu látit skírask ok héldu þeir kristni, en engum 84.
manni þröngðu þeir til kristni, létu gera hvern sem vildi, ok um þeirra daga spiltisk mjök kristnin, svá at náliga var alt alheiðit um Upplönd ok um þrándheim, en hélzk kristnin alt með sjónum. Ekki lét Eiríkr jarl halda upp kaupstaðinum í Niðarósi, en halda upp bœnum [á Hlöðum[16] eptir þvílíkum hætti sem Hákon jarl, ok sat þar optast, þá er hann var í þrándheimi, ok lét þangat flytja skatta ok skuldir, þær er hann tók í þrándheimi. Hann lét ok hefja kaupstað at Steinkerum. Friðr var góðr ok ár mikit; vel héldu jarlar lög, ok váru refsingarmenn miklir. þeir giptu Bergljótu systur sína Einari þambaskelfi, ok var hann þeim af því fulltrúi. Allir lendir menn váru vinir Eiríks jarls nema Erlingr Skjálgssunr. Svá sagði þórðr Kolbeinssunr:

Veit ek fyr Erling utan
ár at hersar váru
(lofa fasta Tý flestir
farlands) vinir jarla[17].

1) *saal. B;* hönd *A* 2) Eldinguborg 3) sótti 4) fór alt með hernaði 5) borgir 6) á baki *tilf.* 7) í hans ríki þrjár skeiðar 8) skipin ok alt fé þeirra 9) gékk hann upp á Eystra Gautland 10) um allar syslor 11) *mgl. i B* 12) *saal. B;* Hjástöðum *A* 13) klæðum 14) Eyjúlfr 15) *tilf. B; mgl. i A* 16) *tilf. B; mgl. i A* 17) jarli

85. Þá er Eiríkr jarl réð Noregi, fékk Sveinn Danakonungr sótt vestr á Englandi, ok hafði mikit unnit undir sik [í Englandi í[1] ríki Aðalráðs konungs, er þann tíma réð fyrir Englandi. [Danmörk tók þá til forráða ungr konungr[2], sunr Sveins er Knútr hét; hánum [bjó mikit í hug[3], ok fám vetrum eptir andlát föður síns bjó hann her mikinn af Danmörku vestr til Englands. Hann sendi orð Eiríki jarli mági sínum at [veita sér fylgi til Englands ok traust[4], fyrir þá sök at Knútr var ungr, hann var eigi eldri en þrettán vetra. Eiríkr jarl var orrostumaðr mikill, reyndr at viti ok hamingju. Eiríkr gerði ferð sína vestr til Englands á fund mágs síns, en til landsgæzlu í Noregi setti hann Hákon sun sinn tólf vetra gamlan, ok skipti í helminga ríkinu með þeim Sveini. En hann fór á fund Knúts konungs. Þeir fóru [ok herjuðu báðir saman[5] víða um England, áttu margar orrostur, svá sem Þórðr Kolbeinssunr telr[6] í því kvæði, er hann orti um Eirík jarl, ok kemr samt með þeim Óttari svarta, þar er hann telr í Knútsdrápu, hversu marga bardaga þeir áttu áðr en England yrði unnit. Eiríkr jarl fékk bana á Englandi, þá er hann var kominn frá Rúmi, ok andaðisk af blóðrás, er hánum hafði verit skorinn úfr. Í þenna tíma ráða[7] Noregi Sveinn ok Hákon jarlar báðir, ok stóð ríkit eptir[8] sama hætti alt sem fyrr.

*Hér hefr um Ólaf konung hinn helga ok um hans ævi meðan hann lifði.*

86. Sunr Haralds hárfagra var Björn faðir Guðröðar, en Guðröðr faðir Haralds grenska, þess er átti Ástu dóttur Guðbrands kúlu, þeirra sunr var Ólafr digri, sá er fór or landi á æsku aldri, ok með hánum Hrani féstrfaðir hans. Ólafr barðisk hit fyrsta sinn austr við Sótasker, þaðan fór hann í Eystrasalt, ok barðisk næst austr við Eysýslu ok hafði [þá betr[9], þriðja sinn barðisk hann austr á Finnlandi[10] ok hafði sigr; fjórða sinn barðisk hann í Suðrvík í Danmörku ok hafði gagn, fimta sinn barðisk hann á[11] Kinnlimafirði við riddaraher, ok hafði Ólafr konungr sigr. Þaðan fór hann vestr til Englands ok barðisk fyrstu orrostu við Lundúna bryggju[12] við Dani, er þá herjuðu ok gerðusk víkingar. Svá segir Sighvatr skáld:

Rétt er at sókn en setta[13],
snarr þengill bauð Englum

[1]) af Englandi [2]) í Danmörk tók þá til ríkis ungr höfðingi [3]) var þat í hug er faðir hans hafði at hafzk [4]) fara með sér ok þóttisk þar eiga mikit traust [5]) báðir saman herskildi [6]) segir [7]) réðu [8]) með [9]) þar gagn [10]) *saal. B;* Vindlandi *A* [11]) í [12]) bryggjur [13]) *saal. B;* ena settu *A*

at, þar er Ólafr sótti,
Yggs, Lundúna bryggju[1].
Sverð bitu völsk, en vörðu
víkingar þá díki,
átti sumt í sléttu
Suðrvirki lið búðir.

þá vörðu Danir borgina[2], en Ólafr sótti at ok veitti Aðalráði konungi[3]. Svá segir Óttarr svarti:

Komtu í land ok lendir
láðvörðr! Aðalráði,
þíns naut rekka rúni
ríkis framr at slíku.
Harðr var fundr, þar er fœrðuð
friðlands á vit niðja
-réð ættstuðill áðan-
Játmundar -þar grundu.

Sjaundu orrostu átti Ólafr konungr á Hringmaraheiði, áttandu orrostu þá er hann vann Kantaraborg. En við Dani barðisk hann ok Vindr, þvíat þeir váru ok Danakonungs menn. Svá segir Sighvatr skáld:

Veit ek at víga mœtir
Vindum hátt inn átta
(styrkr hélt vörðr at virki
verðungar) styr gerði.

Níundu orrostu átti hann við Nýjumóðu[4]. Enn segir Sighvatr skáld, at hann barðisk við Dani:

Nú hefik orrostur austan
ógnvaldr! níu taldar,
herr féll danskr, þar er dörrum
dreif mest at Óleifi.

Hina tíundu orrostu átti hann við víkinga á Hæli, ok braut kastala nökkurn; þar váru Danir fyrir. Elliftu orrostu átti hann í Grislupollum[5]. þaðan fór hann vestr í Fetlafjörð ok átti tólftu orrostu. þá fór hann suðr ok átti þrettándu orrostu í Seljupolli, ok þar gékk hann upp í Gunnvaldsborg[6] ok tók þar höndum Geirfinn jarl. þaðan fór hann suðr í Karlsár[7] ok herjaði þar tveim megin árinnar. þaðan vildi hann fara út til Njörvasunda, ok lá til lengi, ok gaf eigi byrina[8], fékk þar vitran[9], at guð vildi at hann kvæmi eigi sunnar, fœri heldr norðr til Noregs, ættlanda sinna, ok sagði at hann skyldi þar vera konungr at eilífu. [Nú vendir Ólafr konungr[10] aptr liðinu ok kom til Peitu ok 87.

[1]) bryggjur [2]) *saal. B;* bryggjuna *A* [3]) lið *tilf.* [4]) Nýjamóðu [5]) Grislupolli [6]) *saal. B;* Ginvaldsborg *A* [7]) Karlsárós [8]) byrinn [9]) vitrun [10]) Hann gerði svá, vendi þá

gékk upp með Leiru ok barðisk þar, kauptún þat er Varrandi heitir brendi hann. Þann vetr eptir sat Ólafr konungr í Signu, ok sendi fyrir sér Hrana fóstrföður sinn til Englands at efla sik með fégjöfum ok vinmælum[1]. Svá gerði hann, fór víða um England, ok kom alt til Lundúna[2]. At vári sigldi Ólafr konungr vestan skipum til Englands, ok átti hina sextándu orrostu við Jungafurðu ok hafði sigr. Sjautándu orrostu átti hann[3] fyrir Valdi, ok hafði jafnan sigr.

88. Í þann tíma er Ólafr konungr var vestr í Peitulandi andaðisk Eiríkr jarl Hákonarsunr vestr í[4] Englandi, áðr en Ólafr kœmi hit síðara sinni til Englands. Á því ári váru liðnir þrettán[5] vetr frá falli Ólafs konungs Tryggvasunar. Tveim vetrum áðr hafði Eiríkr jarl farit or Noregi[6].

### *Hér kom Ólafr hinn helgi konungr í Noreg.*

89. [Nú býr Ólafr konungr ferð sína af Englandi með knörrum tveim[7], ok hafði 20 menn ok hundrað albrynjaða[8], ok féngu veðr ilt í hafi ok [sjó stóran, svá at[9] gékk við bana, ok fyrir sakar liðs[10], er var innan borðs, ok hamingju konungs, [er svá mikill vin guðs var, þá kómu þeir af hafi at Staði, ok þar á land upp sem ey heitir Sæla[11]. Þá mælti konungrinn, [at þeir mundi[12] tímadag hafa land tekit, ok [sagði at þat mundi mikit mark á vera, er þeir váru at komnir[13] í Sælu. [Nú er þeir géngu á land upp, þá steig konungr svá í leiru nökkura, at hann studdi viðr knénu[14]. Þá mælti konungr: „Féll ek nú!" Þá svaraði Hrani: „Eigi félt þú, Herra! nú festir þú fót í Noregi." Konungr hló at ok sagði, [vera mætti svá, ef guð vildi at svá bærisk at[15]. Géngu ofan til skipa ok sigldu suðr með landi fyrir Fjörðu, ok lögðusk inn af leið þar sem heitir Sauðangasund[16], ok [lá sínum megin sundsins hváru skipinu[17], ok höfðu millum sín kaðal einn digran. Á þeirri sömu stundu réri at sundinu Hákon jarl Eiríkssunr með skeið sinni skipaðri, ok hugði [at vera mundi í sundinu kaupmenn[18]. Nú réri jarlinn fram millum skipanna, [ok þegar lét Ólafr

1) vinmálum 2) ok friðaði fyrir hánum *tilf.* 3) vestr *tilf.* 4) á 5) fjórtán 6) til Englands *tilf.* 7) þessu næst bjósk Ólafr sunr Haralds grenska með 2 knörrum vestan af Englandi 8) alla brynjaða 9) svá stóran sjó, at næsta 10) liðskostar 11) þá hlýddi; þeir kómu af hafi utan at Staði, ok þar á land sem ey ein lítil er, ok heitir Sæla 12) ok lét þá 13) taldi þat gott mark, at þeir váru komnir 14) þeir géngu upp í eyna, ok steig konungrinn öðrum fœti þar sem leir var, studdi niðr knénu 15) „vera má þat, ef guð vill at svá sé." 16) Sauðungssund 17) lagði sínum megin sundsins hvárt skip 18) kaupmenn vera í sundinu

konungr hlaupa til ok vinda upp kaðalinn ok[1] undir miðjan kjöl skeiðarinnar, fyrir því at þeir höfðu til gört vindása; ok þegar er nökkut festi skeiðina, þá gékk upp skipit aptr, en fram steyptisk, svá at særinn[2] féll inn um söxin, fyldi skipit ok því næst hvelfdi. Ólafr konungr tók þar Hákon jarl af sundi ok alla þá menn, er þeir náðu, en sumir höfðu týnzk fyrir grjóti ok skotum, en sumir sukku. Nú var jarlinn leiddr upp á skip konungsins. Var Hákon þá 17[3] at aldri ok allra manna fríðastr, er menn höfðu sét: hann hafði hár mikit ok fagrt sem silki, bundit um höfuð sér gullhlaði, ok settisk hann niðr í fyrirrúmit. Þá mælti konungr: „Eigi er logit,“ sagði hann, „af yðr frændum, hversu fríðir menn þér eruð sjónum, en farnir eruð þér nú at hamingju.“ Þá svaraði jarlinn: „Engi[4] er þetta úhamingja, er oss hefir hent, þat hefir lengi verit, at ýmsir höfðingjar hafa sigrat aðra; en ek em lítt kominn af barns aldri, ok svá várum vér nú ekki vel viðbúnir [til verndar[5], ok eigi vissum vér ván úfriðar, ok kann [enn svá við berask, at oss takisk annat sinn betr en nú[6].“ Þá mælti Ólafr konungr: „Grunar þik eigi nú, jarl! at þér hafi svá at borizk, at þú munir aldri héðan ífrá [fá sigr eða framkvæmd[7]?“ Þá svaraði jarlinn: „Þér munuð nú ráða, herra, at sinni.“ Þá mælti Ólafr konungr: „Hvat [vilt þú nú vinna, ef ek læt[8] þik fara í brott, heilan ok úskaddan[9].“ [„Hvers beiðir þú[10]?“ „Eigi annars,“ sagði konungr, „en þér farið or landí, ok gefið svá upp ríki yðvart, ok sverið eiða, at þér berizk eigi í móti oss[11] héðan ífrá.“ Jarlinn lézk þat gera skulu[12]. Hann vann þá eiða konunginum, at hann skyldi aldri berjask í móti hánum eða verja Noreg fyrir [konungi Ólafi[13]. Nú gaf Ólafr grið Hákoni ok öllum hans mönnum, [rétti skeiðina upp[14], ok tók jarlinn við skipi sínu, ok réri síðan á braut. Ok um haustit sigldi Hákon jarl til Englands ok fór á fund Knúts konungs, móðurbróður síns, ok sagði hánum hversu [viðrskipti þeirra Ólafs digra hafði verit[15]. Knútr konungr tekr vel við jarlinum, frænda sínum, ok setti hann innan hirðar sér[16], ok gaf hánum mikit lén ok ríki, ok dvelsk hann þar langa hríð [í góðu yfirlæti Knúts konungs[17].

En nú byrjar Ólafr konungr ferð sína suðr með landi ok austr 90.
i Vík, setr upp skip sín ok ferr um haustit upp í[18] Hringaríki til Sig-

1) þá vundu þeir Ólafr upp strenginn 2) sjórinn 3) 14 vetra 4) Eigi 5) at verja oss 6) vera at oss takisk annat sinni betr til en nú tóksk 7) hvárki hafa sigr né ósigr 8) viltu til vinna, at ek láta 9) ósakaðan 10) Jarlinn spurði, hvers hann beiddisk 11) mér 12) myndu 13) Ólafi konungi 14) lét rétta upp snekkjuna 15) þeir Ólafr digri höfðu skilzk 16) *mgl.* 17) vel metinn 18) á

urðar stjúpföður sins, er þá átti Ástu, dóttur Guðbranðs kúlu ok móður Olafs konungs. Sigurðr konungr tók vel við mági sínum, ok var hann þar til jóla fram, ok veitti Sigurðr þeim með mikilli prýði, gaf þeim annan hvern dag [mjólk at drekka, en annan munngát[1].

91. Litlu fyrir jól fór Ólafr konungr norðr til þrándheims hit efra með liði sínu ok kom í[2] jólum inn til Steinkera, þar sem Sveinn jarl hafði þá jólaveizlu, ok vildi Ólafr konungr koma á þá úvara, ef hann féngi. þá er konungrinn kom í Orkadal með liði sínu, ok hann spurði at Sveinn jarl var inn at Steinkerum, þá fékk hann sér snekkjur þrjár, ok réru þeir inn með firðinum [mikinn andróðr[3]. [Ok þá er Einari þambaskelfi kómu orð[4] um ferð Ólafs konungs, þá sendi hann sína menn [með eina litla róðrarskútu[5] til Sveins jarls, ok kómu þeir at miðri nótt með njósnina. Stóð þá jarlinn upp með alla sína menn ok géngu á tvær skútur, er flutu fyrir bœnum tjaldaðar, ok réru um nóttina út til Skarnsunds, [ok í dagan mundu þeir mœtask, ok er jarlinn sá skip konungsins, vendi hann[6] undir land[7], þar til er konungr kom umfram, ok réri síðan jarl leið sína út með firðinum.

92. Ólafr konungr tók þá jólavist[8] þá sem Sveinn jarl hafði búit sér, ok átti þing við Innþrœndi, ok tóku þeir hann til konungs ok sóru hánum eiða. En þegar eptir jólin fór konungrinn út til Niðaróss, ok mintisk[9] at hans frændi Ólafr Tryggvasunr hafði látit efna[10] til kaupstaðar, [lét Ólafr konungr fyrir ástar sakir flytja þangat föng, at gera sér herbyrgi[11]. Litlu síðar á einni nátt kom Sveinn jarl á úvart ok hafði með sér mikit lið ofan af Gaulardali, en Ólafr konungr [kom þá[12] á skip sín ok réri út or ánni, ok létu nökkura[13] menn, en jarlinn lét brenna húsaföngin, svá sem segir þórðr Sjárekssunr:

Brunnu allvalds inni
(eldr hygg ek at sal feldi,
eimr skaut at[14] her hrími)
hálfgör við Nið sjálfa.

93. Nú fór Ólafr konungr með skipum sínum til Orkadals, ok þaðan fór hann landvegis á Upplönd ok dró undir sik lið mikit, ok um várit fór hann [til Víkrinnar[15], ok Sigurðr konungr mágr hans með hánum, ok vingaðisk við ríkismenn með fégjöfum. Ólafr konungr hafði látit gera

[1]) slátr ok munngát, en annan hvern smjör ok brauð ok mjólk at drekka [2]) at [3]) ok höfðu andróða [4]) En er Einarr þambaskelfir varð varr [5]) á skútu einni [6]) en í dagan sá þeir til ferðar Ólafs konungs, ok vendi Sveinn jarl [7]) skipum sínum *tilf.* [8]) jólaveizlu [9]) á þat *tilf.* [10]) efla [11]) þá lét Ólafr konungr við til flytja ok gera sér herbergi [12]) komsk [13]) fá [14]) á [15]) í Víkina

skip[1] um vetrinn ok á framstafninum konungs höfuð, þat skar hann sjálfr; þat skip var kallat Karlshöfði[2], því stýrði hann sjálfr konungrinn. Nú er skip hans váru búin, þá hélt hann út eptir Víkinni, lagði skipum sínum fyrir Nesjar fyrir innan Grenmar[3]. Sveinn jarl samnaði sér liði þegar eptir er Ólafr konungr var á brottu or þrándheimi, bauð út [almenning allan[4] um þrándheim ok Hálogaland, ok alt sem hann fór suðr átti hann þing við bœndr ok hafði lið mikit, ok fór með her sínum austr fyrir Nesjar, ok lagði þar til hafnar. Ólafr konungr hafði minna lið en jarlinn, ok lagði þó konungrinn til fundar við hann ok í höfnina, [ok lét áðr jarlinn við búask[5], ok lagði síðan konungr Karlshöfðanum[6] at skipi jarlsins, ok tengðu saman stafnana ok lögðu borð við borð. þessi bardagi var pálmsunnudag. Sighvatr segir görst frá þessum bardaga í Nesjavísum:

þat [er oss[7] kunt, hve kennir
Karlhöfða lét jarli
oddafrosts fyr austan
Agðir nær um lagðan.

[þessi orrosta varð löng[8], ok sleizk með því sem guðs forsjó var fyrir[9], at Ólafr konungr hafði sigr ok [hruðusk mörg[10] skip jarlsins, ok sjálfum [hánum lagði svá nær bana, at skeið hans mundi verða tekin[11], fyrir því at menn Ólafs konungs höfðu komit stafnljám á skeiðarkylfuna[12], [ok bað jarlinn höggva af stafninn[13], ok varð síðan skipit laust. Kom jarlinn svá á brott með dugnaði Einars mágs síns, hann[14] lét kasta streng í skip hans, flýði þá jarlinn ok alt lið hans, nema þat er grið váru gefin. Sighvatr hefr svá Nesjavísur:

Fór or Vík á vári
válaust konungr austan,
(þeir knúðu[15] blá báðir
borð) en jarl kom norðan.
Kann ek sigrviðum segja
sunds, hve þeirra fundir,
œrin skil, þeim er, órum,
at bárusk, þar váru.

Hér getr[16] þess, at þá váru þessi tiðendi nýorðin, er kvæðit var ort, ok sá orti sjálfr, er í var bardaganum. Ok í sama kvæði segir hann svá enn:

[1]) langskip [2]) Karlhöfði [3]) Grenjar [4]) almenningi alt [5]) *mgl.* [6]) Karlhöfða sínum [7]) erom [8]) *tilf. B*; *mgl. i A* [9]) *mgl.* [10]) ruddusk mjök [11]) jarlinum hafði svá nær, at skeið hans myndi vera tekin [12]) skeiðarkyljuna [13]) var stafninn höggvinn af skeiðinni [14]) þvíat hann [15]) knýðu [16]) gat

Stöng óð gylt þar er géngum
Göndlar serks und merkjum
gnýs fyr göfgum ræsi
greiðendr í skip reiðir.

Ok enn kvað Sighvatr:

Sjálfr bað svartar kylfur
Sveinn harðliga skeina,
nær var áðr [í óra[1]
auðván róit hánum,
þá er til góðs við gjóða
gört féngu[2] hræ svörtum
Yggs -lét herr um höggvit-
hrafni -skeiðar stafna-.

Hér vísar til þess er fyrr var sagt. Ok enn kvað Sighvatr[3] þetta:

Frýr eigi oss í ári
innþrœnzk, þó at lið minna
(gört hugða ek svá snertu)
snotr mær, konungs væri.
Brúðr man heldr at háði
hafa drótt þá, er fram sóttu[4],
(fold ruðum skers) ef skyldi,
skeggjum[5], aðra tveggja.

Ok þetta kvað enn Sighvatr:

Ne hœfilig, hreifa,
hygg ek dróttins svik þóttu,
elds þeim er allvel héldu
orð sín við gram forðum.

Þetta vísar til at Þrœndir höfðu svarit hánum eiða ok héldu eigi, fyrir því at þeir börðusk á[6] mót hánum með Sveini jarli. Enn kvað Sighvatr þetta:

Hirð Ólafs vann harða
[hríð, en svá varðk bíða;
peitneskum fékt ek páska
pálmsunnudag hjálmi[7].

Sveinn jarl fór suðr til Danmarkar[8], ok þaðan austr til Svíþjóðar á fund Svíakonungs, ok sagði hánum þessi tíðendi. Ólafr Svíakonungr tók vel við hánum, ok bauð hánum at vera með sér í Svíþjóðu, [fyrir því at[9] hann vildi herja um sumarit [austr um ríki, sem hann gerði[10]. Ok er hausta tók, þá var hann kominn[11] í Kirjála land, fór þaðan [austr

[1]) *saal. rettet;* í orna *A;* í oro *B* [2]) féngusk [3]) hann [4]) sóttek (*rigt.* sótti) [5]) skeggi [6]) í [7]) *tilf. B; mgl. i A* [8]) Danmerkr [9]) en [10]) í Austrríki, ok svá gerði hann [11]) austr *tilf.*

í Garðaríki[1] með herskildi; tók þar sótt jarlinn ok andaðisk. Einarr
þambaskelfir fór aptr til Svíþjóðar, ok var þar marga vetr í Svíakon-
ungs veldi eða í Helsingja[2] landi, en stundum í Danmörku. Ólafr
konungr enn digri lagði[3] undir sik Noreg allan sunnan[4] frá Elfi ok
norðr til Gandvíkr. Hann var hinn fyrsta vetr austr við Raumelfi, lét
þar gera jarðborg, ok er þat nú kölluð Sarpsborg, ok efnaði þar til
kaupstaðar. Á þeim sama vetri lagði Ólafr konungr stefnu við heiðna 94.
heraðskonunga[5] ofan af landi, ok [í þeirra viðrœðum fann Ólafr kon-
ungr, at þeir vildu eigi taka rétta trú; þá setti hann svá ráð til, at
hann lét taka[6] á einum morni níu konunga; lét suma blinda, en suma
öðruvís meiða, suma sendi hann í útlegð. Ólafr konungr lagði svá
mikla stund á [at fremja kristnina[7], at annathvárt skyldi [taka við
kristni eða láta líf sitt, þriðja kosti fara or landi[8], ok var þá engi
dalr sá er eigi bygðu kristnir menn í Noregi.
Milli Ólafs konungs Haraldssunar ok Ólafs konungs Eiríkssunar 95.
var úsætt mikil: taldi Svíakonungr Ólaf konung hafa tekit af sér skatt-
lönd sín; drápusk[9] menn fyrir, ok brendu hvárir fyrir öðrum [stór
heruð[10]. Þetta hugnaði illa hvárutveggja landsfólki, ok gerðu ríkis-
menn[11] þat ráð at bera sættarorð á millum konunganna, ok því var
áleiðis komit á þá lund, at Ólafr Svíakonungr[12] skyldi gipta Ingigerði
dóttur sína Ólafi konungi[13]. [Nú bar svá at einn dag, þá er Ólafr
svænski hafði riðit með hauka ok hunda sína, at hann[14] kom aptr fyrir
döguðarmál ok hafði beitt fimm trönur. Konungr gékk til dóttur
sinnar Ingigerðar, sýndi henni veiðina ok mælti til hennar: „Veizt þú
nökkurn konung hafa beitt meira á einni morgunstundu?“ Hon sva-
raði[15]: „Meiri var veiðr sú, er Ólafr Noregs konungr tók á einum
morni níu konunga ok eignaðisk alt ríki þeirra.“ Þá svaraði Ólafr
konungr reiðr mjök ok sagði: „Ofsnemma ant þú Ólafi digra, þú hefir
enn aldri sét hann, ok [viltu þó gera hann[16] meira en mik; fyrir þetta
sama skalt þú aldri fá Ólaf digra.“ Eptir þetta rauf Ólafr svænski við
Óláf Noregs konung stefnu ok alt sáttmál. Nú er Ólafr konungr varð 96.
þessa varr, þá sendi hann menn sína á fund Svíakonungs ok [lét beiðask

1) upp í Garða 2) Norðhelsingja 3) þá *tilf.* 4) austan 5) *saal. B*; her-aðs menn konunga *A* 6) at þeirra fundi, þá er Ólafr konungr fann þat, at þeir vildu eigi taka við kristni, lét hann taka 7) þat at menn skyldu allir kristnir vera í hans ríki 8) láta líf eða fara or landi, þriðja kosti taka skírn eptir því sem konungr bauð 9) þeir *tilf.* 10) *saal. B;* býja *A* 11) ríkir menn 12) svænski 13) Haraldssyni *tilf.* 14) Svá barsk á dag nökkurn, at Ólafr svænski hafði út riðit með haukum sínum at skemta sér ok 15) á þessa lund *tilf.* 16) virðir þú hann þó

af hánum hins sama sáttmáls[1], en Svíakonungr svaraði [á þá leið, sagði at enga ván átti Ólafr digri[2] þess at fá Ingigerðar, er bæði var konungs dóttir ok dróttningar: „ek á,“ sagði hann, „aðra dóttur, ok er sú frilludóttir er heitir Ástríð, þá skal hafa Ólafr digri, ef hann vill, með þvílíku fé ok eignum, sem áðr hafða ek ætlat[3] Ingigerði.“ Sendimenn Ólafs konungs fóru aptr [með svá búit ok sögðu sitt erendi[4]. Í þessi ferð hafði verit Sighvatr skáld, ok orti einn flokk[5], er hann kallaði Austrfararvísur, ok segir í því kvæði mart um þessa ferð.

97. Nú leitaði Ólafr konungr ráðs[6] við vini sína, hvárt hann skyldi taka þenna kost eða halda vandræðum við Svíakonung. [Nú váru allir fúsir til sættar, fyrir því at þó er œrit vandræðavant[7] við Dani, er langa hríð höfðu haft mikit vald [á þessu landi, sögðu þeir[8]. Ok með ráði vina sinna gerði Ólafr konungr sætt við Svíakonung, ok fékk Ástríðar dóttur hans, ok var þeirra dóttir Úlfhildr, er gipt var Ottu hertoga[9] í Brúnsvík, [þaðan var Otta keisari kominn sunr Heinreks hertoga[10]. En Ingigerði dóttur sína gipti Ólafr svænski Jarizleifi konungi, syni Valdimars konungs í Hólmgarði, ok sendusk þau Ólafr konungr af Noregi ok Ingigerðr margar gersimar sín á milli ok trúnaðar menn. Þá var ok í Garðaríki Rögnvaldr jarl Úlfssunr, frændi Ingigerðar dróttningar; hann var hinn mesti vinr Ólafs konungs, svá sem sagði Sighvatr, þá er hann var kominn or sendiför[11] þeirri, er Ólafr konungr hafði sent hann [til Hólmgarðs[12]:

> Fast skaltu, ríkr, við ríkan
> Rögnvald, konungr! halda
> (hann er þýðr at þinni
> þörf nátt ok dag) sáttum[13].
> En hverr er austr vill sinna
> (jafnmælt er þat) stafni,
> þengill! þinna drengja,
> þar á hald und Rögnvaldi.

98. Í þenna tíma hafði Ólafr mikinn ótta af Dönum, töldu þeir at hann hefði sezk í skattland[14] þeirra Noregs ríki, ok þingat var kaupfriðr af Noregi. Af þessi úsætt varð ekki fyrir þá sök, at allir hinir stœrstu Danahöfðingjar váru þá í Englandi vestr, ok [höfðu þeir yfrit starf[15], ok lét nú Ólafr konungr [efldan verða[16] mjök kaupstaðinn í

[1]) beiddisk af hánum þess sama máls ok sættar [2]) ok kvað enga ván þess vera Ólafi digra [3]) gefit [4]) ok sögðu hánum svá búit [5]) um *tilf.* [6]) ráða [7]) En flestir fýstu at gera sætt við Svíakonung ok töldu ýrit vandræðavænligt [8]) yfir Noregi [9]) keisara [10]) syni Heinreks keisara [11]) sendiferð [12]) austr í Garðaríki [13]) *rettet;* sóttum *A og B* [14]) skattlönd [15]) máttu ekki fleira annask [16]) efla

Niðarósi, lét þar kirkju gera [ok lagði til fé; hann lét ok kirkjur reisa[1] í hverju fylki, ok lagði[2] próvendur til. Þá er Ólafr konungr var orðinn einvaldskonungr í Noregi, þá [lét hann skipa lögum eptir ráði hinna vitrustu manna, ok setti sjálfr eptir því[3] sem síðan hafa haldizk. Þá er Sigurðr sýr var andaðr, þá var engi sá maðr i Noregi er konungs nafn bar, nema Ólafr konungr; þat hafði [aldri orðit fyrr[4] í Noregi, [síðan um daga Haralds hárfagra[5], en þess á milli höfðu heraðskonungar verit; en Ólafr konungr lagði undir sik fyrst konunganna[6] ok tók skatta um Orkneyjar ok Hjatland ok Færeyjar. Svá sagði Óttarr:

Gegn eru þér at þegnum
(þjóðskjöldunga góðra
haldið hœft á veldi)
Hetlendingar[7] kendir.
Engi varð á jörðu
[ógndjarfr áðr en þér[8] náðum
austr sá er eyjum vestan
ynglingr undir sik þryngvi.

Sigurðr konungr sýr ok Ásta áttu þrjá sunu, hét einn Guðröðr, 99.
en annarr Hálfdan, Haraldr hinn þriði ok var hann yngstr; þeirra dóttir var Gunnhildr, er átti Ketill á Ringunesi. Ólafr konungr var maðr ríkr innan lands ok refsingasamr [með stórmannligri vizku[9]. Ríkir menn[10] er þeir sá, at hann gaf [jafnan dóm[11] ríkum sem úríkum, ok með því at þá váru lendir menn úvægnir ok þó kappsamir, þá tóku at kunna því illa, at þeir skyldu láta sitt mál fyrir konunginum[12] ok jörlum, þóttusk eigi eiga at telja langt fram í ættir til konungborinna manna eða annarra stórra höfðingja, ok stirðnuðu af því ríkir[13] menn við konunginn; var mest at því þar sem Erlingr var Skjálgssunr, er þá var ríkastr lendr maðr i Noregi. Þórir hundr var ok ríkr maðr, hann hafði farit til Bjarmalands ok drepit þar góðs[14] manns sun, er Karli hét [er farit hafði með hánum. Ólafr konungr sendi menn at taka Þóri, ok fékk hann[15] af því nauðuliga sætt[16], ok fór or landi. Margir aðrir lendir menn gerðusk konungi útrúir í ráðum sínum. Þá andaðisk Ólafr Svíakonungr, tók ríkit eptir hann Önundr [sunr hans er Jakob var kallaðr[17],

1) *saal. B; udegl. i A* 2) gaf 3) skipaði hann lögum með ráðum hinna vitrustu manna, ok setti á þá leið 4) eigi verit 5) síðan er Haraldr enn hárfagri hafði verit í ríkinu 6) Noregs konunga 7) Hjatlendingar 8) ógnbráðr áðr 9) vitr maðr, stórmenni mikit 10) ríkismenn 11) *saal. B;* góð dœmi *A* 12) konungum 13) ríkis 14) ríks 15) *saal. B;* ok farit hafði í sendiferð Ólafs konungs at taka Þóri, ok fékk Þórir *A* 16) grið fyrir illvirkit 17) *saal. B;* Jakob *A*

hann var hinn mesti vinr Ólafs konungs, mágs síns, ok sendu þeir menn á millum sín ok gerðu ráð sitt.

100. En í þann tíma er[1] stýrði Danaveldi Úlfr, sunr þorgils sprakaleggs, er átti Ástríði dóttur Sveins tjúguskeggs, þá[2] bauð Ólafr konungr leiðangr út or Noregi, ok fór suðr með landi með miklu liði ok til Danmarkar, herjaði um Halland ok Skáni ok Sjáland[3]. Önundr Svíakonungr fór með Svía her[4] austan í mót ok herjuðu [báðir þar sem þeir fóru, ok vildu[5] leggja undir sik alla Danmörk. þetta spurði Knútr konungr vestr í Englandi, at herjat var í Danmörk, ok fór hann vestan með miklu liði af Englandi. Svá segir Sighvatr skáld í erfidrápu, er hann orti um Knút gamla:

*(Knútr var und himnum)*
-Herr austan ferr,
fríðr fylkis niðr[6]
fráneygðr Dana;
skreið vestan viðr[7],
var glæstr[8] er bar
út andskota
Aðalráðs þaðan.

Ok báru í byr
blá segl við rá
(dýr var döglings för)
drekar landreka;
ok þeir er kómu
kilir vestan til
um -leið liðu
Limafjarðar brim-[9].

[Ok enn í þeirri[10] sömu drápu sagði Sighvatr[11] frá norðanferð Ólafs konungs:

*(Knútr er und himnum)*
Hygg ek ætt at frétt
Haralds í her
hug vel[12] duga;
lét lýrgötu[13]
lið suðr or Nið
Ólafr jöfurr
ársæll fara.

[1]) *mgl.* [2]) Eitt sumar [3]) Sjóland [4]) ok Gauta *tilf.* [5]) þeir alt þar sem þeir kómu ok bjoggusk at [6]) *saal. Sn.;* hinn er austan frá frið fylkis lið *B* [7]) *saal. Sn.*; skriðu vestan ver *B* [8]) *saal. Sn.;* hvert *B* [9]) *Viserne mgl. i A.* [10]) í þessi [11]) *tilf. B; mgl. i A* [12]) *saal. Sn.;* leiks *B* [13]) *saal. Sn.;* lýs götu *B*

þurðu norðan
(namsk þat) með gram
til slétts svalir
Sælunds kilir;
en með annan
Önundr Dönum
á hendr [at há[1]
her svænskan ferr.

Lét um lönd lokit
lið[2] gramr saman
marbeðjum með
mörg nefbjörgum;
þar er graðr fyr gnóð
grám hjálmum lá,
þornheims þrimu
þundr! of fundr.

Máttuat dróttnar
Danmörk spanit[3]
[und sik sökum[4]
snarir herfarar.
Hafði snarpla
Skáney Dana
hlöðr herjaða.
*(Höfuðfremstr jöfurr[5].)*

[Nú fór Ólafr konungr ok Önundr konungr[6] austr ígegnum Eyrarsund, ok herjuðu um Skáni hit eystra ok um Smálönd. Nú var, [sem áðr vísaði til í kvæðinu[7], Knútr konungr kominn vestan til Limafjarðar ok dregr saman her úvígan, ok fór eptir þeim austr, ok [fundusk þeir á Skáney austanverðri[8], þar sem áin helga er[9], ok varð þar orrosta mikil, féllu margir af hvárumtveggja, þvíat hvárigir[10] vildu flýja, [ok af því hefir Sighvatr kveðit[11]:

Létat af jöfurr
-ætt manna fannsk-
Jótlands étask
ílendr -at því-.
Vildi foldar
fæst rán Danä
hlífskjöldr hafa.
*(Höfuðfremstr jöfurr.)*

[1]) *saal. Sn.;* hánum *B* [2]) *saal. Sn.;* liðs *B* [3]) *saal. Sn.;* svana *B* [4]) *saal. Sn,;* áðr sik sviku *B* [5]) *Viserne mgl. i A* [6]) þá fóru konungarnir Ólafr ok Önundr [7]) *tilf. B; mgl. i A* [8]) finnask á Skáni austanverðum [9]) heitir [10]) hvárgir [11]) svá segir Sighvatr

þessar orrostu mintisk ok Óttarr er hann orti um Knút:

Svíum hnektir[1] þú sókna
siklingr örr, en mikla
ylgr, þar er áin helga,
úlfs beitu fékk, heitir[2].

[þórðr Særekssunr orti erfidrápu um Ólaf konung, ok gat enn þessar orrostu:

Átti Egða dróttinn
Ólafr þrimu stála
við ágætan Jóta
öðling þann er klauf hringa.
Skaut nær skarpt at móti
Skánunga gramr hánum,
Sveins varat sunr at reyna
slær, þaut úlfr um hræfi[3].

101. Eptir þessa orrostu fór Svíakonungr heim austr í Svíþjóð, en
Ólafr konungr lá[4] með her sinn í Kalmarnum[5], ok vildi þess bíða, ef[6]
Danaherr dreifðisk. En Knútr konungr vendi aptr ok lagðisk í Eyrar-
sund, ok ætlaði at hann skyldi þar sæta Ólafi konungi, er hann fœri
til Noregs aptr. þá er Knútr lá í Eyrarsundi, þá sendu margir lendir
menn Ólafs konungs Knúti konungi leyniliga orð, ok báðu sér friðar
ok trausts. Ólafr konungr, þá er hann spurði, at Knútr konungr
hélt saman [her sínum[7], þá sýndisk hánum [úfœra mikil[8], at fara
með lítit lið í þvílíkan her, þóat hann væri frœkn ok hefði lið frítt,
ok mintisk hann á þat, hversu Ólafi Tryggvasyni [hefði at farizk[9],
þá er hann treysti svá skipum stórum[10] ok liði frœknu, at hann lagði
fram fám skipum í her mikinn. þá tók Ólafr konungr vitrligt ráð:
gékk af skipum sínum þar sem Barvík heitir, fór svá [á vestra Gaut-
102. land ok[11] ofan í Víkina. Einn gamall maðr ok vitr höfðingi, er hét
Hárekr í[12] þjóttu, sunr Eyvindar skáldaspillis, hann sagði konungi, at
hann kvazk[13] eigi fá gengit svá langa leið ok erfiða, kvazk heldr
skulu fara heim með[14] skipi sínu til Noregs. Hann orti vísu þessa:

Ráðit hefi ek at ríða
-rínleygs- héðan mínum
-láð!- dynmari leiðar
löngum heldr en ganga,

[1]) *saal. Sn.;* vægðir *A* [2]) *saal. Sn.;* heita *A. Visen mgl. i B* [3]) *fra* [ *mgl. i B* [4]) eptir *tilf.* [5]) Karlmarnum [6]) er [7]) liði sínu, ok Danaherr dreifðisk ekki [8]) ófœrt vera [9]) hafði farit [10]) sínum [11]) it efra um Gautland ok um Smálönd ok svá um vestra Gautland ok svá [12]) or [13]) lézk [14]) á

þóat leggfjöturs liggi
lundr í Eyrarsundi
(kann þjóð keski minni)
Knútr herskipum úti[1].

Hann lagði út skipi sínu ok réri norðr fyrir Skáni, ok eptir um nóttina sigldi hann norðr, ok í dagan [hafði hann mjök sótt sundit[2], ok lét þá Hárekr [hlaða segli sínu ok lagði niðr[3] viðuna, ok tóku tjöld grá ok breiddu á skipit alt stafna á millum, ok lét róa í nökkurum rúmum bæði aptr ok frammi en [ekki miðskipa[4], ok heimtusk svą norðr[5] í sundit fyrir straumi ok vindi. [En skipastóll Knúts konungs lá á bæði borð, sumr við Skáney en sumr við Sæland[6]. Þá mæltu varðmenn: „Skip ferr í sundit.“ Þá svaraði annarr maðr: „Þat er fornt skip, sé hversu grátt er [ok skinit[7], þat man vera sildaferja, þvíat þat er sett mjök ok þó menn fáir á.“ Fór svá Hárekr gegnum Eyrarsund ok [flota konungs[8], ok tók þá sól upp at renna, vendi þá Hárekr undir land ok reistu viðuna, ok fœrðu upp gullspónu ok veðrvita, síðan drógu þeir upp segl sitt, þat var hvítt sem snjór af háleyskum váðum ok stafat með vendi, ok gékk þá skipit[9] fram or sundinu, ok þá sá lið Knúts konungs hvar skipit sigldi, ok þótti þeim frítt ok glæsiligt til at sjá. Þá var sagt Knúti konungi, [fyrir því at þeir hugðu at Ólafr konungr hefði siglt í gegnum sundit, af því at þeir sá at skipit var vel búit[10]. Konungr svarar: „Þetta man vera af liði Ólafs konungs ok eigi hann sjálfr; kann vera at þar hafi siglt [sá hinn sami karl, er enn sigldi um oss í Beltissundi, er ek þóttumk hafa tekit hann, Hárekr í Þjóttu[11].“ Hárekr sigldi norðr með landi, þá er hann kom or Eyrarsundi orti hann vísu þessa:

Lætka ek Lundar ekkjur,
-læbaugs- at því hlæja
-skjótum eik fyr utan
ey- né danskar meyjar,
-jörð!- at ek eigi þyrða
-iflaflausts- á hausti
á flatslóðir Fróða
fara aptr vali krapta.

1) *Visen udel. B* 2) sóttu þeir at Eyrarsundi 3) ofan leggja segl ok 4) alt var autt at sjá til miðs skipsins 5) vestr 6) þá lá floti Knúts konungs á bæði borð, sumir við Skáni en sumir við Sjóland 7) skipit 8) her Knúts konungs 9) skeiðin 10) at þar myndi Ólafr konungr hafa siglt í gegnum sundit, er svá vel var búit 11) Hárekr or Þjóttu, sá hinn sami karl sigldi enn um oss í Keltissundi, er vér þóttumk tekit hafa

Ok sigldi svá norðr til búa sinna, ok fann Ólaf konung um vetrinn[1] í Niðarósi, ok var hann þá kominn norðan af Hálogalandi.

103. Á því sama ári um haustit fór Knútr konungr vestr til Englands, ok gerði áðr menn sína til Noregs á vit vinmæla[2], þeirra er lendir menn Ólafs konungs höfðu sent hánum, ok [gaf Knútr konungr þeim sína vináttu á mót, ok með stórar ok margar gersimar[3]. Kómu sendimenn Knúts konungs aptr með þeim tíðendum, at alt[4] stórmenni hafði eiða svarit til þess, at þeir [skyldi Knút konung taka til konungs fyrir Noreg[5], ef hann kœmi í landit. Um várit eptir bjó Knútr konungr ferð sína vestan af Englandi með mikinn her, var þá með hánum frændi hans Hákon jarl Eiríkssunr. Þat sama vár kom af Noregi Sighvatr skáld til Englands ok ætlaði ferð sína til Rúms; ok þá er hann spurði ætlan Knúts konungs ok Hákonar jarls, þá orti hann [kvæði þat er kallat var Vestrfararvísur[6]:

Õrr, tegask Ólaf gerva
alt hefir sá er, fjörvaltan,
(konungs dauða megum[7] kvíða)
Knútr ok Hákon úti.
Haldisk vörðr, sem vildu
varla Knútr ok jarlar;
dælla er first á fjalli
fundi[8], ef hann sjálfr kemsk undan.

104. Knútr konungr mintisk margra saka er hann þóttisk eiga við Ólaf konung, var sú hin fyrsta, er Ólafr konungr tók systursun hans Hákon ok lét sverja sér eiða, ok tók síðan[9] ríkit ok rak hann or landi; Ólafr konungr [tók ok[10] þat ríki undir sik, er langa hríð hafði verit skattgilt undir Danakonunga; Ólafr konungr hafði ok herjat [í ríki[11] Knúts konungs. Nú hefr Knútr konungr ferð sína með [miklum her[12] vestan af Englandi ok til Danmarkar ok kom í Limafjörð, ok sigldi þaðan [í Noreg[13] með tólf hundruð skipa, fyrir því at hann hafði út boðit allan almenning bæði af Danmörku ok Englandi, ok kom hann með liði sínu at Ögðum, ok sigldi[14] svá norðr með landi ok þingaði við bœndr, ok var hann til konungs tekinn hvar[15] sem hann kom, ok létti eigi ferðinni fyrr en hann kom til Niðaróss, þar átti hann [fylkisþing við bœndr alla í Þrándheimi[16], ok var hánum þá svarit

[1]) várit eptir [2]) vinmála [3]) sendi þeim þá gjafir stórar ok vináttuboð sitt [4]) mart [5]) myndu Knút til konungs taka yfir Noregi [6]) þetta: [7]) má [8]) *Egilssons Conjectur;* fundr *A og B* [9]) af hánum *tilf.* [10]) hafði ok tekit [11]) á land [12]) her sínum [13]) til Noregs [14]) fór með öllum her sínum [15]) þar [16]) átta fylkna þing við þrœndi

landit[1] á Eyraþingi. Frá þessi ferð Knúts konungs segir þórarinn loftunga[2]:

*(Knútr er und himnum)*
Hliðnæmr með lið
fór mjök mikit
minn vinr þinnig.
Fœrði or firði
fimr gramr Lima
út ólítinn
otrheims flota.

Ugðu Egðir
örbeiðis för
svans sigr vána
sökrammir mjök.
Alt var gulli
grams lið framit[3],
var sjón sögu
slíks ríkari[4].

Ok fyr Lista
liðu fram -viðir
Hafdyri haf-
hart kolsvartir.
Lukt var innan
alt brimgalta[5]
suðr sæskíðum
sund Eikunda.

En fyr fornan
friðmenn liðu
haug Hjörnagla
hvast griðfastir.
þá er stór fyr Stað
stafnklif drifu,
varð œgilig
örbeiðis för.

Knáttu súðir
svangs mjök langar
byrröm[6] bera
brimdýr fyr Stim.
Svá liðu sunnan
svalheims valir,
at kom norðr í Nið
nýtr herflýtir.

1) alt land 2) í kvæði því er hann orti um Knút konung, *tilf. B, som udelader de fölgende Viser.* 3) *saal. Sn.;* búit *A* 4) *saal. Sn.;* líkari *A* 5) *saal. Sn.;* brimgaltar *A* 6) *saal. Sn.;* byrrökn *A*

105. [Hér er sögð öll ferð Knúts konungs, hversu hann fór sunnan ok norðan með landi, ok svá um þat er hann gaf[1] Hákoni frænda sínum land[2], er fyrr hafði verit handtekinn af Ólafi konungi ok svarit hánum eiða[3]. Fór þá Knútr konungr aptr suðr til Danmarkar með her sínum. En Ólafr konungr hafði verit á Upplöndum, ámeðan[4] Knútr konungr lagði undir sik Noreg alt með sjónum, ok hafði látit varðveita skip sín í
106. Oslóar[5] firði. En [brátt eptir þetta spurði Ólafr konungr[6], at Knútr konungr var farinn [til Danmarkar, ok fór þá[7] til skipa sinna ok sigldi norðr með landi, ok þá er hann kom fyrir Jaðar, lá þar Erlingr Skjálgssunr fyrir með margar skútur ok eitt langskip, er hann hafði átt lengi [ok skeiðin mikla var kallat[8]; hann hafði tekit fé til af Knúti konungi, at hann skyldi halda landi undir Hákon jarl, en berjask í móti Ólafi konungi. Ok þá er [þeir sá Ólafs konungs sigling[9], bað Erlingr sína menn sigla eptir konunginum ok berjask við hann Ólaf. Ólafr konungr, þá er hann sá sigling Erlings ok þóttisk vita hans vilja, þá mælti hann til sinna manna, at [hálsa skyldi seglin. Þá hafði Erlingr Skjálgssunr heflat á skeið sinni, at eigi skyldi hon ganga hvatara en önnur skip. Þá mælti Erlingr: „Nú lægjask segl þeirra ok draga þeir nú undan oss, slám við öllu segli á skeiðinni.“ Ok svá var gert; gékk þá skeiðin skjótt fram frá skútunum[10]. En Ólafr konungr stefndi fyrir innan Bókn ok lagðísk þar í sundit fyrir innan Tungueyjar[11]. Gékk nú skeið Erlings norðr í sundit, ok fann eigi fyrr en skip lögðu at hánum á bæði borð, var þar viðtaka hörð ok eigi löng aðr en skeiðin ryddisk[12]. Var drepit hvert manns[13] barn, nema Erlingr stóð i lyptingunni einnsaman. Svá segir Sighvatr:

Öll var Erlings fallin
ungs (fyr norðan Tungur
skeið vann skjöldungr rauða)
skipsókn við þröm Bóknar.
Einn stóð sonr á sínu
snarr Skjálgs, vinum fjarri,
í lyptingu lengi
lætrauðr skipi auðu.

Þá gékk Ólafr konungr í fyrirrúmit, ok sóttu þá menn hans at Erlingi,

[1]) því næst gaf hann [2]) alt Noregs konungs veldi fyrir at ráða, þeim [3]) at hann skyldi aldrigi í mót Ólafi konungi vera *tilf.* [4]) meðan [5]) Aslóar [6]) þá er hann spurði [7]) or landi, fór Ólafr konungr [8]) skeiðina [9]) hann sá sigling Ólafs konungs ok þóttisk vitá hans vilja [10]) *saal. B*; þeir skyldu láta hálsa seglin. Þá mælti Erlingr Skjálgssunr: „heflið á skeiðinni at hon gangi eigi undan öðrum skipum" *A.* [11]) Tungur, eyjar þær er svá heita [12]) eyddisk [13]) *saal. B; mgl. i A*

en hann varðisk vel ok drengiliga, fyrir því at hann var manna sterkastr ok bezt vígr í Noregi öllum. Þá mælti konungr: „Við horfir þú [í dag nú[1], Erlingr.“ „Já, herra!“ sagði hann, „öndverðir skulu ernir klóask. Vilið þér gefa mér grið, herra!“ Konungrinn svaraði: „Á öndverðum [man þér[2] þat sjá áðr en vit skiljumk.“ Þá kastaði Erlingr vápnum ok gékk ofan í fyrirrúmit, en konungrinn hafði [litla handöxi[3]. Nú kastaði Erlingr skildinum ok tók hjálm[4] af höfði sér, en konungr stakk öxarhyrnunni á kinn hánum, ok mælti: „Merkja skal dróttins [svikann hvern[5] at nökkuru.“ Þá hljóp fram Aslákr fitjaskalli ok [hjó með báðum höndum í höfuð hánum[6], svá at Erlingr féll þegar dauðr á þiljurnar niðr. Þá mælti Ólafr konungr[7]: „Högg þú[8] manna armastr; nú hjótt þú Noreg or hendi mér!“ Áslákr svaraði: „Þat er illa, ef yðr þykkir eigi vel fara; ek hugða nú at ek höggva Noreg í hönd þér, fyrir því at engi hefir verit jafnmikill[9] fjándmaðr þinn í Noregi sem þessi.“ Nú gékk Ólafr á skip sín, ok festu eptir skeiðina í sundinu, 107.
draga þeir upp segl sín ok sigla norðr með landi. Eggjarkálfr ok þeir allir brœðr váru þá með Ólafi konungi, er Erlingr var drepinn. [Svá segir í kvæði því er orti Bjarni gullbrárskáld um Kálf Árnasun:

Vastu, þar er vígs bað kosta
vinreifr, með Óleifi,
(kynnisk kapp þitt mönnum)
Kálfr! við Bókn[10] austr sjálfa.
Óðu brún í blóði
borð fyr Útstein norðan,
ljós varð raun at ræsir
ráðinn var frá láði[11].

Skútnaherrinn kom þá eptir í sundit, fundu[12] þeir skeiðina ok drepit af hvert manns barn, tóku lík Erlings ok bjoggu til graptar. Synir Erlings ok frændr lágu í samnaði, fóru norðr eptir konungi með miklum her, ok hvar sem tíðendin fóru norðr, at Erlingr var drepinn[13], þá fór jafnskjótt samnaðrinn hit efra, svá at á Rugalandi ok Hörðalandi fékk eigi[14] Ólafr konungr uppgöngu fyrir bóndaher, en skipaliðit fór eptir hánum. Þessi vísa er kend Ólafi konungi:

Lítt man hauldr enn hvíti
(hrafn etr af ná getnum)
(vér unnum gný gunnar)
glaðr[15] í nótt á Jaðri.

[1]) mjök í dag [2]) *saal. B;* munni, en mátt þú *A* [3]) öxi litla í hendi sér [4]) hjálminn [5]) svikarann [6]) höggr tveim höndum í höfuð Erlingi [7]) til Ásláks *tilf.* [8]) *mgl.* [9]) jafnríkr [10]) *saal. Sn.*; búinn *A* [11]) *fra* [ *mgl. B* [12]) funnu [13]) dauðr [14]) hvergi [15]) glaðir

Svá hefir öllungis illa,
gékk ek reiðr of skeiðar,
(jörð veldr manna morði)
mitt rán getit hánum.

Nú fór Ólafr konungr með skipunum norðr á Mœri, ok spurði þá at Hákon jarl [var í þrándheimi[1] ok þat með, at náliga var landit alt undan gengit[2]. þá gékk Ólafr konungr af skipum sínum, þar sem heitir Slygsfjörðr, ok fór þaðan á Upplönd. Áðr en Ólafr konungr fœri or landi, skildi[3] Eggjarkálfr við hann ok fór norðr til búa sinna, en allir aðrir brœðr hans fylgðu konunginum, ok með hánum var Rögnvaldr Brúsasunr, er síðan var jarl í Orkneyjum. Menn Hákonar jarls tóku öll skip Ólafs konungs, ok þá hlutuðu þeir skipstjórn með sér, ok hlaut sá maðr at stýra Skeggjanum, er Jökull hét; hann orti vísu þessa:

Hlaut ek or Slygs (en sæta
síðfregn at ek kvíða,
ván erum hreggs at[4] hreini
hlýrvegs[5]) skipi stýra,
því er -ýstéttar- átti
Óleifr -funa kleifar!-
(gramr var sjálfr á sumri
sigri ræntr) hinn digri.

108. þá er þrettán vetr váru liðnir frá Nesjaorrostu, þá fór Ólafr konungr or landi [ok austr á[6] Neríki, ok dvaldisk þar um hríð með Sigtryggi feðr [Ívars, föður Suna, föður Karls jarls[7]. Ok þá er vára tók ok ísa leysti, fór Ólafr konungr út í Svíþjóð á fund Önundar konungs mágs síns. Hann gaf Ólafi konungi skip, ok fór hann síðan austr í Garðaríki á fund Jarizleifs konungs, ok fékk hann þar góðar viðtökur, var þar annan vetr ok hafði þar með sér sun sinn, er Magnús hét; hans móðir hét Álfhildr[8]. Á þeirri stundu er Ólafr konungr dvaldisk í Garðaríki [fóru margir vinir hans eptir hánum norðan or Noregi, ok spurði hann öll þau tíðendi er gerðusk í landinu.

109. Á því sama sumri er Ólafr konungr fór í Austrríki[9], fór Hákon jarl vestr til Englands eptir festarmey sinni. Ok þá er hann fór vestan með langskip[10] kom at hánum stormr veðrs ok týndisk jarlinn ok öll skipsóknin, ok kómu þessi tíðendi um haustit til Noregs, ok sama haust aptr til Englands. þetta sumar fór Eggjarkálfr vestr til Englands

[1]) hafði saman samnat í þrándheimi liði miklu [2]) hánum svikit [3]) skildisk [4]) á [5]) hlýrvágs [6]) hann var austr í [7]) *Saal. rettet efter Membranfragm. i d. norske Rigsarkiv af Olaf d. Hell. Saga;* Ívars, ok hans synir váru Suni ok Karl jarl *A;* Ívars funa, föður Karls jarls *B* [8]) Alvildr [9]) *Fra* [ *mgl. B* [10]) langskipi

eptir[1] orðsending Knúts konungs, ok áðr en hann fœri vestan öndverðan vetr, fékk hann þat af Knúti konungi at, [með því at[2] hann héldi upp orrostu á móti Ólafi konungi, [ef hann kœmi[3] aptr í land, ok féngi hann haldit fyrir hánum ríkinu, þá skyldi Kálfr vera jarl yfir landinu, ok halda af Knúti svá sem Hákon jarl hafði haldit af Haraldi Gormssyni. Svá segir Bjarni Gullbrárskáld:

En (of iðnir manna
emka ek tamr at samna
skrökvi) at skilnað ykkarn
skjótt lézt Knút um sóttan.
þér lét fold, áðr fœrir
(frest urðu þess) vestan,
[líf þitt erat lítit[4],
Lundúnagramr fundna[5].

Brátt eptir þetta sendu vinir Ólafs konungs hánum orð, at þá var landit höfðingjalaust, ok báðu hann fara aptr til ríkis síns. Hann skipaðisk við [þeirra orð[6] ok gerði ferð sína eptir jól, ok setti þar eptir Magnús sun sinn til fóstrs með Jarizleifi konungi. En hann sjálfr ok lið hans fór austan at ísum, [meðan hæstr var[7] vetrinn, alt til hafs, ok yfir hafit er váraði, ok svá til Svíþjóðar á fund Önundar konungs mágs síns; ok fékk hann hánum lið. þaðan fór hann til Helsingjalands, ok var þat mikil vásferð ok fór um markir stórar ok vötn, ok báru mörgum stöðum skipin á herðum sér millum vatna, ok kómusk með miklu erfiði fram. þá er Ólafr konungr var kominn or Svíakonungs veldi, lét hann leita eptir, ok funnusk í liðinu níu hundruð manna heiðinna, ok bað hann alla þá aptr fara, er eigi vildu skírask, ok lézk hann eigi vilja sœkja land sitt með heiðnum her. Tóku þar fimm hundruð við skírn en fjögur[8] hurfu aptr. Ólafr konungr kom ofan á Súlu í Veradal, fór þaðan [á Stiklastaði[9]. þar var þá með hánum Haraldr bróðir hans, hann var þá fimtán vetra gamall; [svá segir þjóðólfr:

Skildisk hann ok huldi
hjálmsetr gamall vetra,
tiggi, tólf ok þriggja
trauðr við Ólaf dauðan[10].

þar var ok Sigurðr biskup ok Rögnvaldr Brúsasunr, Finnr Árnasunr ok þorbergr ok Árni ok Kolbjörn, [þeir váru allir[11] Árnasynir. Dagr frændi konungs var eigi kominn. þar kom í móti hánum bóndaherr,

[1]) at [2]) *saal. B; mgl. i A* [3]) *saal. B;* ok kœmi hann *A* [4]) *saal. Sn.;* lið af litli stundu *A* [5]) *Fra:* Svá segir Bjarni Gullb. *o. s. v. mgl. B* [6]) orðsending þeirra [7]) um [8]) hundruð *tilf.* [9]) út til Stiklastaða [10]) *Fra* [ *mgl. i B* [11]) ok fjórir

bæði Háleygir, þrændir ok Mœrir ok alt fyrir norðan Stað. þessir váru höfðingjar fyrir bóndum: Kálfr Árnasunr, Hárekr or þjóttu, þórir hundr, Erlendr or[1] Gerði, Áslákr [á Finneyjum[2], mestr hluti[3] lendra manna fyrir norðan Stað. Ólafr konungr mælti til Haralds bróður síns ok bað hann eigi vera í orrostunni, fyrir því at konunginum þótti hann eigi vápnfœrr fyrir œsku sakir. Haraldr svaraði á þá lund, kvað vísu þessa:

þora man ek þann arm verja
(þat er ekkju munr nekkvat[4],
rjóðum vér af reiði
rand) er ek í[5] hlýt standa.
Gengra greppr enn ungi
gunnblíðr, þar er slög ríða
(herða menn at morði)
mót, á hæl fyr spjótum.

Hér var orrosta hörð ok mikil. þar féll Ólafr[6] konungr ok [mikit af liði[7] hans, þar féll Björn stallari, Kolbjörn Árnasunr, margir kómusk nauðuliga undan; Haraldr Sigurðarsunr varð sárr mjök, Rögnvaldr Brúsasunr, Dagr Hringssunr, ok dreifðusk þeir eptir þetta í úkunn lönd. En af bóndum féll mikill fjöldi ok margir göfgir[8] menn. Eptir fall Ólafs konungs var lík hans flutt til kaupangs ok þar jarðat; urðu þegar margar jartegnir hvártveggja af blóði hans ok líkama[9].

*Hér er um Svein konung ok Álfífu.*

110. Brátt eptir þetta, er Ólafr konungr var feldr norðr í þrándheimi, kom sunnan Sveinn sunr Knúts konungs ok Álfífa[10] af Danmörku með miklu liði, ok fór þegar norðr í land, ok lagði undir sik alt ríkit þat er Ólafr konungr hafði átt. Einum vetri eptir fall Ólafs konungs var upptekinn [líkamr hans ok skrínlagðr at augsjándum öllum þrændum[11] ok at ráði Sigurðar biskups, ok þar við var ok Sveinn ok Álfífa móðir hans. Sveinn konungr hafði haft með sér mikinn Danaher, þá er hann kom í Noreg; þar var hinn fyrsti maðr Úlfr jarl Sprakaleggssunr, [sem segir þórarinn loftunga:

þat var dullaust,
at Danir gerðu
dyggva för

[1]) í [2]) í Finney [3]) hlutr [4]) *rettet;* nökkut *A og B* [5]) *saal. B; mgl. i A* [6]) hinn helgi *tilf.* [7]) mart lið [8]) góðir [9]) líkami [10]) móðir hans *tilf.* [11]) *saal. B;* kista hans ok görr hann sjálfr skrínlægr at augsjón allra þrœnda *A*

með döglingi;
þar var jarl fyrst
at upphafi,
ok svá hverr,
er hánum fylgði,
annarr drengr
öðrum nýtri[1].

Sveinn konungr var mikill œskumaðr ok friðr sjónum, ekki var hann [grimmlundaðr eða illskumaðr[2]. Álfífa móðir hans, er kölluð var hin ríka Álfífa, hon réð mestu[3] með konunginum, ok mæltu þat margir[4], at [þat spilti í báða staði[5]. Fór fyrir þá sök stjórnin illa við landsfólk, ok svá mart ilt stóð af hennar ríki[6] í Noregi, at bœndr jöfnuðu þessu ríki við Gunnhildar öld, er verst hafði verit áðr í Noregi. Í[7] 111.
Álfífu öld leigðu fiskimenn sæinn[8]; mörg [ill dœmi váru[9] þá gör með mikilli fégirni. Friðr var þá góðr hverjum manni við lífi sínu, hvártveggja hérlenzkum ok útlenzkum, en náliga var hvers manns fé sekt fyrir fégjöldum ok álögum[10]. Þessu olli ríki Knúts konungs, at eigi váru rán eða manndráp, ekki kendu menn Álfífu þat, [þóat svá bærisk at[11].

Knútr Sveinssunr, er kallaðr var hinn gamli Knútr, var þá 112.
konungr yfir Englandi, ok hafði þar stól sinn; var þá[12] hans undirkonungr Haraldr, sunr hans ok Emmu dróttningar Rikarðsdóttur, annarr sunr hans var Sveinn konungr í Noregi, þriði sunr hans var Knútr konungr, er kallaðr var Hörðaknútr, hánum veitti uppfóstr[13] Úlfr jarl Sprakaleggssunr, hann réð þá fyrir Danaveldi.

Þat var á einu sumri at Úlfr jarl fór vestr til Englands á fund 113.
Knúts konungs. Úlfr jarl ok Emma dróttning gerðu ráð á milli sín, ok kom[14] dróttningin at innsigli Knúts konungs, létu gera síðan bréf, þau er jarlinn hafði á braut um haustit með sér. Þá er jarlinn kom vestan, þá stefndi hann þing á Vébjörgum, [þat er[15] til skyldu koma menn um alt Danaveldi. Nú er þingit var sett, berr jarlinn fram innsigli Englands konungs[16], fær til kapalín sinn, [skal hann upplesa bréfit er fylgir[17]. Á þessu bréfi váru nefndir allir hinir stœrstu höfðingjar í Danmörku, [ok með því at Knútr konungr sendi kveðju öllum Dönum,

[1]) ok með hánum hverr annarr drengr öðrum nýtri. [2]) grimmhugaðr né ágjarn [3]) mest [4]) allir [5]) hon spilti í hvern stað. [6]) ráðum [7]) um [8]) sjóinn [9]) önnur ódœmi [10]) en lífs friðr var gefinn hverjum manni, útlenzkum ok hérlenzkum, en náliga var sem hvers manns fé væri í úfriði fyrir gjöldum ok álögum [11]) *mgl.* [12]) þar [13]) fóstr [14]) komsk [15]) at [16]) ok bréf þau er þar fylgðu *tilf.* [17]) at lesa upp fyrir alþýðu

ok vill[1] at sé tekinn til konungs á Vébjargaþingi Hörðaknútr sunr hans[2], sé hánum svarit landit at eign ok yfirsókn. En þetta erendi styrkti Úlfr jarl ok talaði [langt erendi[3]: hversu þungt þat var at sitja konungslausir, jafnmikit [ríki ok land sem þat var[4], ok áttu jafnan úfrið við Saxa ok Austrvegsmenn ok enn fyrr við Norðmenn. Svá lauk þessu erendi[5], at Hörðaknútr var tekinn til konungs yfir Danmörku, [en þó réð Úlfr jarl öllu ríki[6]. Kómu þessi[7] tíðendi um várit vestr
114. til Englands, hvat Danir höfðu gert. Nú er Knútr konungr hafði þetta sannspurt, þá gerði hann vestan ferð sína með miklu liði af Englandi, ok kom um sumarit til Danmarkar ok kom til Sjálands í Róskeldu. Þar kom í móti hánum Úlfr jarl, ok um kveldit vildi konungr ekki við hann tala. Um morguninn vildi konungrinn enn ekki við jarlinn tala, ok kallaði til sín skósvein sinn, ok bað hann ganga ok drepa jarlinn. Skósveinn fór ok því næst aptr kom. Þá mælti konungrinn: „Draptu jarlinn?" „Eigi, herra!" sagði hann. „Hvat bar við?" sagði konungrinn. „Hann var at óttusöng." Þá mælti konungrinn við riddara sinn: „Tak sverð þitt ok gakk ok drep jarl." Hann fór ok fann jarlinn í kirkju ok hjó hann þegar banahögg, gékk brott síðan með blóðugt sverðit, ok hirði eigi fyrr en hann kom inn til konungsins. Þá mælti konungrinn: „Draptu jarlinn?" „Drap ek hann víst." „Þá er vel," sagði
115. konungrinn. Munkar þeir er staðinn varðveittu, þann er jarlinn var drepinn í, læstu kirkjunni ok lýstu banni um allan kaupstaðinn ok öll heruð, þau er þangat lágu undir. Nú sendi konungrinn orð til munkanna, ok bað þá taka or banni staðinn ok mennina alla, en hann lézk skulu auka próvendu þeirra ok leggja til kirkjunnar herað mikit, at öllum tekjum þeim er áðr áttu konungar, ok hefir sá staðr með því aukazk. Tóku þá munkar konung í sætt ok alla aðra menn fyrir þessa sök.

116. Brátt eptir þetta þá lýsti Knútr konungr því, at hans bréf ok innsigli hafði tekit verit at úvilja hans, þat er konungs nafn var með gefit Knúti syni hans. Sendir hann nú orð Knúti syni sínum ok Sveini Úlfssyni. Kvámu þeir nú báðir fyrir gamla Knút ok féllu til fóta hánum. Þá seldi Hörðaknútr feðr sínum innsigli sitt, þat er konungs nafn stóð á, ok sættusk þeir þá með því, at Hörðaknútr vann þess eið feðr sínum ok með hánum tólf menn hinir ríkustu í Danaveldi, at hann skyldi eigi halda Danaveldi á aðra lund en í vald föður síns, skyldi hann vera

[1]) sendir Knútr konungr þeim kveðju sína ok þarmeð öllum Dönum: Ek vil [2]) minn [3]) um bæði langt ok snjalt [4]) land ok ríkt sem þeir höfðu [5]) þingi [6]) eptir bréfa tilvísan ok ráði Úlfs jarls, ok réð hann þá öllu ríkinu [7]) *her begynder tredje Lacune i B.*

undirkonungr gamla Knúts, ok gaf hann með því syni sínum konungs nafn. Skyldi hann þá svá vera at réttu konungr kallaðr, ef gamli Knútr væri eigi í Danmörku. Sveinn Úlfssunr var löngum í Svíþjóðu, fyrir því at Ólafr svænski var ~~móður~~ móðurbróðir hans, ok hafði hann þar mikit yfirlæti.

En brátt eptir þetta fór Knútr gamli vestr til Englands ok kom 117.
eigi síðan aptr til Danmarkar, hann gipti Gunnhildi dóttur sína Heinreki keisara milda. Knútr konungr gerði ferð sína af Englandi suðr um sjá, tók þar staf ok skreppu, ok allir hans menn þeir er þar váru, gékk til Rúms suðr ok kom í mót hánum keisarinn sjálfr, ok fylgði hánum alt til Rúmaborgar. Knútr konungr setti alt spitala á veginum, ok gaf fé til staða, ok svá er sagt, at hann fœddi alla þá menn, er fé þurftu á Rúmavegi, svá at engi þurfti at biðja, er þann veg fór suðr ok sunnan. Knútr konungr hafði haft með sér marga hesta klyfjaða með gulli ok silfri, en af fé keisarans tók hann slíkt er hann þurfti. Engi maðr hefir sá farit af danskri tungu Rúmaveg, er með þvilíkri tign fœri. Keisarinn fylgði hánum aptr í norðanvert sitt ríki. Á þessa lund hefir sagt Sighvatr skáld:

Kómu fylki
farlystir[1], er bar
hervíg í hug,
hafanda staf.
Rauf ræsir[2] af
Rúmsveg suman
kærr keisara
Clúspetrúsi.

Svá man fár feril
fetum suðr metinn
hringdrífr hafa.
(*Höfuðfremstr jöfurr.*)
Bar kappsamr
Knútr hinn ríki
bjartan seim
und búendr[3].

Sveinn Álfífusunr var konungr í Noregi. Þá kom vestan af 118.
Englandi Tryggvi sunr Ólafs Tryggvasunar ok Gyðu ensku, ok mæltu sumir, at hann væri prestsunr en eigi konungssunr. Hánum kom í mót Sveinn konungr, ok börðusk þeir fyrir norðan Jaðar þar sem Tungunes heitir. Tryggvi skaut tveim spjótum senn um daginn, ok mælti svá: „Kendi minn faðir mér at messa svá.“ Hœldisk því at hann væri líkari

[1]) *rettet;* farlaust þeim *A* [2]) *rettet;* ræsar *A* [3]) ok var þat þó til við hinn helga Ólaf konung; *tilf. en Afskrift af A.*

Ólafi konungi en prestinum. Þar féll Tryggvi, ekki afrek gerði hann meira í Noregi.

119. Nökkuru síðar var þing fjölment í Niðarósi, var á þinginu Sveinn konungr ok Álfífa móðir hans. Var þar enn talat mikit vanrétti bóndum, ok vildi engi hvárki játta eða neita orðum. Þá mælti Einarr þambarskelfir, svá at mjök margir menn heyrðu: „Ekki var ek vin Ólafs konungs, en þó váru þrœndir ekki þá kaupmenn, er þeir seldu konung sinn ok tóku við meri ok fyl með: konungr þessi kann ekki mæla, en móðir hans vill ilt eitt, ok má ok yfrit." Nú umdu allir er heyrðu ok hlógu at, sagði hverr öðrum, ok þótti vel mælt. Þá mælti Álfífa: „Setisk niðr bœndr, ok hlýði konungs erendi, en kurri eigi svá lengr." En því næst þögnuðu menn. Einarr þambarskelfir stóð upp ok mælti, at bœndr skyldu fara heim, ok hafa menn ill erendi hingat sótt bæði nú ok fyrr til fundar Álfífu, megu menn heldr heima bíða vanréttis, en sœkja allir í einn stað, ok hlýða þar einnar konu orðum, þeir þá eigi vildu hlýða konunginum Ólafi, er nú er sannheilagr; hefir þat verit gert mikit níðingsverk, ok hefir nú með illu refst, er svá mart herfiligt hefir þetta fólk þolat, síðan er þetta ríki kom yfir fólkit. Skyldi þat nú guð vilja, at þat væri skamt, ok hefir þó nú verit yfrit langt." Gékk þá Einarr af þinginu, ok svá allr múgr fór

120. heim af þessu þingi, ok þótti þá Álfífu mart vantalat. Þann sama vetr var beitt í annat sinn, at þingit skyldi vera, ok vildi þá engi maðr til þings sœkja. Nú grunaði vini Sveins konungs, at þrœndir mundi snúask annat sinn á svik við konung sinn, ok fór af því Sveinn konungr suðr í land. Knútr konungr hafði sent menn til Eggjarkálfs, at hann skyldi láta gera hánum öxar norrœnar. Kálfr svaraði á þá lund, lézk engar mundu hánum senda, nema fá Sveini syni hans svá margar, at hánum þœtti eigi skorta.

121. Eptir brottferð Sveins konungs or Þrándheimi gerðu þrœndir ráð á millum sín, völdusk til hinir beztu menn ok ríkustu, fóru or landi. Váru þessir enir fyrstu menn: Eggjarkálfr ok Einarr þambarskelfir. Fóru austr í Garðariki, biðja Jarizleif konung, at hann mætti fá þeim Magnús, sun Ólafs hins helga. Konungrinn var þess mjök trauðr, hræddisk at þeir mundi svíkja hann með sem föður hans. Þá sóru eiða tólf hinir beztu menn er í því liði váru, sem segir Bjarni gullbrárskáld:

Kendi Kálfr til landa
kapps fúsum Magnúsi
(ollu þeir, at stillir
jörð of fékk) or Görðum.

Hafa léztu unga jöfra
erfð, sem til réð hverfa;
settisk snarr eptir þetta
Sveinn at Danmörk einni.

þeir sóru þess eið Jarizleifi konungi, at þeir skyldu halda Magnús konung í Noregi ok fylgja hánum af trúnaði ok styrkja hans ríki. Af 122.
þessu fóru þeir austan, ok gerðusk þeir Kálfr ok Einarr ráðgjafar Magnúsar konungs ok fóstrfeðr. þeir váru á ferð um vetrinn alt til hafsins, ok tóku þeir skip ok sigldu yfir til Svíþjóðar. Ok þá er þeir kvámu til Sigtúna, géngu þeir af skipum, ok fóru svá um Svíþjóð ok svá til Noregs sem vegar falla til, ok kómu ofan í þrándheimi norðr. Svá sagði Arnórr jarlaskáld:

Nú hygg ek rjóðanda réðu[1]
rógörs[2] (þvíat veitk görva[3],
þeygi seimstafir segja)
seggjum hneitis eggja.
Varat ellifu allra
ormsetrs hati vetra,
hraustr þá er herskip glæsti
Hörða vinr or Görðum.

Nú þegar er menn spurðu, at sunr Ólafs hins helga konungs var kominn, 123.
Magnús, í þrándheim, þá kómu menn til hans ok sóru hánum eiða, ok jafnvel þeir er á móti höfðu verit Ólafi. Var þá stefnt Eyraþing, kómu þá til menn[4] af öllum fylkjum í þrándheimi. Var þá Magnús til konungs tekinn ok fékk sér hirð ok skip.

Nú spurði Sveinn konungr brátt þessi tíðendi, lét þegar skera 124.
upp herörvar ok stefnir þing, bað sér liðs, nefndi leiðangr ok sagði nauðsyn sína[5], at þá höfðu þrœndir tekit sér konung annan, bað hann bœndr gera róm at[6] máli sínu ok svara. þá svöruðu margir bœndr, at þeir mundu ekki at vilja sínum berjask í móti syni ens helga Ólafs konungs; sumir þögðu, [en allfáir létusk fara munu[7] með Sveini. Konungrinn mælti: „Ek em [bernskumaðr mikill[8], ok kann ek fátt at mæla, en ekki þarf ek leita eptir vilja þeirra manna, er svá segja, at ek heyri, at eigi vilja berjask við Magnús; sumir þegja, þeir vilja sem hinir, ok er oss ekki þessi herr til bardaga at telja.“ Lauk svá konungrinn sínu máli, at hann mundi eigi berjask við Magnús konung, ef hann féngi sér eigi traustara [her en þá var kominn þar[9]. þá töluðu

[1]) *rettet;* reiðum *A* [2]) *rettet;* rógs hyrs *A* [3]) *rettet;* gnógar *A* [4]) *her begynder B atter.* [5]) *saal. B*; nauðsynir *urigt. A* [6]) *saal. B;* á *A* [7]) ok þó létusk fáir fara myndu [8]) bernskr mjök [9]) lið en þar var þá komit.

höfðingjar konungs, danskir menn, langar tölur, ok kómu [allir í einn stað niðr, at þeir[1] sögðu, at Norðmenn hefði[2] nízk á Sveini konungi, ok kölluðu ekki annat ráð en fara suðr aptr til Danmarkar, ok eflask þaðan í annat sinn með trausti Hörðaknúts, bróður Sveins, eða gamla Knúts. Var þat ráð tekit, fór þá Sveinn konungr til Danmarkar ok móðir hans ok allir Danir, þeir er með hánum höfðu verit í Noregi.

### *Um Magnús konung hinn góða.*

125. Magnús konungr lagði undir sik Noreg allan, svá vítt[3] sem faðir hans hafði[4], orrostulaust ok at vild allra[5] ríkra ok úríkra ok alls múgsins. Vildu þá allir vera frjálsir [ok fegnir[6] heldr en þola Dönum lengr yfirgang. Um þetta orti Arnórr jarlaskáld:

Flýði fylkir reiði
framr þjóðkonungs rama,
stökk fyr auðvin okkrum
armsvells hati gella[7].
Létat Noregs njóta
nýtr þengill gram lengi,
hann rak Svein af sínum
sókndjarfr föðurarfi.

126. Næsta sumar eptir fékk Sveinn Álfífusunr banasótt í Danmörku. Þann sama vetr andaðisk ok gamli Knútr í[8] Englandi; var hann jarðaðr í Vincestri. Tók ríki eptir hann[9] Haraldr sunr hans, en í Danmörku var tekinn til konungs Hörðaknútr annarr sunr hans; hann hafði úsætt mikla við Magnús konung, ok [sagði at hann hefði sezk í land hans
127. þat[10], er átt hafði gamli Knútr faðir hans. Nú lézk ok[11] Magnús konungr eiga at hefna[12] Dönum ok at upphafi[13] Knýtlingum svikræða við föður sinn Ólaf konung, svá ok landsrán er gert hafði verit við Ólaf konung, þá er hann stökk or landi fyrir ofríki ok úfriði Knúts konungs; lézk hann alls þess vilja hefna með trausti föður síns helga Ólafs ok styrk landsmanna sinna, ok gerðu nú hvárirtveggja mikla skaða á annarra ríki. Þetta leiddisk bæði Dönum ok svá Norðmönnum, völdusk til hinir beztu menn af hvárumtveggja ok leituðu um sættir: var fundr til lagðr, at konungar skyldu finnask við Elfi suðr, þar sem konungar höfðu fyrr
128. stefnu haft[14] ok frið gert á millum sín. Á þessarri stefnu gerðu kon-

1) allar í einum stað niðr, ok sögðu 2) höfðu 3) víðan 4) átt *tilf.* 5) þegna *tilf.* 6) *mgl.* 7) *Egilssons Conjectur*; gellir *A og B* 8) á 9) á Englandi *tilf.* 10) ok kallaði hann sezk hafa í sín lönd 11) *mgl.* 12) á *tilf.* 13) á *tilf.* 14) hafða

ungar frið Magnús konungr, sunr Ólafs hins helga konungs, ok Hörðaknútr. þenna frið kölluðu þeir veraldar frið; sá friðr skyldi standa allan aldr. Sóru þá báðir konungar eiða, at hvárr skyldi öðrum vera í bróður stað í öllum viðrskiptum, ok sá friðr skyldi standa milli ríkjanna. [En þetta var skilorð fyrir eiðinum[1], ef Magnús konungr andask barnlauss ok lifir Hörðaknútr lengr, þá skal hann eignask ankannalaust[2] alt Noregs konungs veldi; þvílíkt var skilt ef Hörðaknútr andask barnlauss, þá skal Magnús konungr eignask alt hans ríki ok vera [sannr arftökumaðr[3], sem hann væri hans samborinn bróðir. Tólf hinir ríkustu menn af hvárutveggja ríki sóru eiða, at þeir skyldu þessa sætt halda, meðan nökkurr þeirra lifði, ok styrkja þann konung til ríkis, er lengr lifði. Var þessi sætt gör eptir því, sem þeir gerðu gamli Knútr ok Eðvarðr[4] á Englandi[5].

Magnús konungr gerðisk maðr ríkr, vinsæll ok fullkominn at 129.
vizku ok afli fyrr en at vetra tali, ok fríðr ásjónum. þeir menn er vinir höfðu verit Ólafs hins helga töldu mjök á hendr þrœndum þeim, er í mót höfðu verit Ólafi konungi; váru til þess nefndir margir göfgir menn, [ok váru gerð af því Magnúsi konungi lítilræði, at hann hafði þá at borði sínu ok suma at trúnaðarmönnum, ok gerði ráðgjafa sína[6], sem var Kálfr Árnasunr, er af hafði tekit föður hans. Nú harðnaði konungrinn mjök við þrœndi. Fór þá Kálfr Árnasunr or landi fyrir 130.
konungs reiði ok [mart annarra ríkra manna[7], sumir guldu [ofrefli fjár[8], sumir létu ok allar eignir sínar. Nú rœddu bœndr sín á millum: „Hvárt konungr þessi man nökkut[9] hóf við oss kunna at hafa?“ Kölluðusk opt[10] þá hafa gört stórræði, er minni sakir váru til, létu vera harm mikinn, ef þrœndir skyldu hafa verra rétt en[11] annat landsfólk, töldu mjök vera aldauða foreldra sína, þá er eigi höfðu hlýða látit konungum at taka yfir lög fram; sögðu ok, at þrándheimr hafi alla æfi verit höfuð Noregs, en nú er gert at herlandi: váru fyrst várir frændr ríkastir menn í Noregi, en nú erum vér þrælar konungs[12]. Nú heyrðu þessa 131.
rœðu vinir konungs, ok óttuðusk ofríki hans, géngu saman nökkurir vitrir menn ok rœddu sín á milli[13] þetta mál, fýsti nú hverr annan til at segja konungi, hvat mælt var, en engi þorði sjálfr. Var þá gört ráð þat, at hluta skyldi mann til, ok létu á leið fara hlutinn[14]. Nú

1) þat var ok undir skilt eiðstafinn 2) með sætt ok vild 3) arftökumaðr hans réttr 4) Játvarðr 5) ok skildusk þá sáttir *tilf.* 6) var ok sagt Magnúsi konungi, at þat var lítit ráð, at hafa þá at borði sínu, en suma við trúnaðarrœður, ok gerði þá sína ráðgjafa 7) nökkurir aðrir göfgir menn 8) mikit fé 9) ekki 10) stundum 11) aðrir menn eða *tilf.* 12) greifa *tilf.* 13) um *tilf.* 14) hlutfallit.

var sá hlutr upptekinn er átti Sighvatr skáld, er fylgt hafði lengi Ólafi konungi, ok var þá handgenginn Magnúsi konungi. Þá orti Sighvatr flokk um Magnús konung. Þar var þetta í:

Hafa kveðask lög, nema ljúgi
landherr, bœndr verri,
endr í Úlfasundum
önnur en þú hézt mönnum.

[Þetta er ok þar í[1]:

Gjaltu varhuga, veltir!
við þeim er nú ferr héðra,
þjófs, -skal hönd í hófi-
haulda[2] kvitt -um stytta-.

[Greypt er þat, er höfðum hnepta
heldr ok niðr í felda
(slegit hefir þögn á þegna)
þingmenn nösum stinga.
Hætt er þat, er allir ætla
(áðr skal við því ráða)
hárir menn, er ek heyri,
hót skjöldungi at móti[3].

[Ok enn þetta:

Hverr eggjar þik höggva,
hjaldrgegnir! búþegna?
ofraun er þat jöfri
innan lands at vinna.
Engr hafði svá ungum
áðr bragningi ráðit,
rán hygg ek rekkum þínum,
(reiðr er herr) konungr! leiðask.

Hverr eggjar þik, harri,
heiptarstrangr! at ganga
-opt reynir þú- þínum
-þunn stál- á bak málum.
Fastorðr skyli fyrða
fengsæll vera þengill:
hœfir heit at rjúfa,
hjaldrmögnuðr! þér aldri[4].

[En í þvílíkri[5] kenning mátti heyra í kvæðinu við konunginn, at hann skyldi halda lög þau, er faðir hans hafði sett, ok svá hversu hann hafði alla menn í sætt tekit, þá er hánum var gefit konungs nafn, þóat

[1]) *tilf. B; mgl. i A* [2]) hölda [3]) *Fra [ mgl. i B* [4]) *tilf. B; mgl. i A*
[5]) þvílíka

áðr hefði verit í móti Ólafi konungi. Nú með því at konungr var vitr maðr, [ok af því margir studdu til[1] kenning Sighvats, þá lét hann görva vera sætt í annat sinn við bœndr, hélt lögum réttum ok fyrirgaf [hverjum manni þat et mikla mál, er hann hafði við þá átt[2]. Tók þá alt fólk í landinu at unna hánum, ok var hann [af því[3] kallaðr Magnús góði. Hann kom til ríkis Rögnvaldi Brúsasyni vestr í Orkneyjum, gaf hánum jarls nafn, ok um hans daga gerðisk missætt[4] milli Rögnvalds ok Þorfinns föðurbróður hans, sem getit er í jarla sögunni[5].

Á setta ári ríkis þeirra[6] Magnúss konungs andaðisk Hörðaknútr vestr í Englandi, er [þann tíma réð fyrir[7] Englandi ok Danmörku. Tveim vetrum áðr andaðisk[8] Haraldr bróðir hans; tók þá alt ríki þat Hörðaknútr. Eptir andlát Hörðaknúts var tekinn til konungs á Englandi Játvarðr góði sunr Aðalráðs konungs, bróðir Hörðaknúts. Móðir þeirra var Emma dróttning, dóttir Rikarðs Rúðujarls. Játvarðr var til konungs tekinn páskadaginn fyrsta. 132.

Þá er Magnús konungr spurði andlát Hörðaknúts, þá sat hann í 133.
höll sinni eptir [matborð um daginn[9], ok stóð hann upp þegar ok mælti: „Þat viti guð ok hinn helgi Ólafr konungr, at ek skal eignazk alt Danaveldi[10] eða falla at öðrum kosti.“ Svá segir Arnórr jarlaskáld:

Afkárlig[11] var árla[12]
orðgnótt sú er hlaut dróttinn;
fylgði efnd því er ylgjar
angrtælir réð mæla:
at fram í gný grimmum
grafnings und kló hrafni
fúss lézk falla ræsir
feigr, eða Danmörk eiga.

Þegar sama sumar fór Magnús konungr til Danmarkar suðr með miklu liði af Noregi, kom í Limafjörð ok hélt til Vébjarga. Var hann þar tekinn til konungs á Vébjargaþingi af Dönum, fór um sumarit yfir ríkit, ok skattaði landit ok stjórnaði alt[13] lögum, ok setti höfðingja yfir landit um vetrinn.

Þá er Magnús konungr hafði eignazk Danaveldi eptir svardögum 134.
þeirra Hörðaknúts, þá sendi hann menn með bréfum vestr til Englands á fund Játvarðs, er þá réð fyrir Englandi eptir Hörðaknút bróður sinn. En í þeim bréfum var sú orðsending, at Magnús konungr ok Hörðaknútr höfðu svarit eiða, at hvárr þeirra skyldi taka eptir annan ríki[14],

[1]) enda váru margir til at styðja [2]) öllum landsmönnum þeim er áðr höfðu við hann hatazk. [3]) þá [4]) missætti [5]) sögunum [6]) *mgl.* [7]) í þann tíma var konungr bæði yfir [8]) hafði andazk [9]) borð [10]) Danaríki [11]) afkærlig [12]) jöfra [13]) með siðum ok [14]) ríkit alt

er lengr lifði, ok nú hafði svá til [borizk um[1] misdauða þeirra konunganna, at Magnús konungr var [sannr arftökumaðr[2] eptir Hörðaknút; lézk Magnús þat vita vilja af Játvarði, hvárt hann skyldi þurfa berjask til Englands, eða [skyldi þeir gera sem Danir, at halda réttu sáttmáli
135. við Magnús konung í Englandi sem í Danmörku[3]. En þá er konungrinn Játvarðr heyrði þessi bréf, gerði hann önnur í mót, sagði hann frá því, „at í barnœsku[4] mista ek föður míns Aðalráðs konungs, er réð landi þessu ok hans ættmenn áðr[5], ok fyrir œsku sakir minnar tók Játmundr bróðir minn konungs nafn fyrr en ek, vissa ek at þat váru lög lands þessa. Þá kom [hér til lands[6] gamli Knútr með Danaher ok barðisk til ættleifðar várrar, kom þá svá at hann var[7] konungr yfir Englandi með Játmundi bróður mínum. Litlu síðar fékk bana[8] Játmundr konungr, [tók alt England Knútr Danakonungr[9], en þóat ek væra sunr Aðalráðs konungs[10] ok Emmu dróttningar, þá [tók þó ríkit Knútr stjúpfaðir minn[11]. [Bauzk mér þó liðveizla[12], ok vilda ek heldr trúa á guðs miskunn, at hann [mundi skapa[13] mér þat ríki, er ek væra makligr at hafa, en eigi vilda ek spilla þartil kristinna manna [sálum eða líkömum[14]. Þá er liðit var líf ok ríki [veraldar þessar[15] gamla Knúts, kómu þá í kosning[16] hans synir, Haraldr fyrst, ok var [ek enn sem fyrr fráspyrndr[17] allri eign várra foreldra; unda ek því meðan guð vildi, ok var þat þó skömm hríð áðr en Haraldr andaðisk[18]. Hörðaknútr er réð Danaveldi, er sunr var Knúts gamla, þóttisk eigi vera svá ríkr maðr sem hann vildi, áðr en hann gerðisk konungr bæði yfir Englandi ok Danaveldi, ok var þá [svá hit fjórða sinni konunga skipti[19], at ek hét með engri nafnbót [nema svá sem einn riddari[20], ok man engi maðr segja, at ek þjónaða með meira drambi Knúti brœðr mínum, en svá sem þeir riddarar er af engri ætt váru konungbornir. Þá andaðisk Hörðaknútr; var þat ráð allra höfðingja í Englandi, at gefa mér konungs nafn; var ek vígðr konungs vígslu af erkibiskupi ok stólsettr; vann ek eið í vígslu minni, at halda guðs rétt ok landslög, ok deyja heldr fyrir réttendi en þola rangan yfirgang[21] lands þessa. Em ek nú svá settr af guðs hálfu yfir land þetta ok landslaganna, at

1) borit 2) erfingi alls ríkisins 3) eða vildi hann gera sem Danir at halda réttu sáttmáli, ok sagði sína eign England sem Danmörk 4) bernsku 5) fyrir hánum 6) *saal, B*; til ríkis eptir hann *A* 7) varð 8) banasótt 9) ok tók þá Knútr við öllu ríkinu 10) ok bróðir Játmundar konungs *tilf.* 11) leifða ek ríkit Knúti stjúpfeðr mínum 12) *mgl.* 13) skipaði 14) lífi né sálum. 15) *mgl.* 16) til konunga *tilf.* 17) enn sem fyrr at ek var eignarlauss ok af 18) fékk bana 19) *saal. B;* hit fjórða sinn er konungar váru svá yfir Englandi *A* 20) annarri en sem riddari einnhverr 21) *saal. B;* dóm *A*

dœma hverjum sinn rétt ok hegna úfrið. Nú með því, Magnús konungr, at þú vilt taka af mér þetta land, er mitt er ættland, fyrir þá sök, at þú þykkisk oflitlar eignir [eiga, er þú ræðr fyrir föðurleifð[1] þinni Noregs veldi, ok nú hefir eignazk alt veldi Danakonungs, [ok nú viltu enn ágirnask[2] mitt ríki, ok ferr þú með her á hendr mér; þá [þykki mér líkara, at ek samni ekki[3] her á mót, en eigi mantu konungr mega heita í Englandi, ok engi [þjónan man þér veitt áðr en þú hefir týnt[4] lífi mínu". Nú er Magnús konungr heyrði þessa orðsending 136.
Játvarðs konungs, ok hversu mikla hörmung hann hafði til[5] þolat áðr en hann yrði konungr, ok hversu dýrligr maðr hann var ok mikill guðs vinr, þá mælti[6] Magnús konungr at þessu ráði, lét þat vera satt at hans ríki var þó yfrit, ef guð vildi unna hánum nytja á, [heldr en drepa þvílíkan höfðingja af föðurleifð sinni[7]. Á þriðja ári eptir fór 137.
Magnús konungr aptr í Noreg, ok þá er hann lá í Elfi við Konungahellu kom til hans Sveinn sunr Úlfs jarls ok Ástríðar, dóttur Sveins tjúguskeggs ok Sigríðar dóttur Sköglartosta, er fyrr hafði átt Eiríkr hinn sigrsæli Svíakonungr. Ástríð var samfedd[8] við Knút gamla Englakonung ok sammœdd[9] við Ólaf svænska. Hann hafði dvalzk um hríð í Svíaveldi með Önundi konungi Ólafssyni frænda sínum. Hann leitaði sér vináttu til Magnúss konungs, ok beiddisk ef hann mætti fá nökkut í ríki Magnúss konungs, bauð hánum trúnað sinn, ok lézk [skulu gerask hánum handgenginn[10], sagði hánum [þat er áðr var[11], hversu ríkir konungar hans frændr höfðu verit, en hann eignarlauss, ok lézk hánum í alla staði trúnaðarmaðr skulu vera. Nú trúði konungr hans 138.
fagrmæli, fyrir því at hann sjálfr var úsvikall, ok trúði hann [hánum af[12] sínum trúnaði. Magnús konungr lét Svein leggja hendr sínar á skrín, þar sem helgir dómar váru í, ok sverja sér eiða, at hann skyldi vera hánum tryggr ok trúr [í alla staði[13]. Svá segir Þjóðólfr skáld:

Sjálfr var austr í Elfi
Úlfs mögr, ok hét fögru,
þar réð Sveinn at sverja,
sínar hendr at[14] skríni.

[1]) hafa áðr, er þú ræðr föðurleif [2]) viltu nú girnask á [3]) er þess meiri ván, at ek samna engum [4]) þjónasta man þér þar veitt áðr en þú týnir [5]) *mgl.* [6]) lattisk [7]) *saal. B;* en þat eina mundi við aukask, er hann týndi meira í staðinn, ok miklu meira var vert er hans ván var til guðs, ef hann skyldi *A* [8]) samfeðra [9]) sammœðra [10]) gerask vilja hans maðr [11]) *mgl.* [12]) orðum Sveins eptir [13]) ok alt hans ríki auka í hvern stað. [14]) á

Réð Ólafs sunr eiðum,
átt hafa þeirra sáttir
skemra aldr en skyldi,
Skánunga gramr, hánum.

139. Magnús konungr fór þetta it sama sumar aptr til Danmarkar, ok dvaldisk þar [alt fram[1] til vetrar. Ok áðr en hann fór af Jótlandi, þá gaf hann Sveini Úlfssyni jarlsnafn, ok setti hann til landsgæzlu á Jótlandi at verja land fyrir Söxum ok Vindum, er mikinn skaða gerðu á Danaveldi. Þá mælti Einarr þambarskelfir til konungsins: „Ofjarl, ofjarl, fóstri!" Þá svaraði konungrinn reiðr mjök: „Þat hyggið þér at ek kunna [engu einn ráða[2]; sumt þykkja yðr ofjarlar, en sumt ekki at mönnum[3]!"

140. [Þá er[4] Magnús konungr var um vetrinn í Noregi, þá[5] lét Sveinn jarl stefna Vébjarga þing, ok á því þingi gaf Þorkell geysa Sveini konungsnafn um alt Danaveldi. Eptir þat samnaði Sveinn sér
141. liði [ok lagði undir sér landit alt er hann fór yfir[6]. Nú er Magnús konungr spurði þessi tiðendi, bauð hann út almenning or Noregi ok fékk mikit lið. Þá hafði Magnús konungr Visundinn[7], er allra skipa var mest; þat hafði átt hinn helgi Ólafr konungr, faðir hans. Hann fór þá suðr til Danmarkar, ok þá er Sveinn spurði, hversu mikinn her Magnús konungr hafði, þá treystisk hann eigi at leggja til bardaga við konunginn, ok hélt hann undan ok austr í Svíaveldi á fund Önundar konungs frænda síns. Magnús konungr fór með liði sínu[8] til Jótlands, ok gékk alt fólk undir hann; lét hann drepa marga menn, ok sumir flýðu óðul sín, sumir leystu sik með fé, þeir er áðr höfðu undir Svein
142. gengit. Þá sendi Magnús konungr heim suman[9] her sinn í Noreg, en hann sigldi [með sumu[10] liði til Vindlands at vinna aptr jarlsríki þat er Danakonungar höfðu haft at Jómi. Í þeirri ferð vann hann Jómsborg. Á því sama sumri sigldi hann aptr til Danmarkar; hitti fyrir Re[11] á Vestlandi víkinga, ok barðisk við þá ok fékk sigr.

143. Þat sama sumar[12] var Magnús konungr staddr á Jótlandi, ok spurði at Vindaherr gerðisk á hendr hánum. Þá sendi hann þegar boð um ríki sitt, ok fór í móti þeim dag ok nátt sem mest mátti hann, fyrir þá sök at Vindr brendu alt þar sem þeir fóru. Kom Magnús á móti þeim fyrir norðan Heiðabœ, ok var eigi minni liðsmunr en sex tugir heiðingja váru um einn kristinn mann. Var þá illr kurr í Dönum, ok sögðu at konungr vildi koma þeim í úfœru. Norðmönnum þótti

1) mjök svá framan 2) engi ráð einn saman 3) manna 4) *mgl.* 5) þann sama vetr 6) miklu, ok fór yfir landit ok lagði undir sik. 7) Vísundina 8) suðr *tilf.* 9) *mgl.* 10) sínu 11) *mgl.* 12) haust

ok sinn hlutr illr, at fara í svá mikinn lífsháska ok verja land Dana, þar sem þeir hefði áðr verit á svikræðum við konunginn, [þegar sem[1] hann fór or Danmörku; ok sjálfum konunginum þótti mikil hörmung um hræzlu liðsins, ok sagði at eigi vildi hann flýja lönd sín fyrir heiðnum mönnum, ef hann féngi nökkut lið af sínum mönnum eða landsher, ok sagði, með því at hann var konungr í Danmörku svá sem í Noregi, þá vildi hann verja Danmörk oddi ok eggju, þó at kristnir menn vildu herja, en hálfu heldr fyrir heiðnum her, „[ok eigi vilda ek at kristnir menn væri[2] undir valdi heiðinna manna.“ Þann tíma kom til Magnúss konungs mágr hans Ottó[3] hertogi af Brúnsvík með liði sínu ok fýsti hann til at berjask, ok var konungr því feginn, ok mest fyrir því at áðr hafði hann ætlat[4] at flýja eigi fyrir heiðnum mönnum. Um nóttina lágu þeir undir skjöldum[5] Magnús konungr á Hlýrskógsheiði: var þangat þá hers ván. Ok þá er Magnús konungr sofnaði, þá vitrask hánum Ólafr konungr hinn helgi[6] í draumi; „Statt upp,“ sagði hann, „ok fylk liði þínu; yfrit lið hefir þú at berjask við heiðna menn með; ek man koma ok berjask með þér, ok þegar er ek læt blása lúðri mínum ok þú heyrir hann, þá skaltu fara til bardaga!“ Brátt vaknaði konungrinn ok sagði draum sinn öllum her sínum, „ok megu þér þat til sanns vita, at hinn helgi Ólafr man koma ok berjask með oss.“ Litlu síðar heyrðu þeir allir upp í loptit svá sem hringði klokku, ok þóttusk [allir Norðmenn kenna at Glöð hringði í kaupangi norðr[7]. Þá hugguðusk allir við slíka jartegn, svá at engi hræddisk hvárt [at fyrir váru fleiri eða færri[8]. Vánu skjótara eptir þetta sá þeir hvar Vindaherr fór, ok 144.
þegar fór Magnús konungr or brynjunni ok var hlífðarlauss ok í hendi sér Hel, öxi þá er hinn helgi Ólafr konungr hafði átt, ok í silkiskyrtu einni, ok beið konungrinn [ekki þá merkjanna[9], kom [fyrst allra[10] á móti herinum; hjó síðan á báðar hendr sér. Þetta var Mikjálsmessu aptan, ok var litla hríð áðr barzk en Vindr flýðu. Kristnir menn ráku flóttann ok dreifðusk[11] eptir sem múgrinn sótti undan; féll svá þykt valrinn, at þat var röst leiðar er eigi náði fœti niðr í milli búkanna, ok hverr bekkr stemdisk ok náði eigi rásinni[12], en engi maðr veit manntal, hvat liðs af heiðnum mönnum féll. Svá vísar til Þjóðólfr skáld:

Hykk í hundraðs flokki
Haralds bróðursun stóðu
(hrafn vissi sér hvassast
hungrbann) framast manna.

1) þá er 2) at eigi væri kristnir menn 3) Otti 4) ráðit 5) sínum *tilf.* 6) faðir hans 7) [allir menn kenna hljóðit, at Glöð hringði norðr í Niðarósi 8) er fóru fyrir þeim margir eða fáir. 9) þá ekki annars þvíat hann 10) fyrstr manna. 11) fóru 12) veg sínum

(Vítt lá Vinda flótti)
varð þar er Magnús barðisk
höggvinn valr at hylja
heiði rastarbreiða.

þessi orrosta hefir ágætust verit á norðrlöndum af mannfalli, ok mest af þeirri sök er svá miklar jartegnir gerðusk af hinum helga Ólafi konungi, ok[1] jafnlítit lið sigraðisk við jafnmikinn[2] her, ok létu engan mann af liði sínu, ok konungrinn sjálfr gékk undir vápn heiðinna manna hlífðarlauss, ok hjó úvini sína, ok engi þorði vápn á móti hánum at bera. Svá sagði Arnórr jarlaskáld:

Óð með öxi breiða
údæsinn fram ræsir
(varð um hilmi Hörða
hjördynr) ok varp brynju,
[þá er of skapt, en skipti
skapvörðr himins jörðu,
(Hel klauf hausa fölva)
hendr tvær jöfurr spendi[3].

Magnús konungr var um vetrinn á Jótlandi. þá kom í Danmörk Sveinn Úlfssunr með her sinn, ok hélt til Jótlands á fund Magnúss konungs; finnask þeir fyrir sunnan Arós á Jótlandi: þat var litlu fyrir jól, ok var sú skömm orrosta ok hafði Sveinn lið minna; fékk Magnús konungr sigr, en Sveinn konungr flýði ok var [flest alt lið hans drepit[4], en hann fór til Svíþjóðar. Svá segir þjóðólfr skáld:

Flýði jarl af auðu
otvin skipi sínu
morð þar er Magnús gerði
meinfœrt þaðan Sveini.
Réð herkonungr hrjóða
hneitis egg í sveita,
(sprændi blóð á brýndan
brand) vá gramr til landa.

[Hér vísar til með sannendum, at Magnús konungr ok hans menn kölluðu Svein jarl, þóat sjálfr kallaði hann sik konung ok hans vinir.

145. Nú var Magnús konungr í Danmörku; um sumarit[5] kom Sveinn konungr út í Danmörk með herskipum; þá kom Magnús konungr í mót hánum við Skáney, ok funnusk þar sem heitir Helganes ok [tengðu saman skipum[6]. þat var síðla um kveldit, ok stóð orrostan um nóttina ok lauksk með því, at Sveinn komsk á land upp ok allir þeir er lífit þágu, ok létu þeir öll skipin ok mestan hluta liðsins. Svá segir Arnórr:

[1]) at [2]) svá mikinn [3]) *mgl. A; taget af B* [4]) mesti hlutr liðs hans drepinn [5]) *Fra* [ Um sumarit eptir [6]) lögðu saman skipum at berjask

Hitt höfum heyrt at heiti
Helganes þar er elgi
vágs inn víða frægi
vargteitir hrauð marga.
Rökkr öndurt bað randir
reggbuss saman leggja
-rógskýja hélt- Rygjar
-regni haustnótt gegnum-.

[Skeiðr tók Bjarnar bróðir
ballr Skánungum allar,
þjóð réri þeirrar tíðar
þingat, gramr! með hringum[1].

Sveinn flýði þá aptr upp á Gautland ok því næst á fund Svíakonungs. 146.
En Magnús konungr gékk þá upp á Skáney með liði sínu, barðisk við bœndr ok drap þar marga úvini sína. Svá segir Arnórr skáld:

[Uppgöngu vann Yngvi
arflógandi gnóga,
gerði hilmir Hörða
hjörþey á Skáneyju.

þá fór hann suðr í Falstr, sem Arnórr segir[2]:

Svik réð eigi eklu
allvaldr Dönum gjalda;
lét fullhugaðr falla
Falstrbyggja lið tiggi.

þá vendi hann aptr, lagðisk við Fjón ok veitti þar áhlaup[3] ok drap þar marga menn, þá er svikit höfðu landit undan hánum. Svá segir Arnórr:

Næst rauð frán á Fjóni
(fold sótti gramr dróttar,
ráns galt herr frá hánum)
hringserks lituðr merki;
[minnisk öld, hverr annan,
jafnþarfr blám hrafni,
(ört gat hilmir hjarta)
herskyldir tug fyldi[4].

Hér vísar til þess at Magnús konungr var hit næsta vár eptir tvítugr at aldri. En á því [ári er liðit var[5] frá falli hins helga Ólafs 16 vetr, 147.
þá lá Magnús konungr með liði sínu við Skáney, þá hafði Magnús konungr 10 vetr konungr verit, en tvá[6] vetr af þeim hafði hann verit bæði konungr yfir Danmörk ok Noregi. þá kom til hans Haraldr bróðir

1) *Fra* [ *mgl. A, tilf. B* 2) *Fra* [ *mgl. A, tilf. B* 3) hernað 4) *Fra* [ *mgl. A, tilf. B* 5) sumri er liðnir váru 6) 5

hins helga Ólafs konungs ok sunr Sigurðar sýr[1] ok Ástu Guðbrandsdóttur. Faðir Sigurðar sýr[1] var Hálfdan sunr Sigurðar risa, hann var sunr Haralds hárfagra: þessir langfeðgar þrír váru heraðskonungar á Upplöndum. Haraldr Sigurðarsunr hafði þrjú langskip ok þat er hann sjálfr stýrði; þar var yfir þesskonar segl: þat var pell gullskotit ok lagt tvefalt, [fyrir þá sök at hvárirtveggja þeir er aptr væri á skipinu ok frammi skyldu eigi sjá it úfegra á pellinu[2]. Á því skipi váru drekahöfuð ok öll gullbúin, ok svá er sagt, at ekki skip man hafa verit á norðrlöndum, þat er jafnmikit gull muni á hafa verit eða dýrligri steinar[3] ok margskonar aðrar gersemar góðar.

### *Um Harald hinn harðráða ok hans þrekvirki meðan hann var í Miklagarði.*

148. Þá er hinn helgi Ólafr hafði fallit á Stiklastöðum, þá fóru þeir or landi Haraldr bróðir hans ok Rögnvaldr Brúsasunr ok mart manna með þeim, ok kómu um vetrinn öndverðan austr í Hólmgarð á fund Jarizleifs konungs, ok tók hann vel við þeim, svá sem segir [Bölverkr bróðir Þjóðólfs[4], er hann orti um Harald:

Mildingr straukt um mækis
munn er lézt af gunni,
holds vannt hrafn um fyldan
hrás, þaut vargr í ási.
En gramr (né ek frá fremra
friðskerði þér verða)
austr vartu árit næsta
örðuglyndr í Görðum.

149. Jarizleifr konungr hafði haft jafnan með sér Norðmenn ok svænska menn; þá var andaðr Rögnvaldr jarl Úlfssunr, en þat ríki hafði tekit Eilífr jarl, ok hafði hann marga Norðmenn með sér ok gaf þeim mála: sá jarldómr var veittr til þess at jarlinn skyldi verja ríki konungsins fyrir heiðnum mönnum. Jarizleifr konungr setti Harald annan höfðingja yfir herlið sitt ok gaf mála öllum hans mönnum, svá sem segir Þjóðólfr skáld:

Eitt höfðusk at,
Eilífr þar er sat,
höfðingjar tveir,
[hamalt fylktu[5] þeir.

150. Nú dvaldisk Haraldr þar langa hríð ok átti margar orrostur, ok var

1) sýrar 2) þvíat hvárgir skyldu þeir er aptr væri eða frammi sjá hit ófegra á pellunum 3) eða pell *tilf.* 4) [Valgarðr á Velli 5) ávalt fylgðu

Jarizleifr konungr [forkunnliga vel til hans[1], ok þó fýstisk Haraldr at fara út til Miklagarðs. Hann byrjaði ferð sína ok mikit lið Norðmanna með hánum, ok fór þráliga þar til er hann kom í Miklagarð. Þá réð Miklagarði Zóe dróttning hin ríka, er stýrt hafði Miklagarðs ríki með 7 stólkonungum, ok sá maðr réð enn með henni er hét Michael Katalaktus. Nú beiddisk Haraldr af stólkonungi ok af dróttningunni, at hann vildi þar ganga á málagull[2] ok allir hans menn, ok því var játtat ok sagt at þeir skyldu ganga á galeiðir. Þá stýrði her Girkjakonungs 151.
Georgius frændi dróttningarinnar, þann kölluðu Norðmenn Gyrgi. Ok þá er þeir kómu út í Girklandseyjar, þá fór Haraldr optliga með sínum mönnum brott ífrá herinum ok leitaði sér féfanga[3], ok flestir allir væringjar fylgðu hánum. Hann lagði svá til orrostu hvert sinn, hvárt sem var til skipa at leggja eða til kastala eða á land at ganga; at annathvárt vildi hann falla með lið sitt alt, eða sigrask[4]. En þá er hann var með öllum herinum, þá lét hann sína menn jafnan [vera firsta háskanum, ok lézk varask vilja at eigi týndi hann öllu liði sínu[5]. Svá bar at eitt sinn, at þeir settu landtjöld sín, ok tók Haraldr 152.
tjaldstað þann er yfir var öðrum tjöldum uppi. Nú kom til höfðingi Girkjahers ok bað Væringja flytja tjöld sín í brott, ok sagði at Girkir áttu þar at tjalda. Haraldr svaraði, lét þat engan rétt Væringja at flytjask í dalverpi[6] undir fœtr Girkjum. Þá sagði Gyrgir, at hann sjálfr skyldi setja[7] sitt tjald, ok út ífrá alt lið hans. Þá svaraði Haraldr: „Ef þú ert höfðingi[8] yfir her Girkjakonungs, þá em ek höfðingi[8] yfir Væringjum.“ Nú vildu hvárirtveggja neyta vápna sinna, ok kómu þá til spekimenn[9] ok báðu at þeir skyldu sættask, ok gera sem jafnast milli sín, ok báðu þá hluta[10] hvárir fyrri skyldi tjalda, Girkir eða Væringjar, eða fyrri ríða, róa eða til hafna leggja. Þá váru hlutir görvir ok markaði hvárr sinn hlut[11]. Þá mælti Haraldr við Gyrgi: „Lát sjá hvat mark á þínum hlut sé, fyrir því at eigi markim vit á einn veg báðir!“ Hann sýndi hlut sinn. Þá markaði Haraldr sinn hlut svá[12], at eigi mátti kenna hvárr var, ok kastaði báðum í skaut hertoganum, ok [skyldi Haraldr upp taka báða hlutina ok mælti[13], er hann tók til: [„þessi skal fyrri tjalda ok fyrri ríða ok svá til hafnar leggja!“ ok mælti: „Ef várr hlutr kemr upp, þá fleygi ek hánum út á sæinn,“ ok svá gerði hann[14]. Þá mælti Gyrgir: „Hví [létu þér[15] eigi sjá hlutinn?“ Haraldr

[1]) allvel við hann [2]) *saal. B;* gull *A* [3]) *saal. B;* fjárganga *A* [4]) sigr fá [5]) fyrsta vera [6]) *saal. B;* dalhverfi *A* [7]) fyrst *tilf.* [8]) hertogi [9]) vitrir menn [10]) um *tilf.* [11]) hertoginn *tilf.* [12]) líkt *tilf.* [13]) tók H. til hlutanna ok mælti svá [14]) „þessi skal fyrri tjalda, fyrri ríða, fyrri róa, fyrri til hafnar leggja!“ leit á hlutinn ok mælti: „þetta er várr hlutr Væringja!“ fleygir út hlutinum á sjóinn er þar var nær [15]) léztu mik

svaraði: „Ef þú sátt eigi þann hlut er ek tók upp, sé þá þann er eptir
liggr, ok gef at gaum ef þú kennir þitt mark á þeim!“ þá var hlutr
kendr ok var þará mark Gyrgis. Í þvílíkum viðrskiptum fannsk hversu
153. framgjarn Haraldr var ok áburðarsamr[1]. Fóru þá um sumarit ok
herjuðu; tóku þá Væringjar at tala sín á meðal, at miklu myndi betr
fara, ef Haraldr réði einn fyrir liðinu, ok sögðu at Gyrgir vann engan
hlut til frægðar, ef hann [var í nökkurum stað[2] fyrir. Hann sagði á
mót, at Væringjar vildu [engan hlut veita hánum[3], ok bað þá fara í
154. annan stað, ok lézk þá mundu vinna þvílíkt er hann mætti. En nú fór
Haraldr ífrá ok með hánum allir Væringjar ok allir Latínumenn, ok
sýndisk í því hvat hvárir máttu, er Gyrgir fór með Girkjaher. Hafði
Haraldr jafnan sigr ok fé mikit, en [Gyrgir fór[4] heim aptr til Mikla-
garðs, nema þat lið eigi[5] er sér vildi fjár afla: þeir fóru til Haralds, ok
155. höfðu hann höfðingja yfir sér. þá fór Haraldr með her sinn vestr í
Affríka, efldisk mjök at liði í veldi því er liggr undir Affríka. þat er
talat[6] mjök eptir sögu sjálfs Haralds, at hann tœki þar átta tugu[7]
borga; sumar váru gefnar í vald hans, sumar braut hann eða brendi.
Svá sagði þjóðólfr:

Tugu[7] mátt tekna segja
-tandrauðs- á Serklandi
-ungr hætti sér- átta
-ormtorgs hötuðr- borga,
áðr herskorðuðr harðan
Hildar leik und skildi
Serkjum hættr í sléttri
Sikiley gékk heyja.

þá[8] kvað Hugi Bryndœlaskáld:

Brauztu und Mikjál mestan
(mágum heim, sem frágum,
sunr Buðla bauð sínum)
sunnlönd, Haraldr! röndu.

156. Hér segir þat at þá var Michael[9] konungr í þann tíma. Haraldr dvald-
isk marga vetr í Affríka[10], fékk þar gull ok allskonar dýrliga gripi ok
steina marga[11]; en fé þat alt er hann fékk ok eigi þurfti[12] hann til
neyzlu við lið sitt, sendi hann með trúnaðarmönnum sínum til Hólm-
garðs í [vald ok[13] gæzlu Jarizleifs konungs; dró þar saman mikit fé,
sem líkligt var, er hann herjaði þann hluta heimsins er auðgastr var
af gulli ok silfri, ok svá mikit sem hann gerði at, [er með sönnu var

[1]) *saal. B*; öfundsamr *A* [2]) réð einn [3]) ekki veita hánum þjónustu sína [4]) Girkir fóru [5]) *mgl.* [6]) mælt [7]) tigu [8]) Svá [9]) Mikjáll [10]) *saal. B;* í Affr. *udelader A* [11]) mæta [12]) *saal. B;* fékk *A* [13]) *mgl.*

áðan sagt[1], at hann eignaðisk áttatugu borga. Hann barðisk við sjálfan konunginn í Affríka[2] ok eignaðisk víða hans veldi. [Svá segir Þjóðólfr skáld eptir orðum sjálfs hans[3]:

Dólgljóss, hefir dasi
darrlatr staðit fjarri,
endr er elju Rindar
ómynda tók skyndir.
Varat Affríka jöfri
Ánars mey fyr hánum
haglfaldinni at halda
hlýðisamt, né lýðum.

Nú hélt hann herinum til Sikileyjar ok vann þar [borg eina[4] 157.
með þeima hætti, at fuglarar hans tóku með límı smáfugla, þá er hreiðruðusk í borginni ok flugu á skóg um daga at taka sér mat[5]; ok lét Haraldr binda á bak þeim lokarspón[6] [af týri[7] ok steypa á af[8] vaxi ok brennusteini, ok flugu síðan fuglarnir[9] til unga sinna. Þá laust eldinum af fuglunum, en þóat hverr[10] bæri litla byrði elds, þá kveiktisk [þar þó af er reyrþökt váru húsin[11], ok [því næst hvert[12] af öðru, ok síðan brann öll borgin. Gékk þá út fólkit með lítillæti ok báðu sér miskunnar með áhyggju ok hræzlu, þeir er drembiliga ok neisuliga höfðu [mælt til Haralds ok liðs hans næsta dag áðr[13].

Aðra borg vann hann með þeima hætti, at hann lét segja í 158.
borgina, at höfðingi Girkjahers væri andaðr, ok beiddusk at grafa lík hans í borginni, ok hétu at [offra miklu fé, sem títt var[14] fyrir sál ríkra manna. Þessi borg var svá sterk, at engi ván var at hon yrði vápnum sótt. En er borgarmenn heyrðu sagt andlát Haralds, ok þeir er kirkjur varðveittu vildu gjarna þiggja gullit, þóat víkingar vildu gefa þeim, bauð hverr at til sinnar kirkju líkit skyldi fœra, ok hugðusk þá upp skulu taka gull ok silfr ok aðra góða hluti; géngu nú móti líkinu [ok skrýddusk ok báru út krossa ok aðra helga dóma[15]. Víkingar báru kistuna hátt, ok var tjaldat yfir purpurapelli, en víkingar þeir er fylgðu líkinu, höfðu silkiklæði ok höttu síða ok undir hjálma ok brynjur. Ok þá er þeir kómu í mitt borgarhliðit, þá feldu þeir niðr kistuna um þvert hliðit; [þá lét Haraldr við kveða lúðr sinn[16], ok var allr lýðrinn reyndar vápnaðr; skutu þeir upp merkinu ok runnu

[1]) ok áðan var ífrá sagt [2]) ok sigraðisk *tilf.* [3]) sem Þ. skáld segir [4]) *saal. B;* borgina *A* [5]) fœzlu [6]) lakarsspónu [7]) ok týrutré [8]) *mgl.* [9]) allir senn í borgina *tilf.* [10]) *saal. B*; einn hverr *A* [11]) þó þar af húsin er reyrþökt váru [12]) logaði síðan hvert hús [13]) áðr mælt við Harald [14]) verja til miklu fé sem siðr var til [15]) í borgarhlið, báru út krossa ok helga dóma ok skrýddusk fagrliga [16]) þá blés lúðrsveinn Haralds

[um borgina[1], en konungr hafði sjálfr reyndar borit kistuna ok aðrir 12 menn; brá konungr sverðinu ok allir hans menn[2], ok drápu þeir marga menn þá er vápnlausir stóðu fyrir. þar varð sárr mjök Halldórr Snorrasunr, hann var höggvinn í andlit. Flestir allir Haraldsmenn urðu nökkut sárir, ok mest af grjóti er kastat var at þeim or turnum. Haraldr vann þá borg ok tók þat af[3] er hann vildi, ok eignaði Girkjakonungi borgina. Marga staði vann hann í þessu landi í vald Girkjakonungs áðr en hann kvæmi aptr til Miklagarðs.

159. Litlu síðar gerði hann ferð sína út af Miklagarði með herinum til Jórsala, ok þá er hann kom í Jórsalaheim, þá var landit alt upp gefit í vald hans. Svá segir Stúfr, er heyrt hafði Harald frá þessum tíðendum segja:

Fór ofrhuginn -efri-
eggdjarfr und sik leggja
-fold var víga valdi
virk- Jórsali -ok Girkjum-.
Ok með œrnu ríki
úbrunnin kom gunnar
heimil jörð und herði.
*(Haralds önd ofar löndum).*

Hér segir frá því at þetta land kom úbrunnit ok úherjat í vald Haralds. því næst fór hann út til Jórdanar ok laugaði sik [sem pálmara[4]. Hann varði til grafar várs dróttins ok krossins helga ok til annarra heilagra dóma í Jórsalalandi, gaf hann þartil svá mikit fé í gulli ok silfri, at engi maðr vissi markatal á. Haraldr friðaði ok veginn alt til Jórdanar ok drap marga raufara ok annat fólk, þat er ufrið gerði; svá sem Stúfr segir:

Stóðu ráð af reiði
-rann þat- svikamannum
Egða grams á ýmsum
-orð- Jórdanar borðum.
[En fyrir afgerð sanna
illa gat frá stilli
þjóð fékk vísan váða.
*(vist um aldr með Kristi)*[5].

160. En nú fór Haraldr aptr til Miklagarðs, ok gerðisk þá úsætt mikil af dróttningu til Haralds: var sú sök hin fyrsta gefin Haraldi, at hann hafði gull þat er átti Girkjakonungr, ok eigi alt upp greitt svá sem lög stóðu til, ok hafði sjálfr meira af eignazk en konungr hafði veitt hánum, ok sögðu þeir at þá stund er hann var yfir[6] Girkjakonungs

[1]) til borgarinnar [2]) hljópu upp í hliðit *tilf.* [3]) fé *tilf.* [4]) svá sem háttr var pálmara [5]) *Fra* [ *mgl. i A, tilföiet efter B* [6]) *saal. B;* undir *A*

her, at ekki kom gull af galeiðum; en önnur sök var sú, at Zóe dróttning kendi Haraldi, at hann tíðkaðisk Maríu sunardóttur hennar. Haraldr bað Maríu ok fékk eigi. Þat segja menn þeir er verit hafa í Miklagarði[1], at Zóe dróttning vildi sjálf hafa Harald. Nú lét Mono- 161.
makus[2] keisari ok Zóe dróttning taka Harald ok leiða bundinn til myrkvastofu ok tvá menn með hánum, Úlf er síðan var stallari hans, ok Halldór Snorrasun. Ok nær myskvastofunni á strætinu sýndisk hánum hinn helgi Ólafr konungr — þar var síðan gör kapella ein[3] — ok var þeim þá hrundit í dýflizuna. Næstu nótt eptir kom ekkja ein ok opnaði dýflizuna, þat er turn einn ok opinn ofan, ok er nú kallat Haralds dýfliza. Tvá þjónustumenn hafði sú kona með sér, ok létu þau síga snœri niðr[4], ok drógu Harald upp ok alla þá er þar váru. Þessi konu hafði hinn helgi Ólafr konungr unnit bót, ok henni hafði hann vitrazk at hon skyldi leysa bróður hans. Nú fór Haraldr þegar til Væringja 162.
skiptar — svá kalla þeir þá garða er Væringjar eru í —; nú er hann kom þar, þá bað hann þá uppstanda ok taka vápn sín ok ganga til konungs palatu[5] þar er hann svaf inni. Þeir drápu nökkura Væringja þá er [á verði höfðu verit[6] yfir konunginum, tóku konunginn sjálfan ok stungu út bæði augu hans. Svá segir Þórarinn Skeggjasunr í drápu sinni:

-Náði gjörr- en -glóðum-
Girklands -jöfurr handa-
stólþengill gékk ströngu
steinblindr aðalmeini.

[Svá segir ok Þjóðólfr:

Stólþengils bað stinga
(styrjöld var þá byrjuð)
eyðir augu bæði
út heiðingja sútar[7].

Valgarðr [af Velli hefir ok kveðit um varðmennina[8]:

Helmingi bauttu hanga
hilmis kundr af stundu,
skipt hafi þér svá at eptir
eru Væringjar færi.

Í mörgum kvæðum Haralds er getit þessa stórvirkis, [ok eigi er at gera orð íhjá því, nema sjálfan Girkjakonung blindaði hann. Nefna

[1]) at væringjar minnask svá frásagnar *tilf.* [2]) *saal. rettet,* Monakus *A* Munakus *B* [3]) hinum helga Ólafi konungi ok stendr sú kapella enn *tilf.* [4]) ofan [5]) palata [6]) vörð héldu [7]) [Svá segir &c. *mgl. B* [8]) segir frá drápi varðmanna

mátti til greifa nökkurn eða hertoga, en í öllum kvæðum Haralds segir á eina leið, at þetta var sjálfr stólkonungrinn[1].

163. En á þeirri sömu nótt tók hann höll þá er inni var jungfrúin
María, ok hana hafði hann með sér. Þeir tóku ok tvær galeiðr ok
réru inn í Sæviðarsund. En yfir sundit váru járnrekendr. Þá mælti
Haraldr, at skipask skyldi til ára á hvárritveggja galeiðinni, en þeir
menn er eigi [þurfti til róðrar[2], þá skyldu allir hlaupa aptr á hvárri-
tveggja galeiðinni, ok hafa hverr sitt húðfat í fangi, ok rendu svá
galeiðr upp á járnin, en þegar festi ok aftók skriðinn, þá bað hann
alla hlaupa fram í, ok þeirri galeiðinni, er Haraldr var á, steypti fram
af járnum, en önnur sprakk, sú er Haraldr var eigi á, er hon reið á
164. járninu, ok týndisk þar mart af, en sumt var tekit af sundi. [Svá
kom[3] Haraldr brott af Miklagarði, ok fór svá í Svartahaf, ok áðr en
hann sigldi í hafit, setti hann upp á land jungfrúna Maríu ok fékk henni
gott föruneyti aptr til Miklagarðs, ok bað segja Zóe dróttningu, at Har-
aldi þótti [lítit vald hon á sér eiga, eða hvat hennar ríki mundi hafa
fyrir staðit, ef hann vildi haft hafa jungfrúna[4]. Síðan sigldi hann norðr
í Ellipalta; fór þaðan aptr um Austrríki. Í þessum ferðum orti hann
gamanvísur 16, ok eitt er niðrlag á[5] öllum. Þessi er ein:

Sneið fyr Sikiley víða
súð, várum þá prúðir,
brýnn skreið vel til vánar
vengis hjörtr und drengjum;
vætti ek miðr at motti
muni enn þinnig renna[6],
þó lætr Gerðr í Görðum
gollhrings við mér skolla.

Því veik hann til Ellisifar dóttur Jarizleifs konungs.

165. Haraldr fór til Hólmgarðs á fund Jarizleifs konungs, ok fékk hann þar góðar viðtökur, tók þá til sín gull þat it mikla, er hann hafði áðr sent fyrir sér af[7] Miklagarði. Áðr en Haraldr færi or Görðum, gipti Jarizleifr hánum dóttur sína: sú hét Elisabeth, þá kölluðu Norðmenn Ellisif. Svá segir Stúfr hinn blindi:

Mægð gat öðlingr eiga
ógnarmildr, þá er vildi;
gulls tók Gauta spjalli
gnótt ok bragnings dóttur.

[1]) nefna mætti greifa nökkurn eða hertoga, en í öllum kvæðum Haralds segir á eina lund, at þetta var sjálfr stólkonungr [2]) þurftu at róa [3]) Með þessu komsk [4]) sem hon hefði lítit vald þá á hánum, eða hvárt er hennar ríki myndi nökkut þá fyrirstanda, at hann féngi ungufrú Maríu ef hann vildi [5]) at [6]) nenna [7]) utan or

At vári byrjar hann ferð sína austan af Hólmgarði, fór með 3 skip til Svíþjóðar. [Svá segir Valgarðr: 166.

Skauztu und farm inn frízta
(frami veitisk þér) beiti,
farðir gull or Görðum
grunlaust, Haraldr! austan.
Stýrðir hvatt í hörðu,
hugdyggr jöfurr! glyggvi,
sáttu þar er sædrif létti
Sigtún, en skip hnigðu[1].

Þá funnusk þeir Sveinn Úlfssunr ok Haraldr; þeir váru mágar, fyrir því at Ellisif, er Haraldr átti, var dóttir Ingigerðar Ólafsdóttur hins sænska; hans systir var Ástríð móðir Sveins Úlfssunar. Litlu áðr hafði Sveinn flýit af Danmörku fyrir Magnúsi konungi; þá beiddisk Sveinn sambands [af Haraldi, ok sagði at Magnús konungr sat yfir hvárstveggja þeirra föðurleifð ok ríki[2]. Haraldr svaraði á þá lund, at eigi vildi hann synja Sveini vináttu sinnar, en þó vill hann fyrr hitta frænda sinn Magnús konung en úvingask við hann eða hylla sik fjándmönnum hans. Fór Haraldr þá til Danmarkar, sem hér segir:

Eik slöng und þér, yngvi
ógnblíðr! í haf síðan
(rétt var yðr um ætlat
óðal) frá Svíþjóðu.
Hind bar rif, þar er rendi
rétt á stag, fyr slétta
-skeiðr en skelktu brúðir-
Skáney -Dönum nánar-.

*Hér fundusk þeir frændr Magnús konungr ok Haraldr.*

Þá urðu þau tiðendi er áðr var til vísat, at þeir fundusk Magnús konungr ok Haraldr föðurbróðir hans, tóku tal á millum sín ok spurði Haraldr, hversu Magnús konungr mundi vilja jafna ríkit þeirra meðal. Magnús konungr lézk skulu gera eptir ráði [hinna stœrstu manna ok annarra vitra manna í landinu[3], ok váru þá saman kallaðir ríkismenn ok ráðuneyti[4] konungsins; lét þá Magnús uppbera fyrir þá hvers Haraldr beiddisk. Þá svaraði Einarr Þambarskelfir ok lét fjarri Harald hafa verit, þá er þeir unnu landit af Knýtlingum: „ok [engi fýsn er 167.

[1]) *Fra* [ Svá segir *mgl. B* [2]) við Harald um vandræði þeirra Magnúsar konungs ok téði hánum at M. konungr sat yfir hvárstveggja þeirra ríki [3]) stórmennis síns ok hermanna sinna eða landsmanna [4]) ráðgjafar

oss á[1] at tvískiptask milli konunganna, ok höfum æ jafnan einum senn þjónat, ok svá man enn vera meðan Magnús konungr [lifir ok hann[2] hefir vald sitt. Þessu samþyktusk allir ríkismenn, þóat sína leið hafi[3] hverr sitt mál, kom þó æ í einn stað niðr, at þeir vildu hafa einn[4] konung yfir sér. [Nú fór Haraldr við svá búit[5] í brott ok þóttisk fá enga sœmd af frænda sínum; veik hann þá aptr til Svíþjóðar ok stefndi á fund Sveins konungs, ok gerðu þeir félag sitt á þá lund, at Haraldr lagði Noreg til en Sveinn Danaveldi, ok skyldu þeir [báðir vinna bæði löndin[6] af Magnúsi konungi, efldusk [þeir nú mjök[7] at liði ok fóru víða um Sjóland ok Fjón, herjuðu ok brendu ok tóku fólk mikit. Svá segir Valgarðr:

Haraldr! gerva léztu herjat,
hnyggr þú andskotum tiggi!
(hvatt vann vargr at vitja
valfalls) Sælund alla.
Gékk á Fjón en fékkat
fjölmennr konungr hjálmum
(brast ríkula ristin
rít) erfiði lítit.

Brann í bœ fyr sunnan
bjartr eldr Hróiskeldu;
rönn lét ræsir nenninn
reykvell ofan fella.
Lágu landsmenn gnógir,
ló hel sumum frelsi;
drósk harmvesalt hyski
hljótt til skógs á flótta.

[-Dvöldum daprt of skilda-
drifu þeir er eptir lifðu,
-ferð- en fengin urðu
fögr sprund, Danir undan.
Láss hélt líki drósar,
leið fyr yðr til skeiðar
-bitu fíkula fjötrar-
fljóð mart -hörund bjartra-[8].

Þá er Haraldr ok Sveinn höfðu unnit þvílíkt sem hér vísar til, þá skiptu þeir liði; sigldi þá Haraldr útleiðis[9] til Noregs, sem Valgarðr segir:

Inn var í sem brynni
iðlíkt sjá miðjan

1) ekki fýsumk vér 2) *mgl.* 3) hœfi 4) Magnús einn 5) fór við þat Haraldr 6) þau bæði lönd herja 7) *mgl.* 8) [ *mgl. A, tilf. efter B* 9) *mgl.*

eldr, þá er yðrum hélduð,
ormsmunn, skipum sunnan.
Skeið bar skolt hinn rauða,
skein af gulli hreinu,
dreki fór dagleið mikla
dúfu braut und húfi.

Ræðr þú, en ræsir œðri
rístr aldri sjó kaldan,
(sveit tjór[1] sínum dróttni
snjöll) Noregi öllum.

Hér segir hversu Haraldr kom [fyrsta sinn í Noreg[2] frá því er hann fór or landi ok út til Miklagarðs.

[En er Haraldr kom austan í Vík[3], þá gékk hann af skipum 168.
sínum, ok fór upp á Upplönd til óðala sinna, þar sem faðir hans hafði ríki haft, ok beiddisk þar at bœndr gæfi hánum konungs nafn eptir því sem hann var [réttiliga til borinn[4], en þat þorði engi maðr at gera fyrir ríki Magnúss konungs, at láta heita annan[5] konung í landi at hánum lifanda. Þaðan[6] fór Haraldr norðr í Guðbrandsdali, átti þar þing ok beiddisk [at hánum væri gefit konungs nafn[7]. Þar var til einn maðr[8] er þat gerði, sá [er menn kölluðu Þóri af[9] Steig, er síðan var mikill höfðingi; þá var hann 15 vetra, er hann gaf Haraldi konungsnafn fyrst í Noregi. Haraldr konungr gaf hánum þegar í stað mösurbolla gyrðan með[10] silfri, ok yfir gyltr kilpr, ok fullan[11] af brendu silfri, ok enn gaf hann hánum tvá gullhringa ok stóðu báðir saman[12] mörk, ok þarmeð skikkju sína, [en þat var brúnt purpurea, ok ofan á þetta hét hann hánum[13] miklum metnaði [ef hann yrði ráðandi ríki[14]. Þá fór Haraldr konungr með flokki um Upplönd, var þá Haraldr kallaðr konungr af bóndum. Sveinn fór þá ok með herskipum um Smálönd í Danaveldi.

[Nú frá þessi tíðendi öll, er nú var ífrá sagt[15], Magnús konungr, 169.
ok með ráði allra höfðingja snéri hann herinum til Noregs ok vildi þat land fremst[16] verja, kom í Víkina ok spurði, at Haraldr konungr fór ofan í móti hánum með liði. Nú kómu við beggja vinir ok frændr ok báru sættarboð í millum konunganna, ok kom þá svá, at þeir frændr skyldu finnask í griðum; var þá [stefnd veizla rík[17] þar sem Akr heitir, ok skyldi Magnús konungr veita þrjá daga Haraldi [ok 40

[1]) tér [2]) til Noregs [3]) [þá er hann kom í Víkina [4]) borinn til [5]) mann *tilf.* [6]) þá [7]) þar konungsnafns [8]) af bóndum *tilf.* [9]) Þórir á [10]) af [11]) var bollinn fullr [12]) *mgl.* [13]) þá er í var brúnn purpuri; hét hánum ok [14]) í sínu ríki [15]) Öll þessi tíðendi spurði [16]) fyrst [17]) stefnt ok ætlat til ríkrar veizlu

manna með hánum[1]. En hinn fyrsta dag veizlunnar[2] ok síðan er borð [höfðu upp farit[3], þá gengr Magnús konungr út or stofunni, ok litlu síðar kom hann inn aptr, ok géngu menn eptir hánum ok sumir fyrir með stórum byrðum. Menn Haralds höfðu skipat annan pallinn. Þá gékk konungr at yzta[4] manni ok gaf sverð gott, öðrum skjöld, hinum þriðja kyrtil eða klæði eða gull[5]; þeim gaf hann stœrri gjafir er tignari váru, ok síðan kom hann fyrir frænda sinn Harald ok hafði í hendi sér tvá reyrteina fagra ok mælti:[6] „Hvárn tein vili þér þiggja af oss at gjöf?“ [Þá svaraði Haraldr: „Þann er oss er nærri.“ Þá mælti Magnús konungr[7]: „Með þessum reyrsprota gefum vér þér hálft Noregsveldi með öllum sköttum ok skuldum ok allri eign, með þessum formála at þú skalt vera jafnréttr konungr í öllum stöðum sem ek, en þá er vit erum báðir saman, þá skal ek vera fyrirmaðr í heilsan ok [at þjónkan ok sæti[8]; ef þrír eru tignir menn, þá skulum vér í miðju sitja; vér skulum ok hafa konungslægi [í höfnum[9] ok konungs bryggju; þér skuluð ok styrkja ok styðja várt veldi, fyrir þat er vér höfum gört yðr. Þann mann í Noregi, er vér hugðum at eigi skyldi vera, meðan
174. várr hauss væri fyrir ofan mold.“ Nú stóð Haraldr upp ok þakkaði vel frænda sínum sœmd ok góða gjöf, ok váru þá allir kátir. En liðnum[10] þrim dögum, þá hefir Haraldr konungr búna veizlu með öllum sínum mönnum, ok bauð til Magnúsi konungi með 4 tugum[11] manna, ok veitti af kappi miklu. Hinn fyrsta dag sinnar veizlu valdi Haraldr konungr gjafir öllum Magnúss konungs mönnum; kómu þar þá inn margir fásénir gripir er síðan váru gefnir. Þá er öllum var gefit nema Magnúsi konungi, lét Haraldr taka stóla tvá; settisk hann á annan, en hann bað Magnús konung setjask á annan. Nú váru bornar í stofuna töskur margar ok stórar ok [breitt undir í hálminn[12] klæði, lét þá Haraldr konungr upplúka féhirzlunum[13], ok mælti til Magnúsar konungs: „Þér veittuð oss fyrra dag mikit ríki, er þér höfðuð áðr unnit með sœmd af úvinum yðrum ok várum, tókuð oss til samlags með yðr, ok var þat vel gert, [þar sem þér höfðuð svá mikit til unnit[14]. Nú er í annan stað at sja: vér höfum í útlöndum verit [stundum í nökkurum mannhættum[15] áðr en féngim samnat þessu gulli, [er vér skulum nú[16] skipta í tvá staði; viljum vér nú, frændi, at þér eigið hálft gullit, [með því at þér vilið[17], at vér eigim hálft land með yðr.“ Lét þá Haraldr kon-

[1]) með 60 manna hans [2]) er konungr veitti [3]) váru upptekin [4]) fyrsta [5]) eða vápn *tilf.* [6]) frændi *tilf.* [7]) *mgl. A*, *tilf. B* [8]) þjónustu at sæti [9]) *mgl. A*, *tilf. B* [10]) þeim *tilf.* [11]) 6 tigum [12]) breidd niðr [13]) féhirzlum sínum [14]) ok sómasamliga við oss [15]) ok stundum í mannháskum [16]) en nú skulum vér [17]) *saal. B*; lengr en þér vilið *A*

ungr uppbera gullit [ok fékk til hirzlur[1], [síðan var skipt á millum þeirra[2], þykkir þetta hverjum manni mikil furða, er sér, at í Norðrlönd skal hafa svá mikit gull komit; þetta var þó reyndar Girkjakonungs auðr[3], svá sem menn segja at þar eru hús full af rauðu gulli. Nú eru konungar allkátir[4]; kom þá upp eitt mikit staup svá sem mannshöfuð; tók þat Haraldr konungr upp ok mælti: „Frændi, hvar er þat gull [er þér reiðið hér í mót þessum kamphöfða[5]?" Þá svaraði Magnús konungr: „Svá hefir úfriðr ok stórir leiðangrar hagat [at náliga alt gull ok silfr er gefit hirðmönnum, ok er nú eigi meira gull í várri varðveizlu[6] en hringr þessi", er hann tók af hendi sér ok fékk í hönd Haraldi. Hann leit á ok mælti: „Þetta er lítit gull, frændi! þeim manni, er tveim konungs ríkjum hefir stjórnat, ok enn munu sumir ifask í, hvárt þér eiguð þenna hring." Þá svaraði Magnús konungr áhyggjusamliga: „Ef þenna hring eigum vér eigi at réttu, þá vitum vér eigi hvat vér höfum rétt fengit, fyrir því at Ólafr hinn helgi gaf oss hringinn at hinum efsta skilnaði." Þá svaraði Haraldr konungr hlæjandi: „Satt segi þér, konungr! faðir yðarr gaf yðr hring þenna ok tók áðr af feðr várum fyrir litla sök; ekki var þá smákonungum gott í landi, er faðir þinn[7] var sem ríkastr." Nú skildu þeir veizlu með því at 12 hinir vitrustu menn af hvárs liði unnu sættareiða [ámilli konunganna[8], ok skiljask þeir með vináttu, stýra ríkinu um vetrinn, ok váru báðir í Noregi, ok hafði sína hirð[9] hvárr. Með þeima hætti segir Þorgils Snorrasunr, vitr maðr, ok kvað sér segja Guðríði dóttur [Guðorms, er var sunr[10] Steigar-Þóris, ok hann lézk[11] hafa sét mösurbollann ok möttulinn, er Haraldr konungr hafði gefit Þóri, ok var þá skorinn til altarisklæðis. Þetta sannar Bölverkr bróðir Þjóðólfs skálds:

Heimil varð (er ek heyrða)
hoddstríðir! þér síðan
grœn, er gull bautt hánum,
grund, ok Magnús funduzk.
Endisk ykkar frænda
allfriðliga milli
sætt, en síðan vætti
Sveinn rómöldu einnar.

[1]) *mgl.* [2]) en síðan skipta millim sín. [3]) eign [4]) *saal. B*; allir kátir *A* [5]) er hér skal ímóti þessum knapp [6]) *saal. B*: at alt gull ok náliga alt silfr gefum vér þat alt hermönnum, er vér tókum af várri varðveizlu, ok er nú eigi meira gull til [7]) yðarr [8]) *mgl.* [9]) sveit [10]) *mgl.* [11]) kvazk.

*Nú tekr Haraldr harðráði konungdóm í Noregi.*

175. Þá er[1] Haraldr Sigurðarsunr tók konungdóm í Noregi með Magnúsi konungi frænda sínum, var liðit frá því er Haraldr hinn hárfagri hafði andazk hundrað vetra tólfrœtt ok tveir vetr. Á þessi stundu höfðu stýrt Noregi þeir höfðingjar, er allir váru komnir af ætt Haralds konungs, nema [Danakonungar ok Svíakonungar[2], ok váru þeir þó af ýmsum ættkvíslum þeim, er frá Haraldi konungi váru komnar. [En síðan er Haraldr konungr Sigurðarsunr tók konungdóm, þá hefir af hans ætt haldizk konungdómr síðan um alt yfir Noregi, þóat nökkut hafi skipzk í kynkvíslir frá hánum[3].

176. Þetta haust bar at svá, at Magnús konungr ok Haraldr konungr fóru með hirð sína austan or Vík ok lágu[4] í höfn einni, ok um daginn eptir var Haraldr búinn at sigla, en Magnús konungr eigi; sigldi þá Haraldr norðr fyrir um daginn, ok er þeir kómu til hafnar, lagði hann sínu skipu í konungslægit. Magnús konungr sigldi síðar um daginn; kómu svá til hafnar, at Haraldr konungr hafði tjaldat ok lá í konungslægi. Þá mælti Magnús konungr, [er þeir höfðu hlaðit seglum[5]: „[Taki menn ok setisk við róðr[6] með endilöngum borðum, en þeir er eigi róa [þá taki til vápna[7], ok með því at þeir vilja eigi fyrir oss á brott leggja, þá skulum vér víst berjask!“ [Nú var svá gert[8], en þegar er Haraldr konungr sá, at Magnús konungr frændi hans réri at með alvæpni ok [létu úfriðliga[9], þá mælti Haraldr: „Höggvi landfestina ok látum slá skipinu; reiðr er Magnús frændi nu!“ Svá gerðu þeir, sló þá skipinu inn ífrá, en Magnús konungr lagði [í lægit[10], en þá er hvárirtveggja höfðu umbúizk, gékk Haraldr konungr á skip Magnúss konungs með nökkura menn. Magnús konungr bað hann velkominn; þá svaraði Haraldr: „Þat hugðum vér, at vér værim með vinum komnir, en nökkut grunaði oss áðan um hríð, hvárt þér munduð svá vilja, ok er þat satt er mælt er, at bernska er brátt geð, ok eigi viljum vér öðruvís virða, en þat[11] væri œskubragð.“ Þá svaraði Magnús konungr: „Þetta var ættarbragð en eigi œskubragð, [fyrir því[12] at ek má muna hvat ek gaf yðr, eða hvat ek varnaða, ok væri þessi litli hlutr tekinn fyrir utan várt leyfi, þá myndi vera brátt annarr; alla sætt viljum vér halda þá er gör er, ok þat sama viljum vér af yðr hafa, er

1) *saal. B; mgl. A.* 2) þá er Dana k. eða Sv. k. réðu fyrir 3) *mgl.* 4) báðir *tilf.* 5) er lagt var seglit 6) setisk menn til róðrar 7) brjóti upp vápn manna 8) Svá gerðu þeir sem hann mælti 9) búinn at berjask 10) sínu skipi í lægit 11) þetta 12) *mgl.*

vér eigum skilt!" þá svaraði Haraldr: „þat er forn siðr, at hinn vitrari[1] 177.
vægir!" ok gékk síðan aptr á skip sitt. En í þvílíkum viðrskiptum[2] fansk þat, at vant var at gæta þeirra sættar, töldu Magnúss konungs menn at hann hafði réttara at mæla, en þeir er uvitrari váru sögðu, at Haraldr væri nökkut svívirðr. Nú sögðu Haralds menn, at eigi var skilt á aðra leið, en Magnús konungr skyldi hafa lægit, ef þeir kœmi báðir jafnsnemma; en [eigi skyldi Haraldr or lægi leggja[3], ef hann kœmi fyrr; töldu þeir Harald hafa gört vitrliga ok vel, en þeir er verr vildu um rœða, þá sögðu at Magnús konungr vildi rjúfa sætt, ok létu at hann alla vega vildi gera úsœmd ok rangt[4] Haraldi konungi. þvílikar[5] greinir gerðusk brátt at umrœðu úvitra manna, ok enn hafa verit fleiri þeir hlutir, er nökkur grein hefir í orðit. Réðu landinu um vetrinn báðir saman.

At vári buðu konungar út leiðangr ok bjoggusk suðr til Danmarkar, 178.
en þat var einum vetri eptir fall Rögnvalds Brúsasunar. Fóru þeir með herinn til Danmarkar suðr á hönd Sveini Úlfssyni, [er þá hafði verit um vetrinn í Danmörku. þá stökk Sveinn or landi[6] ok upp á Svíþjóð. Ok þá er konungar lágu liði sinu suðr við Jótland, fékk Magnús konungr [banasótt bráða[7]. þá er hann var kominn at andláti, gaf hann upp ríki sitt alt[8] frænda sínum. [En því næst andaðisk Magnús kon- 179.
ungr[9]; ok eptir þessi miklu tíðendi, þá átti Haraldr þing við lið sitt, sagði hann ætlan sína, at hann vildi fara til Vébjarga með herinum ok taka þar konungs nafn yfir Danaveldi[10], ok vinna síðan landit, ok taldi þat svá sína eign sem Noregsveldi eptir Magnús konung frænda sinn; bað þá liðit efla sik, ok lét at síðan mundu allan aldr Norðmenn vera yfirmenn Dana. þá svaraði Einarr þambarskelfir, lét sér vera skyldara at flytja lík Magnúss konungs fóstrsunar síns til graptar ok fœra hann feðr sínum, hinum helga Óláfi, en berjask utanlands ok ágirnask annars[11] eign; lauk svá sínu máli, at heldr vildi hann fylgja Magnúsi konungi dauðum en hverjum konungi annarra lifanda. [Nú var tekit lík Magnúss 180.
konungs ok búit um[12] virðuliga, settu umbúnaðinn á konungsskipinu í lyptingunni, bjoggusk þá allir þeir, er fyrir norðan Stað váru, at fylgja[13] líki Magnúss konungs; raufsk nú leiðangrinn, ok sá þá Haraldr konungr þann kost fyrir sér fyrst at sinni, at fara aptr til Noregs

1) vitrasti 2) konunganna *tilf.* 3) [Haraldr væri eigi skyldr at leggja brott or læginu 4) *saal. B;* rán á *A* 5) umrœður ok *tilf.* 6) *mgl. A, tilf. B* 7) bráða sótt 8) Haraldi *tilf.* 9) *saal. B;* En síðan er lykt var líf ok ríki þessar veraldar Magnúss konungs *A* 10) Danaríki 11) annarra manna 12) tóku síðan líkit ok bjuggu um 13) heim til Noregs *tilf.*

ok eignask fyrst þat veldi ok eflask þaðan með liði; fara eptir þetta öllu liðinu til Noregs; var þá Haraldi konungi svarit alt Noregsveldi
181. fyrst á Borgarþingi, ok síðan fór hann at þingum norðr; gékk hánum til handa alt fólk í Noregi. [Nú lét Einarr þambarskelfir með þrœndaher farit verða[1] með líki Magnúss konungs norðr til Niðaróss ok jörðuðu [lík hans í[2] Kristkirkju fyrir utan kórinn. Yfir hans gröf grét [hverr maðr ok margir dyrligir drengir[3]. [Svá segir Oddr Kikinaskáld:

Feldu menn, þá er mildan
mörg tár, í gröf báru,
þung byrðr[4] var sú, þengil,
þeim er hann gaf seima.
Deildisk hugr, svá at héldu
húskarlar grams varla
(siklings þjóð en síðan
sat opt hnípin) vatni[5].

þat segja allir menn á eina lund, at engi konungr hafi jafnvinsæll verit í Noregi sem Magnús góði, ok váru því þessi tiðendi margs manns harmr.

Nú er Haraldr konungr kom norðr í þrándheim, stefndi hann þing átta fylkna á Eyrum; var hánum þá eignat alt landit, ok síðan var hann konungr[6] í Noregi meðan hann lifði. Brátt eptir þetta spurði
182. Sveinn konungr andlát Magnúss konungs; var hann þá kominn [til hests síns, þat var í Skáni í ánni helgu; vildi þá stíga upp ok ætlaði at ríða upp á Gautland[7] ok skiljask við Danaveldi; þá kom maðr til hans ok sagði andlát Magnúss konungs. Hann svaraði þegar: „þau eru mikil tiðendi [svá at víða spyrjask[8], en þat viti guð, ok allir Danir skulu þat spyrja, at annathvárt skal ek fá ríki Danaveldis eða deyja at óðulum mínum!“ [Steig hann á hest sinn ok veik aptr þegar út í Danmörk,
183. ok dreif alla vega lið til hans. Nú fór Sveinn um haustit suðr í Jótland[9], stefndi þá Vébjarga þing ok beiddisk af Dönum konungsnafns; var hann þá tekinn til konungs af öllum Dönum, ok þaðan ífrá kalla menn hann konung, en eigi áðr. þorkell geysa gaf hánum þá konungsnafn í annat sinn. [Létusk þá Danir allítt skulu óttask Norðmanna konung, ok var svá spott um gert[10] at dœtr þorkels geysu skáru akkeri af osti ok

1) Einarr þ. með þrœndaher fór 2) hann at 3) margr dýrligr drengr 4) *saal. rettet:* þing byrðar *A* 5) *Fra [ mgl. B* 6) einvaldskonungr 7) *saal. B;* til hers síns, þat var á Skáni helga ok vildi þá stíga upp ok ætlaði til áreiðar á Gautlandi *A* 8) ef þat er satt 9) steig á hest sinu, veik aptr þegar út í Danmörk, dreif þá lið til hans, lagði þá Danmörk undir sik, fór um haustit suðr á Jótland 10) Létu þá Danir háðuligt um Norðmanna konung. Svá mikit spott var um gert

sögðu at þat myndi yfrit traust fyrir skipum Noregs konungs, þeim er hann kvæmi at vinna Danmörk með. Á hinu næsta sumri eptir bauð út Haraldr konungr af Noregi hálfan almenning at liði ok vistum ok fór suðr til Jótlands, ok herjaði þar um sumarit ok brendi víða. Hann lagði[1] í Goðnarfjörð. Þá orti [hann vísu þessa ok Þjóðólfr[2]:

Látum vér, meðan litlar[3]
líneik veri sínum,
-gerðr- í Goðnar firði,
-galdrs!- akkerin halda.
Sumar annat skal sunnar,
segi ek eina spá, fleini
(vér aukum kaf króki)
kaldnefr furu halda.

[Þessar farar getr ok Bölverkr:

Leiðangr bjóttu af láði
(lögr gékk um skip fögru,
gjálfrstóð er reistu grœði
glæst) um ár hit næsta.
Skokkr lá dýrr á dökkri
-Danir váru þá- báru
(skeiðr sá herr fyr hauðri
hlaðnar) -illa staðnir-[4].

Þá brendi Haraldr bœ Þorkels geysu; váru ok þá dœtr hans bundnar ok leiddar til skipa. Þá var þetta ort:

Skáru jast[5] af -osti
eybaugs Dana meyjar
(þat angraði þengil
þing) akkeris hringa.
Nú sér mörg -í morgun-
mær -hlær at því færi-
œrnan krók or járni
allvalds skipum halda.

Svá segja menn at njósnarmaðr mælti, sá er sét hafði skip Haralds konungs, við dœtr Þorkels geysu: „Þat sögðu þér, Geysudœtr! at Haraldr Noregs konungr myndi eigi þora at koma til Danmarkar, eða hversu ætli þér nú vera munu?“ Hon svaraði: „[Svá var í gærna[6].“ Þorkell geysa leysti út dœtr sínar með miklu fé. [Svá sagði Grani skáld:

[1]) skipum sínum *tilf.* [2]) Þjóðólfr vísu [3]) lillar [4]) *Fra* [ *mgl. B* [5]) *rettet;* oss *A og B* [6]) *saal. B;* svá (í) gjárna sám *A*

Lét aldrigi úti
úsvífr Kraka drífu
hlökk í harða þykkum
Hornskógi brá þorna.
Fila dróttinn rak flótta
fjánda grams til strandar,
auð varð út at greiða
allskjótt faðir Dóttu.

183. Svá hét dóttir þorkels geysu[1]. Haraldr konungr herjaði alt þetta sumar í Danaveldi ok fékk ógrynni fjár, en ekki [var hann ílendr í Danmörku á því sumri[2]. En um haustit eptir fór hann aptr í Noreg ok var þar um vetrinn. Ok þegar it næsta sumar eptir herjaði Haraldr konungr aptr[3] í Danmörk, ok hvert at öðru, ok gerði mörg stórvirki víða[4] í ríkinu. Svá segir Stúfr:

Autt varð Falstr at fréttum;
fékk drótt mikinn ótta,
gladdr var hrafn, en hræddir
hvert ár bœndr váru.

þá var Sveinn konungr ílendr í Danmörku, sat um kyrt [á vetrunum[5] en lá úti um sumrunum með leiðangr sinn, ok [lézk skulu[6] fara með Danaher [til Noregs[7] ok gera þar eigi [minna ilt[8] en Haraldr í Danaveldi. Sveinn bauð Haraldi opt um vetrinn at hann skyldi koma norðan með liði sínu, en Sveinn sunnan, ok [berjask við Elfina[9] til þrautar, ok skipta svá með sér ríkjunum. Tóku nú hvárirtveggja allan vetrinn at búa skip sín ok hafa úti almennings her um várit. þetta sumar kom utan af Íslandi þorleifr fagri ok tók at yrkja flokk um Svein konung, ok spurði, er hann kom til Noregs, at Haraldr konungr var farinn suðr til Elfar í móti Sveini konungi. þá orti hann þetta:

Ván erumk vísa kœnum
vígs, á rakna stígum[10]
örr í odda snerru
Innþrœnda lið finni[11];
þar[12] man enn, hvárr annan
öndu nemr eða löndum,
(lítt hyggr Sveinn á sættir
sjaldfestar) guð valda.

Fœrir reiðr, sá er rauða
rönd hefir opt fyr löndum,

[1]) *Fra* [ *mgl. B* [2]) varð hann ílendr í D. at því sinni [3]) enn [4]) *mgl.* [5]) um vetrinn [6]) hét at [7]) norðr í Noreg [8]) betra [9]) hittask við Elfi ok berjask þá [10]) *rettet for* stígu [11]) *saal. B;* minna *A* [12]) því

breið á Buðla slóðir
borðrökn Haraldr norðan.
En lauks um sjó sœkja
Sveins fagrdrifin steini
glæsidýr, þess er geiri
gullmunnuð, rýðr, sunnan[1].

Fjörs man flestum hersi
fengsæll Dana þengill
(reiðr hefir hann fyr hauðri
hábrynjuð skip) synja,
er húnferils hreina
hlunntamda rekr sunnan
við Hörðagram harðan
hundruð sex til fundar.

Stýrir Úlfs til Elfar
óskmögr skipum fögrum,
sá er hræköstu hæsta
hleðr í Gunnar veðri.
Skullu vé þar er völlu
vápnlauðri drífr rauðu,
regn drepr gauts í gögnum
gullmörkuð Hálfs serki[2].

Nú kom Haraldr konungr til, kveðinnar konungastefnu[3] með her sinn, 184.
ok spurði þá at Sveinn konungr lá suðr við Jótland. Þá mælti konungrinn til Þjóðólfs:

Logit hefir Baldr at Baldri

Þá svaraði Þjóðólfr:

brynþings fetilstinga
-linns- sá er land á sunnar
-láðbrjótr!- fyrir ráða;
sjá man Njörðr inn nerðri
-norðr- glymhríðar borða
-gramr! ertu flestum[4] fremri-
fastmálari hála.

Nú skipti Haraldr konungr liði, lét aptr fara almenning bóndahers, fór síðan með hirð sinni ok lendum mönnum sínum[5], ok hafði þat af bóndum[6] er næst var landsenda[7] austr, ok nú fór hann suðr til Danmarkar ok svá suðr um Vendilskaga ok um Þjóðu suðr, ok gékk þar yfir með herskildi ok brendi ok drap menn. [Svá segir Stúfr:

[1]) *Denne Vise mgl. i A* [2]) *Denne Vise mgl. i A* [3]) ákveðinnar konungsstefnu [4]) frœkn ok [5]) *mgl.* [6]) bóndaliði [7]) landsendanum

Flýðu þeir á þjóðu
þengils fund, á stundum,
stórt réð hugprútt hjarta
(*Haralds önd ofar löndum*)[1]

Ok alt fór hann suðr til Heiðabœjar[2], tók kaupstaðinn upp[3], rænti ok ok brendi allan. Þá ortu menn hans þetta:

Brendr var upp með endum
allr (en þat má kalla
hraustligt bragð, er ek hugða[4])
Heiðabœr af reiði.
Ván er at vinnim Sveini
-vark[5] í nótt fyr óttu-
(gaus heitr[6] logi or húsum)
harm -á borgararmi-.

Þessa minnisk ok Þorleifr fagri, þá er hann spurði [at eigi hafði tekizk orrostan[7] við Elfina:

Hve[8] hefir til Heiðabýjar
heiptgjarn konungr arnat,
fólkrögnir getr fregna
fylkis sveit, hinn er veitat;
þá er til þengils býjar
þarflaust Haraldr austan
ár (þat er ón um væri)
endr byrskíðum rendi.

185. En nú fór Haraldr norðr aptr í Noreg ok hafði 60 skipa, [ok váru stór[9] ok hlaðin[10] af herfangi, er þeir höfðu tekit um sumarit[11]. Ok þá er þeir sigldu norðr fyrir Þjóðu, þá kom Sveinn konungr ofan af landi með miklum her, ok bauð Haraldi [at ganga á land ok berjask við sik[12], en Haraldr hafði lið [meir en[13] hálfu minna, ok bauð þó Sveini konungi at berjask á skipum við sik. Svá segir Þorleifr fagri:

Bauð, sá er beztrar tíðar
borinn varð und miðgarði,
ríkri þjóð at rjóða
randir, Sveinn, á landi.
Þó lézk heldr, ef héldi
hvatráðr konungr láði,
á byrjar val berjask
biltrauðr Haraldr vilja.

[1]) *Fra* [ *mgl. i A* [2]) *saal. B;* Heiðarbœjar *A* [3]) *mgl.* [4]) *saal. rettet efter Kongesagaerne*; heyrða *baade A og B* [5]) *rettet;* verk *A og B* [6]) hár [7]) at Sveinn konungr var eigi kominn til móts við Harald konung ok eigi tekizk bardaginn [8]) *saal. efter Kongesagaerne;* Hversu *B; mgl. A* [9]) *saal. B;* allstór *A* [10]) svá hláðin mjök [11]) síðir [12]) at berjask við sik á landi [13]) *mgl.*

Eptir þetta sigldi enn[1] Haraldr norðr [á leið[2], ok veik austr til Limafjarðar, þvíat svá bægði veðr til, ok herjuðu enn hvar sem þeir fóru[3], ok tóku [at róa sunnan[4], ok lögðusk við Sámsey um nóttina. Ok í sólar upprás, þá lá [myrkvi mikill um eyna alla[5], nú sá þeir annan veg í hafit [sem eldar stórir væri þegar íhjá þeim[6], ok var þá sagt konunginum. Þá mælti hann: „Látið tjöld af skipum ok tökum norðr með róðri! hér er myrkvinn[7] kominn at oss með landinu, en út í hafit man skína sólbjart, ok munu þessir eldar ekki vera af öðru en morginsól man skína á skipabúnað, á stafna eða gylta veðrvita!" Nú 186.
var þetta eptir því sem hann sagði: þar var kominn Sveinn Danakonungr með úvígjan her. Nú eggjaði Sveinn konungr fast sitt lið til eptirróðrar, þegar er þeir sá lið Norðmanna, ok tóku nú Danir eptir at róa, en þeir höfðu skip miklu fljótari ok [sett minnr[8]. Þá sá konungrinn Haraldr, at Danir sóttu þá, ok eigi myndi svá búit hlýða; [í efstu skipa konungsins Haralds þá fór drekinn, er hann sjálfr stýrði[9], ok hann mælti[10] at kasta skyldi viðum[11] ok láta á koma klæði dýr ok aðra[12] góða gripu; en þá var lognveðr[13] ok hóf þetta fyrir straumi. Nú er Danir sá fé sitt reka á hafinu, viku þeir til er [næstir váru, ok þótti þeim þat mjúkara[14] at taka er laust flaut, en sœkja hitt er innanborðs var hjá Norðmönnum, ok dvaldisk með því eptirróðrinn; þá er Sveinn konungr kom eptir með sínu skipi, eggjaði hann [til eptirferðar ok lét þat skömm mikla[15] ef þeir með svá miklum her skyldu [eigi fá vald Norðmanna, er þeir höfðu lið lítit[16], ok tóku nú Danir í annat sinn at róa. Þá sá Haraldr at meira géngu Dana skip, ok bað þá[17] létta sín skip; var þá borit fyrir borð malt ok hveiti ok [stóð með því[18] um hríð. Þá lét Haraldr konungr [taka víggyrðla ok verpla, er þeir höfðu niðr hleypt munngáti or, ok köstuðu fyrir borð[19], ok þar með lét hann kasta herteknum mönnum, [ok þat fólk, er fyrir borð var kastat, vildi æ klifra á verplana[20], ok hóf alt saman fyrir straumi. En þegar er Danir sá þat, þá réru þeir til ok tóku mennina, ok bar við þat Harald konung norðr undan í hafit, [en Danir hendu menn sína af kafi[21]. Nú venda Danir aptr, en Haraldr konungr fór norðr til Noregs. 187.
Um þetta orti Þorleifr:

1) *mgl.* 2) *mgl.* 3) váru 4) sunnar róðr 5) mjörkvi mikill alt um eyna 6) hjá sér sem eldar nökkurir væri 7) mjörkvinn 8) hlaðin miðr 9) síðast fór skip hans, drekinn, er hann hafði sjálfr 10) þá mælti Haraldr 11) fyrir borð trjám 12) annarskonar 13) logn fagrt 14) fyrstir fóru, þótti þat dælla 15) liðit ok taldi skömm vera 16) láta fara Norðmenn í friði, þar sem þeir höfðu fátt lið 17) enn *tilf.* 18) stendr þá í stað 19) kasta fyrir borð viðgyrðla ok verpla tóma 20) festisk þá fólkit við ok upp á 21) er hinir viku skipum sínum til at taka fólkit er á hafinu var

[Allopt frá ek[1] hve elti
austmenn á veg flausta
Sveinn, þá er siklingr annarr
snarlundaðr hélt undan.
Fengr varð þrœnda þengils
(þeir léttu skip fleiri)
allr í eli sollnu
Jótlands hafi fljóta.

Sveinn konungr lagði skipum sínum undir Sámsey, hitti þar á 7 skip [Norðmanna, þat var leiðangrs skip or Víkinni[2]; ok þá er konungrinn kom at þeim, þá báðu þeir sér griða ok buðu fé fyrir sik. Svá sagði þorleifr:

Sætt buðu seggja dróttni
siklings vinir mikla,
svæfðu hjaldr þeir er höfðu
hugstinnir lið minna.
Ok snarráðir síðan
sókn, er orð um tókusk,
-önd var ýta kindum
óföl- bœndr dvöldu.

*Enn um Harald hinn harðráða.*

188. Haraldr konungr var maðr ríkr, stjórnsamr innanlands, ok þat var allra manna mál, at engi konungr hafi verit vitrari á Norðrlöndum. Hann var [manna sterkastr[3] ok vel vígr, framkvæmd hans verka var svá sem lengi hefir verit frásagt, ok liggja[4] niðri miklu fleiri úsagðir hlutir hans afreksverka, [ok eigi viljum ver skrá[5] vitnislausa hluti, þóat vér hafim heyrða, ok þykkir oss betra, at héðan[6] sé viðaukit heldr en þetta sama þurfi aftaka[7]; en saga frá Haraldi er mikil sett í kvæði þau, er íslenzkir[8] menn fœrðu hánum sjálfum[9]. Var hann fyrir þá sök mikill þeirra vinr, ok hann hefir verit allra konunga Noregs vinsælastr[10] við Íslendinga: þá er þar var hallæri, þá leyfði Haraldr konungr fjórum skipum [með mjölvi[11] til Íslands, ok sagði[12] at ekki skippund skyldi dýrra en fyrir hundrað vaðmála; hann leyfði ok utanferð öllum fátœkum mönnum þeim er sér féngi vist[13] um haf, ok [af því[14] nœrðisk mjök þat land [fyrir tilflutnings sakar ok afferðar fátœks fólks[15]. Haraldr

[1]) alt frá hitt [2]) af Víkverjum, þat var leiðangrslið ok bœndr [3]) sterkr maðr [4]) þó *tilf.* [5]) kemr til þess úfrœði vár ok þat at vér viljum eigi skrásetja [6]) áfrá *tilf.* [7]) or at taka [8]) útlenzkir [9]) sjálfir [10]) hollastr [11]) mjölleyfi [12]) kvað á [13]) vistir [14]) þaðan ífrá [15]) til árferðar ok batnaðar

konungr sendi þangat klukku til kirkju þeirrar, er hinn helgi Ólafr konungr hafði [sent viðuna[1] til, ok sett [á þingvelli þeirra.[2] Þvílikt[3] minni hafa menn þar Haralds konungs, ok margar aðrar stórar gjafir, er hann veitti þeim, er hann sóttu heim; Úlf Úspakssun, íslenzkan mann, gerði hann stallara sinn ok veitti hánum hinn mesta metnað, fékk hánum sœmiligt kvánfang, Jórunnu dóttur Þorbergs Árnasunar; þá hafði ok Haraldr konungr gert brullaup til Þóru systur hennar[4]. Úlfr var maðr kynsæll[5], hans sunr var Jón[6] faðir Erlends hímalda, föður Eysteins erkibiskups.

Haraldr konungr ok Þóra áttu tvá sunu, hét hinn eldri Magnús 189.
en hinn yngri Ólafr. Haraldr konungr lét gera Maríukirkju norðr í Niðarósi, lagði til próvendur miklar, ok hann efldi ok staðinn mjök[7] í Niðarósi. Um hans daga váru Arnmœðlingar ríkastir [menn lendir[8] í Noregi. Haraldr konungr varð úsáttr við Einar Þambarskelfi fyrir þá sök, at Einarr vildi jafnask at ríki við Harald konung [alt at[9] Þrœndalögum. Hann kom aldri svá til kaupangs, ok[10] var Haraldr konungr fyrir, at [Einarr hafði minna lið en Haraldr konungr[11], ok þat kapp gerði hann í kaupangi, at hann tók af móti þjóf sannan, ok náði engi maðr at dœma hann, þóat sjálfr konungrinn væri á mótinu. Þá mælti konungrinn þetta, svá at mjök margir menn heyrðu:

Rjóðandi man ráða
randabliks or landi
oss, nema Einarr kyssi
öxar munn inn þunna.

Þat segja menn, at Haraldr konungr [hefir kveðit[12] vísu þessa, er hann [sat í loptsvölum nökkurum, en[13] Einarr gékk með[14] langstrætinu ok hafði ekki minna lið en fimm hundruð manna:

Hér sé ek upp hinn örva
Einar, þann er kann skeina
þjálfa[15], Þambarskelfi,
þangs, fjölmennan ganga.
Fullafli bíðr fyllar
-finn ek opt at drífr minna-
hilmis stóls -á hæla
húskarla lið jarli-.

Litlu héreptir lét konungr drepa Eindriða, sun Einars, ok Einar Þambarskelfi, ok var Eindriði manna vaskastr ok görviligstr. Leið svá at

[1]) sendan viðinn [2]) er á þingvelli [3]) þvílík [4]) Jórunnar [5]) stórr [6]) Jóhann [7]) norðr *tilf.* [8]) lendir menn [9]) í . [10]) þar sem [11]) hann hafði eigi mikit lið [12]) kvæði [13]) sá út um loptsvalir hvar [14]) eptir [15]) *rettet for* þjálma

Einari löng heipt, er Haraldr konungr hafði lengi við bundizk, ok stilt sik áðr langa hríð, [svá sem áðr vísar til fyrr í þessu máli[1], ok var þó
190. mörg áminning áðr þeirra millum en svá[2] lykisk. Í þenna tíma váru lendir menn svá kappsamir ok ofkátir, at þegar er þeim líkaði [nökkurr hlutr illa[3] við konung, þá [hljópu þeir or landi til Danmarkar suðr[4] til Sveins konungs, ok görði hann þá mikla menn, [en sumum gaf hann góðar gjafir; sem Þjóðólfr segir:

Frán hefir sveit við Sveini
sinni skipt -til minna-
dáð ok dróttni góðum
-drengspell er þat lengi-[5].

Þá[6] fór Finnr Árnasunr frá Haraldi konungi suðr til Danmarkar, ok gaf Sveinn konungr hánum jarldóm.

191. Nú bauð Haraldr út leiðangri af Noregi, ok fór með liði sínu suðr til Danmarkar at herja. Lá hann suðr við Halland í Lófufirði, ok hafði áðr mikit herjat af Hallandi. Þar hafði Haraldr konungr hálft annat hundrað skipa. [Þar kom at hánum Sveinn konungr með 3 hundruð skipa[7]; þá luktu Danir Norðmenn inni í höfninni, áðr en Haraldr konungr yrði varr við. Þá spurði Haraldr sína menn, hvárt þeir skyldu berjask með hálfu minna liði, eða halda undan? Allir svöruðu á eina lund ok báðu konunginn ráða, ok téðu þat þó allir, at náliga væri úfœrt at berjask. Þá svaraði Haraldr konungr: „Sé ek at þér vilið bíða várs orskurðar[8], ok svá skal vera; en vér höfum lið svá mikit ok fritt, at engum kosti viljum vér flýja, ok heldr skal hverr várr liggja um þveran annan.“ Svá segir Steinn Herdísarsunr, er þá var á skipi Úlfs:

Sagði hitt er hugði
hauklyndr vera myndu,
þar kvað þengill eirar
þrotna ván frá hánum.
Heldr kvað hvern várn skyldu
hilmir frægr en vægja
-menn brutu upp- um annan
-öll vápn- þveran falla.

Steinn sagði ok, hversu mikit lið hvárir höfðu:

Hitti[9] hersa dróttinn
hugstrangr, skipa langra

[1]) *mgl.* [2]) þessa lund [3]) eigi alt at skapi [4]) hlupu þeir af landi í Danmörk [5]) sumum gaf hann gull, sumum aðra sœmd mikla. [6]) Í því bili [7]) *mgl. i B* [8]) atkvæðis [9]) *saal. Morkinskinna;* heitu *A*, hætti *B*

hinn er með hálft beið annat
hundrað Dana fundar.
Næst var þat, er réð rísta
reiðr atseti Hleiðrar
þangs láð mörum þangat
þrim hundruðum sunda.

Þá lét Haraldr konungr blása til samlögu skipunum[1], ok lét víkja út í mót [skipunum Dana í fyrstunni drekanum, er hann sjálfr stýrði, ok þá mælti Úlfr stallari við[2] sína menn: „Leggið fram várt skip hit næsta konunginum[3]!“ Svá segir Steinn[4]:

Hét á oss, þá er -úti-
Úlfr, hákesjur skulfu,
-róðr var greiddr á grœði-
grams stallari alla.
Vel bað skip með skylja
skeleggjaðr fram leggja
sitt, en seggir játtu
snjalls landreka spjalla.

Lét þá Haraldr konungr saman tengja stafna á sínum skipum, ok þá réru Danir at, ok góngu lúðrar með ópi ok eggjan, ok þóttusk þá Danir hafa vald Norðmanna. Þessi orrosta var Lafranzmessu aptan, ok var tekit at berjask síð um kveldit ok var barzk um[5] nóttina. Var Haraldr konungr í fyrirrúminu á skipi sínu ok skaut. Svá segir Þjóðólfr:

Álm dró upplenzkr hilmir
alla nótt hinn snjalli,
hremsur lét á hvítar
hlífar landreki drífa.

Var þá orrostan hörð[6], lagði Sveinn konungr sitt skip ok merki í mót Haralds merki; [þá var Finnr[7] á annat borð Sveini konungi. Þessi orrosta var [aðra leið[8] en Danir ætluðu[9], en Norðmenn stóðu þykt um Harald konung ok börðusk vel. Svá segir Steinn:

Undr er, ef eigi reyndu
örmóts viðir görva
(börðumk vér ok vörðum
víða grund) um síðir,
hvárt hugfyldir halda
(hrafn fékk gnótt í óttu
nás fyr Nizár ósi)
Norðmenn Harald þorðu.

[1]) *mgl.* [2]) liðinu dreka sínum fyrst. Þá kallaði Úlfr stallari á [3]) konungs skipinu [4]) skáld *tilf.* [5]) alla [6]) snörp [7]) þar var fyrir jarl (Finnr jarl?) [8]) annan veg [9]) hugðu

þá veik mannfallit[1] á Dani, ok géngu Norðmenn upp á Dana skeiðir, féllu sumir en sumir flýðu; var þá skip Sveins konungs alt stafna í millum hroðit at skilnaði, sem segir Þjóðólfr:

Flest varð hirð, sú er hraustum
hrafns fœði vel tœði,
dauð áðr en döglingr næði[2],
dökks, á land at stökkva.
[Skóp furðu þá skerði
skipun öll -var þá- snjöllum
hrings -til heljar genginn
hverr[3] fótr konungs[4] Jóta-[5].

Hér segir at Sveinn konungr flýði á land upp með skútu, er flotit hafði við lyptingina. Í þessum þys hjoggu Danir tengsl ok leggja[6] ífrá; var [því hverr[7] fegnastr er [fyrst var brottu[8], en hroðnar váru Dana snekkjur eigi færri en sjau tugir. Svá segir Þjóðólfr:

Sogns kváðu gram gegnan
glæst, sjau tugu hit fæsta,
senn á sviptu einni
Sveins þjóðar skip hrjóða.

Eptir þetta flýðu Danir brott, en Norðmenn sóttu eptir, [þviat þeir mintusk á, hversu Danir ráku þá á[9] Jótlands hafi, ráku þá [suma á land upp, en sumir dreifðusk í fjörðu inn eða út í haf[10]. Var þetta svá mikit mannfall, at engi [kom tölu á[11], ok alt náliga af Dönum. Finnr jarl var handtekinn, ok þá náliga orðinn blindr. Hann settisk niðr í lypting sinni[12], þá er flóttinn brast, ok var síðan tekinn ok leiddr fyrir Harald konung. Svá er sagt, at Sveinn konungr hafði til bardaga[13] með sér sex jarla. Svá segir Þjóðólfr:

Sveinn á sigr at launa
sex, þeim er hvöt vexa
innan eina gunni,
örleiks, Dana jörlum.
Varð sá, er vildit forða
vígbjartr snöru hjarta,
í fylkingu fenginn
Fiðr Árnasunr miðri.

192. Nú var jarlinn settr niðr í fyrirrúmit fyrir Harald konung. Var þá konungrinn allkátr ok mælti svá: „Hér [fundumk vér Finnr, en næsta

1) mannfallinu 2) náði 3) *rettet for* hvern 4) *rettet for* konungr 5) *Fra* [ *mgl. A, og er taget af B* 6) lögðu 7) sá 8) er fyrstr komsk á brott 9) minnask þá á róðrinn í 10) flóttann alt þartil er sumt hljóp á land upp, sumt dreifðisk í fjörðu inn, en sumt í haf út 11) fékk talt 12) sína 13) orrostunnar

sinn[1] í Noregi; ok hefir sú hin danska hirðin eigi staðit fyrir[2] þér allfast, ok hafa nú Norðmenn ilt at [sýsla, er þeir[3] draga þik blindan eptir sér ok vinna þat til lífs þér.“ Þá svaraði jarlinn: „Mart verða Norðmenn ilt at vinna, en þat verst alt er þú býðr þeim.“ Þá spurði konungrinn: „Viltu hafa grið, þóat úmakligt sé?“ Þá svaraði jarlinn: „Eigi af hundinum þínum!“ „Viltu þá af Magnúsi frænda þínum?“ Hann stýrði þá skipi. Þá svaraði jarlinn: „Hvat man hvelpr sá [griðum valda[4]?“ Þá hló konungrinn ok þótti gaman við hann at eiga, ok mælti: „Viltu taka grið af Þóru frændkonu þinni?“ Hann svaraði: „Er hon hér?“ Konungr sagði: „Já! hér er hon.“ [Þá mælti Finnr eitt orðskrök, þat er síðan er uppi haft, hversu reiðr hann var, er hann fékk eigi stilt orðum sínum: „Eigi er undarligt,“ sagði hann, „at þú hefir vel bitizk um, er merrin fylgði þér[5]!“ Finni jarli váru þá grið gefin, ok var hann með Haraldi konungi um hríð. Með Haraldi konungi váru í Nizárorrostu synir hans báðir Magnús ok Ólafr, Eysteinn orri ok Hákon Ívarssunr.

Sveinn konungr flýði upp á land með annan mann, ok kómu til kotbœjar eins, fyrir þá sök at Norðmenn leituðu hans um stórþorpin[6]. En þar var ein gömul húsfreyja, hon spurði hvat mönnum þeir væri. Konungrinn bað þann svara, er fylgði hánum, ok fyrir þá mæla. Þá svaraði sá kerlingu: „Vit-erum nú [farandi menn[7] ok [þurftugir beina yðars[8]“. Þá svaraði kerlingin: „[Munu þit vera[9] svá miklir menn, sem þit látið ríkuliga, en munu þit kunna at segja tíðendi, hvárt konungar þessir hafa barzk nökkut, eða hverju gegnir [glam þetta, er vér höfum eigi ró fyrir haft í nátt[10]?“ Þá svaraði maðrinn, [sá var minni vexti[11]: „Meiri ván ætla ek, at konungar[12] munu barzk hafa.“ Þá spurði kerling: „Hverr hefir betr haft?“ Þá svaraði maðrinn: „Norðmenn hafa sigrazk[13].“ Þá spurði kerling: „Er drepinn várr konungr?“ Hann svaraði: „Á flótta er hann kominn[14].“ Þá mælti kerlingin eitt mikit fólskuorð: „Vesöl erum vér [ok væ er oss fyrir[15], at vér eigum konung hvártveggja[16] ragan ok haltan!“ Þá svaraði [maðrinn, sá er áðr hafði verit fámæltari[17]: „Ætlum hitt, kerling[18]! er líkara[19] er, at konungr man eigi vera ragr, þó er hann eigi sigrsæll.“ [Nú bjoggusk 193.

1) funnumk vit Finnr, en næst 2) *mgl.* 3) orkú at 4) ráða griðum 5) Finnr svaraði: „Eigi er undarligt, at þú hefir vel bitizk í dag, er merrin hefir fylgt þér!" Nú var Finnr svá reiðr, at hann fékk eigi stilt orðum sínum 6) stórbœina ok um þorpin 7) leiðarmenn 8) þurfum beina yðarn 9) Eru þit 10) um brak ok hlamm þat, er vér höfum heyrt í alla nótt?" 11) *mgl.* 12) þeir 13) fóstra! *tilf.* 14) en eigi drepinn *tilf.* 15) fyrir því 16) bæði 17) sá er áðr hafði færra mælt: 18) fóstra! 19) líkligra

þeir til dögurðar, ok[1] tók kerling þeim handlaug, ok þósk þá sá fyrri er síðar gékk, tók síðan miðjan dúkinn ok [vildi þerra sik á[2]. Kerlingin þegar þreif til ok hnykti af hánum, „tak," sagði hon, „endann handklæðisins, ok ger eigi alt[3] vált!" En [hann svaraði[4]: „þetta má enn vera[5], ef guð vill, at vér fáim svá mikinn sóma, at vér þerrim
194. oss á miðjum dúki." þetta er gamans frásögn ok eigi mjök söguligt nema fyrir þá sök, at hér er lýst [speki konungsins ok úvizku kerlingarinnar[6], ok í annan stað er sagt ífrá Haraldi konungi ok Finni jarli: þar vægði sá er valdit átti, var hánum ok þat vegr ok eigi lítilræði. [Finnr jarl sýndi þat, hversu úvæginn hann var, hann mælti þá ekki annat í því en jafnlyndi sitt, fyrir því at hann mælti vel til Sveins konungs, er þá hafði hann þjónat, en harðliga til þeirra, er þá barðisk hann í gegn[7]; en konungrinn virði þetta sem barns orð, hafa ok allir svá virt síðan.

195. Nú fór um haustit Haraldr konungr aptr til Noregs með sigri ok herfangi. Nú efldisk ok Sveinn konungr ok fékk ríki sitt. Litlu síðar fór til Danmarkar mikill höfðingi, Hákon Ívarssunr jarl, er þá átti Úlfhildi dóttur Magnúss góða, ok dvaldisk þar um hríð með Sveini konungi. Hann barðisk í mót Haraldi konungi suðr á Jótlandi, þá hafði Hákon merki þat, er átt hafði Magnús góði. Fékk þar Haraldr sigr, en Hákon kom á flótta ok týndi mestum hluta liðs síns.

Nizárorrosta var á 16da ári ríkis Haralds konungs. Litlu áðr en Nizárorrosta væri, varð Haraldr konungr úsáttr við Upplendinga: töldu[8] þeir, at Ólafr konungr hafði gefit þeim réttarbœtr í mörgum stöðum [meiri en[9] öðrum landsmönnum í Noregi bæði um útgerðir ok [aðrar álögur, ok marga hluti aðra þeim til sœmdar mælt ok gört umfram aðra landsmenn sína[10] fyrir þá sök, er Upplendingar höfðu veitt hánum lið, þá er hann vann undir sik allan Noreg, ok [af því stökk Sveinn jarl[11] or landi. En þetta líkaði eigi Haraldi konungi, [at eigi skyldi einn[12] konungsréttr um allan Noreg vera. Svá segir þjóðólfr:

Létu[13] lystir sleitu
landkarlar gram varla

[1]) áðr en þeir fœri til matar [2]) þerði sér [3]) senn *tilf.* [4]) þá svaraði sá hinn þögli maðrinn [5]) fóstra! *tilf.* [6]) grein speki ok óvizku [7]) Jarlinn sýndi þat, hversu hann var í skaplyndi, en eigi mátti hann þá annat en mæla vel til Sveins konungs, er áðr hafði hann þjónat, ok hart til þeirra er áðr hafði hann á móti verit [8]) sögðu [9]) fyrir [10]) mörg landráð undir bœndr mælt, þau er eigi váru öðrum stöðum í landi. Töldu Ólaf konung hafa veitt sér þessa sœmd eptir Nesjaorrostu [11]) Sveinn jarl stökk or landi [12]) ok sagði, at einn skyldi [13]) *saal. B;* létuð *A*

(gerði öld á jörðu
ódœmi) lög sœma.
En, því ráði þjóðar,
þeim brutu troll, er ollu,
hæls í hleypikjóla
hrís andskotum[1] vísa.

Haraldr fór[2] upp á Raumaríki ok brendi víða bygðina. Svá segir Þjóðólfr:

Tók hólmbúa hneykir
harðan taum við Rauma;
þar hygg ek fast ins frægsta
fylking Haralds gingu.
Eldr var görr at gjöldum[3],
gramr réð; en þá téði
hár í hóf at fœra
hrotgarmr bœndr arma.

Þaðan fór hann upp á Hringaríki ok brendi þar. Frá því segir enn Þjóðólfr, hversu þeir vikusk undir konunginn:

Lífs báðu sér liðar;
logi þingaði Hringum
nauðgan dóm, áðr næmisk[4]
niðrfall Hálfs galla.

Eptir þetta sættusk bœndr við konung, ok héldu lög eptir konungs orðum ok öll hans boð. Svá segir Þjóðólfr:

Lýtr fólkstara feiti
-fátt er til, nema játta
þat, sem þá vill gotnum-
þjóð öll -konungr bjóða-.

Á hinu þriðja ári eptir Nizárorrostu gerðisk sætt í milli Haralds 196.
konungs ok Sveins konungs með ráði [hinna vitrustu manna í Noregi ok Danmörku með þeima hætti, at hvárr skyldi hafa frið ok frelsi í sínu ríki, ok ágirnask hvárgi á annars eign[5], ok skyldi þar hvárgi öðrum bœta, skyldi þar hernaðr leggjask sem [upp hafðisk[6], ok sá [hafði þar[7] happ er hlotit hafði; en þessi friðr skyldi standa, meðan þeir væri konungar. Svá segir Þjóðólfr:

Fœrði fylkir Hörða
(friðr namsk) árit þriðja
(rendr bitu stál fyr ströndu)
starf til króks at hvarfi.

[1]) *saal. B;* andskota *A* [2]) með liði *tilf.* [3]) gjaldi [4]) næði [5]) allra Norðmanna ok Dana með því, at hvárr konunga skyldi stjórna sínu ríki ok hafa í frelsi, Haraldr konungr Noreg, en Sveinn konungr Danmörk [6]) hafzk hafði [7]) hafa

197. Á nítjánda ári ríkis Haralds konungs andaðisk [Eðvarðr konungr í[1] Englandi fimta dag jóla, ok tóku Englar til konungs Harald sun Goðvina Úlfnaðrssunar[2] ok Gyðu, dóttur þorkels sprakaleggs. Hann var vígðr til konungs í Lundúnum í Páls kirkju áttanda[3] dag jóla. Eðvarðr[4] konungr átti[5] Gyðu Goðvina dóttur, ok áttu þau ekki barn; þá hvarf konungdómr í Englandi or ætt Aðalsteins góða. Tosti jarl, hann var sunr Goðvina ok þóttisk eigi vera[6] verr til kominn ríkisins en Haraldr, ok vildi hann vera í kosningi fyrir öllum landsmönnum við bróður sinn, beiddisk hann, at allir landshöfðingjar ok allr lýðr skyldi kjósa þann til konungs, er þeir vildu heldr hafa, ok var þat margra manna mál, at Tosti væri vitrari maðr ok eigi verr til konungs fallinn; en Haraldr þóttisk nærmeir konungdóminum, er hann hafði nafnit ok stólsetningina[7] þegit ok konungs vígslu; hann hafði hallir ok féhirzlur konungs, ok vildi hann fyrir því eigi láta ríkit, at hann hafði alt afl landsins.
198. Nú fann Haraldr úþokka[8] bróður síns, þá þröngði hann hánum or landi, ok fór Tosti jarl til Danmarkar á fund Sveins konungs frænda síns, ok bað hann fá sér traust ok afl at fá sœmd sína. Sveinn konungr bauð hánum at taka af sér ríki í Danmörku. þá svaraði Tosti: „Vili þér eigi fá oss styrk ok afl til af yðru ríki, at vér fáim vára sœmd? ok viljum af yðru afli ok várri forsjá vinna England, sem Knútr gerði móðurbróðir yðarr, ok þat ríki er oss er hollast í Englandi.“ þá svaraði Sveinn konungr: „Svá miklu minni em ek ráðamaðr en várr frændi gamli Knútr, at varla fæ ek haldit Danaveldi fyrir Norðmönnum, en gamli Knútr eignaðisk at erfð alt Danaveldi, en með her ok hamingju England, ok var um hríð eigi þat úvænna, at hann myndi þar eptir liggja, en Noreg fékk hann orrostulaust; nú kunnum vér ætla oss hóf meira eptir váru lítilræði en eptir framkvæmd várs frænda, gamla Knúts.“ þá mælti Tosti jarl: „Frændr várir gerask oss fjándr, þeirra fjándmenn skulu þá vera várir frændr!“ Skildisk jarlinn svá frá Dana-
199. konungi, at þeir váru báðir reiðir. En nú vendir Tosti ferðinni aptr til Noregs, ok hittir þar Harald konung ok kærir fyrir hánum sinn vanda, ok bauð hánum sína þjónustu ok sitt samlag; finnask þar nú miklir spekingar, talar hvárr til annars blíðliga; talaði konungr um mikla hörmung jarlsins, at[9] hann skyldi frá vera spyrndr sínu ríki at saklausu. Jarlinn hóf þar upp, er Hörðaknútr sunr gamla Knúts stýrði Englandi, ok hversu farit hafði svardagi milli Magnúss konungs ok Hörðaknúts, ok þar næst at Magnús konungr var orðinn réttr arfi

[1]) Játvarðr góði á [2]) *saal. B*; Ulmarssunar *A* [3]) átta [4]) Játvarðr [5]) hafði átta [6]) *her begynder fjerde Lacune i B* [7]) *saal. Morkinskinna*; stólsettr *A* [8]) áhuga *Morkinskinna* [9]) *rettet;* ok *A*

Hörðaknúts, ok hversu hann gerði mikla miskunn við Eðvarð konung, er hann heimti eigi eign ok ríki þat er var í Englandi, svá sem þat er var í Danmörku; „nú hugðum vér engan annan arfa Magnúss konungs alinn en yðr, herra, eða hversu ætli þér at satt sé,“ sagði jarlinn. Í þessa rœðu hugði Haraldr konungr vandliga, áttu þeir margar stefnur ok lauk svá þeirra tali, at Tosti jarl sór sik í vald Haralds konungs ok hét konungi fylgð ok föruneyti vestr til Englands. Konungr hét hánum í móti ríki ok yfirlæti því meira, er ríki efldisk hánum meira. Þessi rœða var í hvers manns húsi ok þó optast í konungs hirð, hversu ferð Haralds konungs myndi verða til Englands; telja menn þat upp, hversu mörg stórvirki Haraldr konungr hafði unnit, ok sögðu at hann myndi nú sem fyrr engan hlut finna úfœran fyrir sér. Sumir mæltu þat, at England er ríki fjölment, þar var ok þat lið er kallat var þingamenn, þat hafði valzk af mörgum löndum ok þó mest af danskri tungu, ok svá eru þeir reyndir ok vanir við orrostu, at eins lið þingamanns var betra en tveggja Haralds manna.

En á því sumri andaðisk Úlfr stallari, ok þá er konungr gékk 200.
frá grepti hans, þá mælti hann þat er dýrligt vitni var Úlfi: „Hér liggr nú sá er drenglyndastr var ok dróttinhollastr!“ Þá gerðisk Styrkárr stallari einn, en áðr höfðu þeir báðir verit.

Um vetrinn ofanverðan á móti várinu sendir Haraldr konungr 201.
boð um alt ríki sitt, at herr skal búask or landi um sumarit at liði ok skipum, nefndi or hverju fylki hverir fara skyldu. Nú segja svá allir þeir, er þessi frásögn ok ferð var kunnig, at eigi hafi betra mannaval verit búit til einnar ferðar or Noregi. Konungr lét búa byrðinga ok svá skútur með ótal vista; en Magnús sun sinn setr hann eptir til landsgæzlu, en Ólaf sun sinn hafði hann með sér. Þá er Haraldr konungr bjósk til þessar ferðar, þá urðu mörg vísendi sýnd mönnum í draumum. Nú er Haraldr konungr hafði lagt til hafs með albúnum skipum ok her, þá dreymdi hann sjálfan, at hánum þótti maðr koma at sér, ok þóttisk hann kenna Ólaf bróður sinn. Sá maðr kvað vísu þessa fyrir konunginum:

Gramr vá frægr til fremdar
flestan sigr hinn digri,
hlaut ek, því at heima sátum,
heilagt fall til vallar;
uggi ek at, tiggi!
yðr er feigð um byrjuð;
trolls gefið fákum[1] fylli
fíks; veldrat guð[2] slíku.

[1]) *rettet;* frœknum *A* [2]) *rettet;* gerð *A*

En þá dreymdi stafnbúa hans, at hann þóttisk sjá konu eina ok meiri en mennskir menn, hon reið vargi ok hafði rauðan skjöld ok kvað þetta:

Skœð lætr skína rauðan
skjald, en dregr at hjaldri,
brúðr[1] sér Aurnis jóða
úfór konungsins görva.
[sviptir í sveiflandkjapta[2]
svanni holdi manna,
úlfs munn litar innan
óðlát konan blóði.

202. Nú sigldi Haraldr konungr fyrst til Orkneyja, lét þar eptir Ellisif konu sína ok Maríu dóttur sína; hann hafði þaðan með sér Pál jarl sun Þorfinns jarls ok Ingibjargar, dottur Finns jarls Árnasunar. Þaðan hélt Haraldr konungr suðr herinum til Englands, kom at svá, at hann hóf landgöngu þar sem heita Kliflönd, flýði alt undan; hann tók af landinu gísla ok skatta, ok fór svá suðr til Skarðaborgar, vann hana með eldi, lagði undir sik alt land norðan. Þaðan hélt hann flotanum suðr til Humru, ok lagði upp eptir ánni til Úsu. Þar kómu ímóti hánum Norðumbra jarlar, [Morokári ok Valþjófr jarl or Hundatúni[3] ok höfðu her úvígjan, er saman hafði dregizk alt haustit. Haraldr konungr veitti viðrtöku ok gékk upp á árbakkann ok fylkti þar, ok lét horfa fylkingararminn at ánni en annan at díki nökkuru, en þat var djúpt ok fult af vatni. Þeir jarlarnir létu síga fylking með öllum múginum með ánni fyrir ofan konungsmerkit; var þar þykkvast, en þunnast með díkinu. Þá er litla hríð hafði verit barzk, þá veik sá fyrir armrinn, er til díkisins vissi, á fylkingu Haralds, ok sóttu þá fast enskir menn at, í því er þeir ætluðu at Norðmenn mundu flýja. Haraldr konungr með sína fylking gékk at svá fast, at alt stökk fyrir á tvá vegu, gerðisk þá flótti í landsherinum, ok veik þá armrinn út í díkit er næst var. En Morokári[4] hafði farit með því merki er næst var díkinu, en Valþjófr jarl flýði or orrostunni ok upp með ánni, ok þat eitt kom undan er hánum fylgði. Þar féll Morokári ok svá þykt um hann, at díkit var fult af dauðum mönnum. Svá segir Steinn:

Þjóð fórsk mörg í móðu,
menn druknuðu sokknir,
drengr lá ár um ungan
úfár Morokára.

[1]) *rettet;* breiðr *A* [2]) *rettet;* svift hefir sveifland gæfta *A* [3]) *rettet;* Motokari oc Handatuni *A.* [4]) Motokari *fremdeles baade her og nedenfor A*

Firða dróttinn rak flótta
framr, tók herr á ramri
rás fyr röskum vísa;
ríklundaðr hélt undan.

þetta orti hann um Ólaf, ok var þetta Matheusmessu aptan, ok stóð hon þá á þórsdegi. þeir Morokári ok Valþjófr váru brœðr Haralds Goðvinasunar.

En eptir þessa orrostu gékk undir Harald konung lið alt um 203.
hin næstu heruð, en sumt flýði. Nú byrjar Haraldr konungr ferð sína at vinna borgina Jork, ok lagði hann herinum skamt ífrá Stanfurðubryggju, fyrir því at konungr hafði unnit svá mikinn sigr við stóra höfðingja, at mesti hluti hers hafði orðit svá hræddr[1], at eigi þorði gagnstöðu at veita, ok gerðu borgarmenn þat ráð fyrir sér, at senda boð Haraldi konungi með liði at bjóða í vald hans sjálfa sik ok svá borgina. Var þetta alt boðat svá, at sunnudaginn játtuðusk allir hinir ríkustu undir Harald konung ok féngu hánum gisla, sunu tiginna manna, fyrir því at Tosti jarl kunni þeirra allra skyn, er í váru borginni. En um kveldit eptir fór Haraldr konungr til skipa með sjálfgörvum sigri,
ok allir þeir váru þá í mikilli kæti. En um morguninn, mánadaginn, 204.
var stefnt þing í borginni; skyldi þá Haraldr skipa staðinn með ríkismönnum ok gefa réttu ok lén. En kom sunnan þat sama kveld at borginni Haraldr Goðvinasunr með úvígjan her, ok reið þegar í borgina at vild ok þokka allra borgarmanna; váru þegar tekin öll borgarhlið ok allir vegir, fyrir því at eigi skyldi njósn koma Norðmönnum, ok var þessi herr um nóttina í staðinum. Mánadaginn, síðan er Haraldr konungr hafði matazk at dögurði, þá lét hann blása til landgöngu, ok býr þá ok skiptir liðinu, hverir fara skyldu eða hverir eptir vera; lætr hann upp ganga or hverri sveit tvá, þar sem einn var eptir. Nú býr Tosti jarl sik til uppgöngu með Haraldi konungi, ok sveit sína, en eptir váru til skipagæzlu Ólafr konungssunr ok Eysteinn orri, sunr þorbergs Árnasunar, er þá var ágætastr ok í mestu yfirlæti konungsins allra lendra manna; þá hafði Haraldr konungr heitit hánum Maríu, dóttur sinni. En þann dag var veðr heitt af sólu, ok lögðu eptir brynjur, en géngu upp með skjöldum ok sverðum, hjálmum ok spjótum, en sumir
höfðu boga, ok váru allir í mikilli kæti. Nú er þeir váru næsta at 205.
komnir borginni, þá sá þeir ríða í móti sér lið mikit, ok sá þeir þar marga fagra hesta ok undir fagra skjöldu ok hvítar brynjur. Nú staddi konungr lið sitt ok lét kalla til sín Tosta jarl, ok spurði hvat liði þat mundi vera. Jarlinn svaraði ok lézk þykkja meiri ván úfriðar, sagði

[1]) *rettet;* hrætt *A*

ok at vera mundu nökkurir frændr hans, eða þeir er leita vilja með vægð ok vináttu til konungs „ok bjóða yðr í móti traust ok trúnað.“ þá mælti konungr: „Vér skulum halda kyrru liði váru, fyrir því at oss forvitnar at vita hvat liði þetta sé.“ Nú sýndisk þeim þetta lið þess at meira er nálægra kom, ok var alt at sjá sem á ísmöl, er vápnin glóðu. þá mælti Tosti jarl: „Tökum nú nökkut gott ráð ok vitrligt, fyrir því at ekki er at dyljask, at úfriðr er, ok man vera konungr sjálfr.“ þá spurði Haraldr konungr: „Hvert er yðart ráð?“ Jarlinn svaraði: „þat hit fyrsta, at snúa aptr til skipa sem skjótast eptir liði váru ok vápnum, ok veita þó viðrtöku eptir efnum, en at öðrum kosti gæta skipanna at eigi eigi riddarar þeirra vald eða vár.“ þá svaraði konungrinn: „Annat ráð viljum vér hafa: setjum hina skjótustu hesta undir þrjá vaska drengi, ok ríði þeir sem hvatligast ok segi sem fallit er, ok man oss þá koma lið af várum mönnum; fyrir þá sök at Englar skulu enn eiga snarpar hríðir, áðr en vér berim lægra hlut!“ þá svaraði Tosti: „þér skulúð ráða þessu sem öðru!“ lézk ok eigi vilja gjarnari
205. flýja en einnhverr annarra. Nú lét Haraldr konungr uppreisa merki sitt, þat er landeyða hét, en Friðrekr hét sá er merkit bar. En í annan stað setti Tosti jarl sitt merki. þá mælti Haraldr konungr: „þegar er Englar ríða at yðr“, sagði hann, „þá skjótið niðr spjótshölum yðrum i jörð, en setið svá hátt oddana, at gegni miðjum manni; en þeir er eptir standa í fylkingunni, seti ok sína spjótshala í jörðina ok oddana fyrir brjóst hesta þeirra; nú setjum svá allir kesjur várar fyrir þá, ok bogamenn veri armana á bak fylkingunni, ok stöndum fast ok miðlum ekki fótsporum, nema mundum æ fram!“ En þá er fylkt var, þá var ok kominn herr Engla; stöddu þeir ferðina er í fyrstu riðu, ok biðuðu þeirra er eptir fóru.

206. Haraldr konungr Sigurðarsunr reið svörtum hesti blesóttum fyrir framan fylking sína, ok sá hversu liðit stóð, ok skipaði þeim framar er þá vildi hann, ok í þessi reið féll hestrinn undir hánum ok konungrinn fram af, ok mælti: „Fall er farar heill.“ þá mælti Haraldr Englakonungr við Norðmenn, þá er með hánum váru: „Kendu þér þann hinn mikla með þeim blá kyrtli ok hinn fagra hjálm, er þar skaut sér af hestinum fram?“ þeir svöruðu konunginum: „Var þat Norðmanna konungr.“ þá mælti Englakonungr: „Mikill maðr ok höfðingligr er hann, ok hitt er nú vænna, at farinn sé at hamingju.“ Nú ríða fram tuttugu riddarar fyrir fylking Norðmanna, ok allir albrynjaðir. þá mælti einn riddarinn: „Hvar er Tosti jarl, hvárt er hann í liði eða eigi?“ Hann svaraði: „Eigi er því at leyna, hér munu þér hann finna mega!“ þá mælti enn riddarinn: „Haraldr konungr bróðir yðarr sendi yðr kveðju

ok þarmeð þat, at þér skuluð hafa grið ok Norðumbraland alt, ok enn vill hann heldr, en þit berizk, gefa yðr þriðjung ríkis síns með sér.“ þá svaraði jarlinn: „Boðit er þá nökkut annat en úfriðr ok svívirðingin sem í vetr, ok ef þetta væri fyrr boðit, þá væri margr maðr sá heill ok með lífi, er nú er eigi, ok þá man eigi standa verr ríki Englands; nú tökum vér þenna kost, en hvat vili þér nú bjóða Haraldi konungi fyrir sitt starf?“ þá svaraði riddarinn: „Sagt hefir hann þar nökkut af, hvers hann man hánum unna af Englandi: han skal hafa 7 feta lengð, ok því lengra sem hann er hærri en aðrir menn!“ þá svaraði jarlinn: „Farið nú ok segið Haraldi konungi, at hann búisk til orrostu, fyrir því at annat skal sannask en þat sem Norðmenn sögðu, at Tosti jarl mundi svíkja Harald konung ok skiljask við hann, þegar hann skyldi berjask um, ok fylla þó flokk fjándmanna hans; en heldr skulum vér nú allir taka eitt ráð, deyja heldr með sœmd, eða fá England með sigri!“ Nú riðu riddarar aptr. þá mælti Haraldr konungr Sigurðarsunr til jarlsins: „Hverr var þessi hinn snjalli maðr?“ þá svaraði jarlinn: „þar var Haraldr konungr Goðvinasunr.“ þá mælti Haraldr konungr: „Oflengi var ek þessu leyndr; þeir váru svá komnir fyrir lið várt, at eigi myndi þessi Haraldr kunna segja dauðaorð várra manna. „Satt er þat, herra!“ sagði jarlinn, „úvarliga fór þvílíkr höfðingi, ok vera mætti þetta er nú segi þér, sönnum vér þat; en hann vildi þó bjóða brœðr sínum grið ok mikit vald, ok væra ek víst þá kallaðr verri höfðingi, þó at þann kost tœkim vér heldr, en ek biðaða svá elli at ek væra banamaðr bróður míns, en þó er betra at þiggia bana af brœðr sínum en veita hánum bana.“ „Lítill konungr var þessi“, sagði Haraldr konungr, „ok stóð vel í stigreip sín.“ þat segja menn at Haraldr konungr kvæði vísu þessa:

Fram géngum vér
í fylkingu
brynjulausir
með blár eggjar;
hjálmar skína,
hefkat ek mína,
nú liggr skrúð várt
at skipum niðri.

Emma hét brynja hans; hon tók ofan í mitt bein hánum, ok svá sterk, at eigi festi vápn á henni. þá mælti Haraldr konungr: „þetta er illa ort, ok skal gera nú aðra vísu betri“, ok kvað þá þetta:

Krjúpum vér fyr vápna
-valteigs- brökun eigi
-svá bauð hildr- at hjaldri
-haldorð- í bug skjaldar.

Hátt bað mik, þar er mœttusk,
menskorð bera forðum,
Hlakkar íss [ok hausar[1],
hjálmstall í gný málma.

Þá orti Þjóðólfr þessa vísu:

Skalkat ek frá, þó at fylkir
falli niðr til vallar,
(gengr sem guð vill) ungum
grams erfingjum hverfa.
Skínnat sól á sýnni
-snarráðs- en þá báða
-Haralds eru haukar görvir
hefnendr- konungs efni.

207. Nú veita Englar Norðmönnum áreið, ok varð á mót viðrtaka hörð, ok svá váru settar kesjurnar, sem fyrr var sagt, ok komsk þat mest við hestana; berjask þó hvárirtveggja með sínu afli, ok réð seint mannfallit á; ok var svá mikill liðsmunr, at mikill fjöldi Engla gerðu hring um þá ok riðu flokkum at þeim; ok þá er þeir kómusk á bak þeim, þá losnaði fylkingin, ok gerði mannfall mikit í hvártveggja liðit. Ok í rofinu gékk Haraldr konungr fram með skjöld sinn ok sverð, ok hjó á báðar hendr bæði menn ok hesta, svá at ekki festisk við. Svá segir Stúfr skáld:

Gékk sem vindr, sá er vætki,
varðandi, fjör sparði,
geirahreggs í gögnum[2]
glaðr orrostur þaðra.
Gramr flýðiat sá síðan
(sœm [eru þess of[3] dœmi
els und erkistóli[4])
eld né járnit felda.

Ok þetta kvað Arnórr jarlaskáld:

Hafðit brjóst, né bifðisk
böðsnart konungs hjarta,
í hjálmþrumu hilmir[5]
hlítstyggr[6] fyr sér lítit,
þars til þengils hersa
þat sá herr, at skatna
blóðugr hjörr ins barra
beit döglinga hneitis.

Þá var Haraldr konungr skotinn framan í óstina, svá at þegar kom út blóð at munninum; þetta var hans banasár, ok því næst féll hann

[1]) *rettet;* at hausum *A* [2]) *rettet;* glyggvi *A* [3]) *rettet;* ef þess væri *A*
[4]) *rettet;* ecki stóli *A* [5]) *rettet;* fylkir *A* [6]) *rettet;* liðstyggr *A*

til jarðar. Nú er þessi tiðendi váru orðin, þá sóttu Englar at svá fast, at þá féll alt liðit þat, er næst hafði staðit konunginum. En nú varð 208.
Tosti jarl þess varr, at konungrinn var fallinn; veik þegar þar til, er hann sá merkit landeyðuna, ok eggjaði fast til framgöngu, ok bað enn bera þetta sama merki fyrir sér, ok varð þá snörp orrosta, fyrir því at allir Norðmenn eggjuðu, ok sagði hverr öðrum at eigi vildi flýja. Þá lét Haraldr Goðvinasunr blása lúðri sínum, ok bað stöðva orrostuna, ok bauð Tosta jarli brœðr sínum grið ok öllu liði hans, en allir Norðmenn œptu upp senn, ok létusk engi grið af hánum þiggja vilja, létusk heldr skulu sigrask á úvinum sínum eða liggja þar allir um konung sinn. Svá segir Arnórr:

Eigi varð hins œgja
auðligr konungs dauði,
hlenna sœfi hlífðut[1]
hoddum reknir broddar.
Heldr kuru meir ins mæra
mildings, en grið vildi,
um fólksnaran fylki
falla liðsmenn allir.

Í þessarri dvöl, áðr en fylkingar géngi saman, orti Þjódólfr vísu þessa:

Öld hefir afráð goldit
ilt, nú kveð ek her stiltan,
bauð[2] þessa för þjóðum
þarflaust Haraldr austan.
Svá lauk siklings ævi
snjalls, at vér erum allir
(lofðungr fékk hinn leyfði
lífs grand) í stað vandum.

Hófsk þá orrostan í annat sinn ok varð hin harðasta, ok eigi löng áðr en Tosti jarl féll. Nú í því bili kom til Eysteinn orri með 209.
því liði, er á skipum hafði verit, ok þeir allir váru albrynjaðir, ok var þá orrostan hit þriðja sinn, ok fékk Eysteinn landeyðuna, merki konungsins, ok var þá orrostan miklu hörðust ok féllu enskir menn mest, ok var við sjálft at þeir mundu flýja. Nú varð ok Eysteinn ok hans menn mjök móðir, fyrir því at þeir höfðu gengit langa hríð undir hringabrynjum, ok gerðisk veðrit mjök heitt af sólu, at þá váru þeir náliga úfœrir, ok steyptusk þá allir or brynjum sínum; en þessi orrosta fór sem ván var, at þeir höfðu betra hlut, er aflit höfðu meira ok búnað betr með vápnum; ok féll þar nú Eysteinn orri ok náliga alt stórmenni, en þessi orrosta var kölluð Orrahríð. En þat var efra hlut dagsins. Var þetta sem mælt er: „æ kemr einn hvaðan“, ok fyrir því at sumum

[1]) *rettet;* hlifðuz *A* [2]) *rettet:* boð *A*

var auðit lengra lífdaga, ok kómusk með því undan. Styrkárr stallari komsk þar undan, hinn frægasti maðr, þvíat hann fékk sér hest ok reið á brott um kveldit, ok gerðisk þá á vindr kaldr, en Styrkárr hafði verit í skyrtu einni klæða, ok hjálm á höfði, ok í hendi brugðit sverð. Nú dvaldisk hann er hann hratt mœðinni af sér, ok í því kom at hánum vagnkarl einn í kösungi síðum. Nú spurði Styrkárr: „Viltu selja kösung þinn, bóndi?" Hann svaraði: „Víst eigi þér, þú mant vera Norðmaðr, kenni ek mál þitt." Þá svaraði Styrkárr: „Hvat viltu þá, ef ek em Norðmaðr?" Hann svaraði: „Ek vilda drepa þik, ok er nú svá illa at borit, at ek hefi ekki vápn þat er nýtt sé." Þá mælti Styrkárr: „Ef þú mátt eigi mik drepa, bóndi, þá skal ek freista, ef ek mega þik drepa!" reiðir þá til sverðit ok svá á háls bónda, at fauk af höfuðit. Tók hann síðan þar sér skinnhjúp, ok hljóp síðan á hest sinn ok hleypti svá til skipa.

209. Ólafr, sunr Haralds konúngs, hafði eigi gengit upp á land, ok var með hánum Skúli, sunr Tosta jarls. Nú er tíðendin kómu til þeirra, þá bjoggu þeir sik til brottferðar með því liði, er eptir var úfallit af Norðmönnum, lögðu skipum sínum til hafs, ok þegar er byrjaði um haustit, sigldu þeir til Orkneyja, ok váru þar um vetrinn. Þann sama dag, er Haraldr konungr féll á Englandi, þá andaðisk María, dóttir hans, í Orkneyjum; þat mæltu menn, at þau hafi haft eins manns fjör bæði. En þat næsta sumar eptir fóru þeir Ólafr öllu liði sínu til Noregs; tók þat sama sumar Ólafr konungdóm í Noregi með brœðr sínum Magnúsi, váru þeir tveir konungar um hríð áðr en Magnús konungr fékk banasótt, ok var hann vanheill nökkura hríð, fyrir því at hann hafði þesskyns sótt, er menn kalla reforma. Hann átti sun þann eptir er Hákon hét: hann var á fóstri uppi í Guðbrandsdölum með Steigarþóri. Magnús konungr hafði haft inn nörðra hlut lands með Ólafi bróður sínum, en Ólafr hinn eystra. Nú var Ólafr einn konungr í Noregi eptir andlát Magnúss bróður síns. Hann var mikill á allan vöxt, ok þat er allra manna sögn í Noregi, at engi maðr hafi sét fríðara mann eða tiguligra sýnum: gult hafði hann hár ok bjartan líkam, eygðr manna bezt ok limaðr, fámálugr optast ok ekki margrœðinn á þingum, glaðr við öl ok fagrmæltr við vini sína ok hófsmaðr um alla hluti.

210. Á því sama sumri næst eptir er Haraldr konungr Sigurðarsunr féll á Englandi, þá kom til Englands með her sinn Vilhjálmr bastarðr Rúðujarl. Hans faðir var Rotbertr longaipé, en hans faðir var Rikarðr sunr annars Rikarðar, en hans faðir var Vilhjálmr sunr Gönguhrólfs, hann vann þat ríki í Vallandi, er síðan var kallat Norðmandí, ok var þaryfir jarl síðan, ok allir þeir langfeðr. Gönguhrólfr jarl var sunr

246. Síðan fór Sigurðr konungr aptr til Akrsborgar ok tók þar skip sín. Fóru brott af landinu, ok fór þá Sigurðr konungr með liði sínu til Miklagarðs; ok áðr en hann sigldi upp í sund, þá lá hann hálfan mánað hraðan byr, fyrir því at hann vildi þá sigla, er seglum hans væri ekit fram at skipi, fyrir því at þá mátti sjá af hvárutveggja landinu í öll segl hans, fyrir því at þau váru öll af pellum. Ok þá er hann sigldi at Miklagarði, lét Alexius keisari upp lúka borghliði því er heitir Gullvarta. Gékk þá Sigurðr konungr inn í borgina, ok váru öll stræti fyrir hánum dregin með pellum. Sigurðr konungr mælti við menn sína, at þeir skyldu láta sér fátt um finnask, þóat þeir sæi þá hluti, er eigi væri opt sénir á Norðrlöndum, ok svá gerðu þeir, géngu svá á pellin sem þá at bert væri strætit. Alexius keisari fagnaði Sigurði
247. konungi vel ok fékk hánum dýrligar hallir ok liði hans. Nú bauð Alexius keisari Sigurði konungi, hvárt hann vildi, at efnat væri til leiks þess er kallaðr er Paðreimsleikr, eða vildi hann þiggja jafnmikit gull af hánum, sem leikr kostaði; en þat var 6 skippund gulls. Sigurðr konungr kaus leikinn, ok líkaði þat keisaranum vel, ok lét nú búa leikinn, ok hafði sá leikr fáliga áðr sénn verit eða leikinn. Þar var mikill fjöldi þeirra Norðmanna er gékk[1] * * * * * * * * *
* * * * * * * * * * * * * * * * * * * *
248. * * * *[2] gört verit í Noregi. Hann lét ok gera virkit við Agðanes ok kirkju norðr í Vágum ok lagði eignir til. Eysteinn konungr lét ok gera skip i Niðarósi eptir því, sem var Ormrinn langi, lét þar gera á drekahöfuð ok búa gulli, ok kallaði Dreka. Eysteinn konungr kom Jamtalandi undir sik fyrstr Noregs konunga.

### *Um andlát Sigurðar konungs ok þeirra bræðra, ok um skírsl Haralds gilla.*

249. Á þrettánda ári ríkis þeirra brœðra Sigurðar konungs ok Eysteins konungs tók sótt Ólafr konungr bróðir þeirra ok andaðisk, var lík hans jarðat í Niðarósi at Kristkirkju. En 7 vetrum síðar fékk Eysteinn konungr sótt ok andaðisk suðr á Stimi á Hústöðum[3], var síðan lík hans fœrt norðr í Niðarós ok jarðat at Kristkirkju; hans dauða harmaði hverr maðr í Noregi. En síðan réð Sigurðr konungr einn landinu.

250. Fám vetrum þar eptir andlát Eysteins konungs kom vestan af Írlandi sá maðr, er kallaðr var Haraldr, ok lézk vera sun Magnúss

[1]) *Her var en Lacune af 2 Blade i A.* [2]) *Her begynder atter B, som udfylder den sidste Del af Lacunen i A* [3]) *saal. Sn.*; Fastöðum *B*

berfœts; hann hafði verit kallaðr á Írlandi Gillikrist. Ok þá er Haraldr kom til Sigurðar konungs, bar hann sitt mál fyrir hann ok beiddisk at gera skírslur til faðernis sér. En Sigurðr konungr bar þetta mál fyrir vini sína, ok var lengi áðr um ráðit en lofat væri, at Haraldr skyldi troða skrár ok sanna svá faðerni sitt. En þá váru 7 plógjárn glóandi ok þar gékk Haraldr eptir berum fótum, ok tveir biskupar leiddu hann, ok hefir þessi skírsl frekust verit ger í Noregi. Haraldr varð vel skírr, ok sýndi þá Sigurði konungi heila fœtr sína ok öllum þeim, sem við váru staddir. Sigurðr konungr tók þá vel Haralds frændsemi, ok hafði hann með sér innan hirðar, ok lét vel yfir hánum. En [Magnúsi syni[1] Sigurðar konungs var þungt til Haralds, ok margir aðrir viku eptir Magnúsi um þat sama mál. Magnús sunr Sigurðar konungs fékk Kristínar, dóttur Knúts lávarðar ok Ingibjargar dóttur Haralds konungs, systur Málfríðar dróttningar, er Sigurðr konungr faðir hans átti.

Þá er Sigurðr konungr var staddr í Vík austr fékk hann sótt 251.
ok andaðisk, ok hafði þó lengi áðr haft mikil vanheilendi. Var lík Sigurðar konungs flutt til Oslóar ok hvílir hann í Hallvarðs kirkju í steinvegginum syðra megin fyrir utan kórinn. Þá hafði Sigurðr konungr ráðit Noregi 7 vetr ok 20 síðan Magnús konungr berfœtr faðir hans féll ífrá.

*Um úsætti þeirra frænda Magnúss konungs ok Haralds gilla.*

Eptir andlát Sigurðar konungs váru þeir til konunga teknir, 252.
Magnús sunr Sigurðar konungs ok Haraldr Magnússunr bróðir Sigurðar konungs, ok hafði sína hirð hvárr þeirra. Ok eigi höfðu þeir lengi báðir verit konungar, áðr en úsætti gerðisk á miðli þeirra, ok svá mikit var at því, at hvárr þeirra hjó bú fyrir öðrum, ok því næst drápusk þeir menn fyrir. Á fjórða ári ríkis þeirra var Haraldr konungr í Vík austr austarliga ok samnaðisk at liði. Magnús konungr dró saman her mikinn, ok fór á mót Haraldi konungi frænda sínum. Þar funnusk þeir sem heitir Fyrileif, hafði Magnús konungr lið meira miklu; þar börðusk þeir ok var mikit mannfall. Þar féll Kriströðr bróðir Haralds konungs sammœðra, ok eigi færra hirðmanna hans en 60. En Haraldr konungr komsk sjálfr á flótta. Haraldr konungr flýði suðr til Danmarkar á fund Eiríks Danakonungs Eiríkssunar; þeir höfðu áðr görzk eiðbrœðr. Eiríkr konungr veitti Haraldi konungi alt Halland til yfir-

[1]) *rettet;* M. sonr *B*

ferðar, ok gaf hánum 6 langskip reiðislaus. Eptir Fyrileifar orrostu lagði Magnús konungr allan Noreg undir sik, ok fór um haustit norðr
253. til Björgvinjar, ok fóru þá heim lendir menn flestir[1] til búa sinna. Þetta sama haust kom Haraldr konungr sunnan af Danmörku, ok þá er hann kom til Konungahellu var fyrir hánum samnaðr nökkurr svá[2], ok var þó engi bardagi, fyrir því at bœjarmenn gáfusk upp ok tóku við Haraldi konungi[3]. Byrjaði þá Haraldr konungr ferð sína norðr um Víkina ok drap marga menn, en af sumum tók hann fé mikit. Þá fékk Haraldr konungr sér skip, ok dreif at hánum lið mikit, ok þá er hann kom [austan at Borg[4], tók hann þá brœðrna Nerið ok Ásbjörn, ok bað þá kjósa, hvárr þeirra vildi hengðr vera eða [út í Sarp fara[5]. Neriðr var hengðr, en Ásbjörn [var skotinn[6] í Sarp, [þvíat hann var eldri, þótti sá dauðinn[7] enn grimmligri. Síðan fór Haraldr konungr norðr með landi, ok lagði land alt undir sik þar sem hann fór. En þá er Magnús konungr frá[8] þessi tíðendi, þá gerði hann boð eptir lendum mönnum sínum ok bauð út leiðangri[9], en lendir menn flestir dvöldusk heima, svá kom ok fátt af heruðum til hans. Þá kallaði hann til sín Sigurð Sigurðarsun, Nefsteinssunar (hann var mikill höfðingi ok allra manna vitrastr) ok spurði hann ráða, hversu hátta skyldi. En hann svaraði á þá lund: „Herra!“ sagði hann, „til [þess kann ek góð ráð, ef þér vilið þau hafa[10]: görið mik ok[11] annan lendan mann í móti Haraldi konungi frænda yðrum, at[12] bjóða hánum sætt, svá sem hinir beztu menn leggja ráð til í báða staði, bjóða hánum ok alt þat ríki, er hann á með[13] réttu at hafa, ok eru svá margir vitrir menn[14] með Haraldi konungi, at þetta erendi munu gjarna vilja flytja við hann. Þá svaraði Magnús konungr: „Litla hríð njótum vér þá [ríkis þess, er þá unnum vér[15] í haust, ef nú skyldim[16] vér upp gefa alt at óreyndu, ok eigi vil ek þat; gef til annat ráð, hversu ek skal halda öllu landinu.“ Þá svaraði Sigurðr: „Þat er mitt ráð, at fara í brott héðan or Gulaþingslögum ok norðr [til Þrándheims[17], ok [freista ef þar fáisk norðr nökkurr styrkr[18] af Þrœndum.“ Þá svaraði konungr: „Man ekki þá Haraldr leggja alt landit undir sik at[19] austan, ef vér flýjum[20]?“ Þá svaraði Sigurðr: „Enn er eitt ráð til, [ef þat vill hafa[21], ok þó ilt:

1) *Her begynder atter A* 2) *mgl. i B* 3) *saal. B;* at konungi *A* 4) austan borgar 5) hvárr fara í Sarp 6) fór 7) hann var eldri, ok sá þótti dauðinn 8) spurði 9) leiðangr 10) þessa man ek góð ráð leggja ef þér vilið nýta 11) eða 12) ok látið 13) at 14) ok góðviljaðir *tilf.* 15) þess sigrs, er vér unnum landit alt undir oss 16) skulum 17) í Þrándheim 18) freistið ef þér fáið styrk 19) *mgl.* 20) undan *tilf.* 21) *mgl.*

at gera til gesti ok láta drepa einn [lendan mann eða tvá[1], þá er nú hafa heima sezk ok vildu eigi koma til yðar, ok gefa þær veizlur, er þeir hafa hafðar, þeim nökkurum, er hér er[2] með yðr ok þér trúið vel; kann þá vera, at aðrir [lendir menninir komi til yðar ok vilja eigi bíða heima þvílíkra sókna[3].“ Þá svaraði konungrinn: „Þetta ráð man verða úvinsælt; kann vera, þóat ek láta drepa menn[4] mína ok fá[5] ek öðrum mönnum lénit[6], þá kann vera at þeir sé mér eigi betri.“ Þá stóð Sigurðr upp, ok gékk á brott ok mælti svá: „Hví skal ek eigi gefa yðr þat ráð, er þér vilið hafa, at sitja hér í Björgvin þar til, er Haraldr konungr kemr hér með öllu liði sínu, ok mant[7] þá verða [at flýja eða þola meizlur til dauða[8].

Haraldr konungr kom liði sínu öllu til Björgvinar jólaaptan, ok 254.
vildi eigi leggja til bœjarins fyrir helgar sakar at berjask, ok lagði í Flóruvága, ok lá þar um jólin ok hafði allmikit lið, ok enn kómu menn til hans um jólin or heruðum 11 hundruð manna. Þessi var kallaðr múgavetrinn. Magnús konungr hafði viðbúnað mikinn í bœnum ok lét alla daga í jólunum hafa mikit starf. Hann lét gera valslengjur úti í Hólmi[9] ok alt utan frá Steinkirkju[10], ok yfir [móti Munkabryggju[11] með viðum ok sumt með járnrekendum, svá at ekki mátti fara skipum í[12] Váginn; hann lét ok gera herspora marga ok kasta yfir á Jónsvöllum[13]; hann átti ok þing við bœjarmenn ok bað sér liðs, en allir hétu góðu um þat. Affaradag jóla lagði Haraldr konungr at bœnum öllum her sínum, ok hömluðu þeir skipunum at Norðnesi. En Magnús konungr hafði fylkingar sínar úti í Hólmi, ok þá [hugði Magnús konungr, at Haraldr konungr vildi[14] ganga upp í Norðnesi, ok vendi aptr þá Magnús konungr öllu liði sínu inn eptir bœnum, ok þá er þeir kómu inn í Vágsbotninn, þá sá þeir at Haraldr konungr hafði lagt öllum skipum sínum inn at Hólmi, ok alt var þá lið hans á land komit. Sótti þá Haraldr konungr utan eptir bœnum, en margir bœjarmenn [höfðu heim gengit í garða sína, þá er Magnús konungr hafði inn snúit eptir bœnum[15]. Ok þá er menn Magnúss konungs sá ofrefli hers Haralds konungs, þá flýði lið hans alt, sumt upp í fjallit, en sumt aptr í bœinn, en sumt á hersporana. En Magnús konungr gékk út á skip sitt ok settisk í lypting,

[1]) *saal. B;* eða báða tvá lenda menn *A* [2]) eru [3]) sé við ok vili eigi bíða heiman þvílíkra heimsókna. [4]) lenda menn [5]) fæ [6]) lén þeirra [7]) mantu [8]) annat hvárt at flýja, eða þola meizlur eða dauða at þriðja kosti. [9]) *saal. B;* palslengju í bœnum úti í hólmi *A* [10]) Kristkirkju [11]) til Munkabryggju [12]) um [13]) Jóansvöllu [14]) hugðu þeir Magnús konungr at þeir Har. k. vildu [15]) skruppu inn í garða sína ok í hús, þá er Magnús konungr fór inn eptir bœnum, ok var þá eigi gott til þeirra at taka.

ok fátt manna með hánum. En með því at [bannaði umbúnaðrinn er görr var um þveran vâginn, at þeir höfðu engan kost at fara á brott með skipit[1], svá sem segir Einarr Skúlasunr:

Luku vág viku,
varat kostr fara
brýns, Björgvinjar,
braut háskrautum.

þá kómu menn Haralds konungs á skipit, ok var þá Magnús konungr tekinn[2], ok var þá í gæzlu Haralds konungs um hríð. Var [þá ráðit um[3] hans mál. Í þessum fundi féll ekki mart manna, ok flestum mönnum váru grið gefin. Svá segir Halldórr skvaldri:

Máttiat[4] öld, þá er ótta
ógnfýstr konungr lýsti,
(hljóp fyr hilmis vápnum
herflótti) bý verja.

Eptir þetta var Magnús konungr blindaðr ok geldr, en Reinaldr biskup af Stafangri var hengðr úti í Hólmi við valslönguna[5]. Magnús konungr fór norðr í Niðarhólm[6] ok tók þar munkaklæði, en Haraldr konungr lagði þá land alt undir sik. Hann fékk þá Ingiriðar dóttur Rögnvalds sunar Inga Steinkelssunar. Ingiríði hafði átta fyrr Heinrekr skökulær[7], sunr Sveins Sveinssunar Danakonungs; þeirra synir váru þeir Magnús Svíakonungr, Rögnvaldr jarl, Buriz[8]. Haraldr konungr átti sun með[9] þóru Guðorms dóttur grábarða, sá hét Sigurðr, en tveim vetrum síðar átti hann sun með[9] Ingiríði dróttningu, sá hét Ingi.

*Um Sigurð slembidjákn.*

255. Sigurðr, er kallaðr var slembidjákn, kom til Noregs vestan yfir haf; hann fór suðr til Danmarkar, ok bar þar járn til faðernis, at hann var sunr Magnúss berfœts, ok váru við þessa skírslu fimm biskupar, ok varð hann skírr. Svá segir Ívarr Ingimundarsunr:

Gerðu skírslu
um skjöldungs kyn
fimm biskupar,
þeir er framast þótta;
svá bar raunir,
at ríks konungs
þess var hins milda
Magnús faðir.

1) þeir höfðu engan liðskost at fara brott á skipinu, ok svá bannaði umbúnaðr, sá er görr var um þveran váginn 2) handtekinn 3) umráðit 4) máttuð 5) valslengjuna 6) þrándheim 7) skotulær 8) Bariz 9) við

þaðan fór Sigurðr slembidjákn til Noregs, kom á fund Haralds konungs, bróður síns. Við hánum var þar þungliga tekit, ok lagði Haraldr konungr ok hans ráðgjafar engan trúnað á skírslu hans, ok þá var Sigurðr handtekinn ok leiddr á skútu eina, ok réru menn á brott með hann; ok þá er þeir kómu mjök langt brott frá bœnum Björgvin, sat Sigurðr í fyrirrúminu ok hafði [möttul skinnalausan[1] yfir sér; hann hafði niðr á þiljuna fyrir sik, ok hafði hendrnar [á möttulsbandinu[2] ok flutti upp á háls sér, ok stóð upp ok beiddisk at ganga til borðs. Stóðu upp með hánum tveir menn ok héldu[3] klæðum hans, ok þegar hann kom til borðsins, þá tók hann sinni hendi hvárn þeirra, ok steyptisk fyrir [borðit með báða þá[4]. Ok með því at skútan rendi skjótt ok þeim [varð seint[5] at snúa henni, bar fyrir því í sundr þeirra fundi [at því sinni[6]. Sigurðr tók eitt kaf furðu langt, ok þá er hann kom upp, var hann nær landi, ok fyrr var hann á landinu en þeir gæti tekit [sína menn á skútuna[7]. Var Sigurðr allra manna fóthvatastr, ok féngu þeir hánum ekki nát at því sinni. Fóru þeir aptr til Björgvinjar á fund Haralds konungs ok sögðu hánum þetta, ok var þeirra ferð litt leyfð. Sigurðr fór á laununngu til vina sinna ok hafði með sér nökkura menn; ok þá er mjök leið at jólunum[8], [var hann í Björgvin[9], ok leyndu hánum bœjarmenn. En hinn næsta aptan fyrir Lúcíe[10] messu, þá er Haraldr konungr sat yfir mat[11], þá mælti sá maðr til hans, er næst[12] hánum sat: „Herra! vér höfum þrætt[13] þar til, er vér höfum veðjat um [einn hlut[14], ok fær [þessa þrætu engi[15] leyst nema þér einir[16]: ek sagða þat, herra, at þér mynduð liggja hjá Ingiríði dróttningu í nótt, en þeir segja, at þú munir liggja íhjá Þóru.“ Þá svaraði konungrinn: „Láta mant þú veðféit.“ Ok svá urðu þeir þess varir, at hann mundi liggja hjá Þóru. Þá menn hafði Sigurðr slembidjákn til njósnar setta innan hirðar. Á [þessa sömu nótt gildraði Sigurðr ok hans menn til Haralds konungs, en hans höfuðvörðr[17] var fyrir því herbyrgi, er allir ætluðu[18] at hann svæfi í, en hinnug var varðlaust sem hann svaf sjálfr inni. Kómu þeir Sigurðr ok hans menn til herbyrgisins, ok kómusk [inn í áðr[19] en konungrinn vaknaði, ok báru þegar vápn á hann. Lét þar Haraldr konungr líf sitt ok hafði mörg stór sár. Þetta var ofarliga á nóttinni. Síðan géngu þeir Sig-

[1]) möttulskikkju [2]) at möttulsböndunum [3]) á *tilf.* [4]) borð með báðum þeim [5]) tóksk eigi skjótt [6]) at sinni [7]) menn sína á skútunni [8]) jólum [9]) kom hann til Björgvinar [10]) Lúcíu [11]) matborði [12]) næstr [13]) um *tilf.* [14]) eitt mark [15]) þetta engi maðr [16]) ok sagði hánum einum saman *tilf.* [17]) þessu sama kveldi ætlaði Sigurðr svá til Haralds konungs ok menn hans, at hans höfuðvörðr [18]) hugðu [19]) inn fyrr

urðr ok hans menn ok tóku sér eina skútu, ok þá er dagaði um morgininn, réru þeir út á váginn fyrir bryggjur[1]. Þá lýsti Sigurðr vígi Haralds konungs bróður síns á hendr sér, ok beiddisk af lendum mönnum ok hirðinni ok bœjarmönnum, at þeir skyldu taka hann til konungs, eptir því sem áðr [höfðu brœðr[2] hans verit. En allir svöruðu senn, at hann skyldi aldrigi konungr heita[3], ok sögðu svá, „at hér eru tveir hlutir til, at þú mátt aldrigi konungr vera: sá er hinn fyrsti, at vér hyggjum, at þú sér eigi sunr Magnúss konungs, en sá annarr, ef svá illa hefir orðit, at Magnús konungr hefir getit sun með Þóru Saxadóttur, systur Sigurðar, þá hefir þinn getnaðr verit ógiptusamligr[4], ok svá hefir nú gefizk, ef þú hefir nú myrðan bróður þinn.“ Ok þá er Sigurðr sá at hann myndi ekki þar sýsla[5], þá réru þeir á braut, en lík Haralds konungs var jarðat í Kristskirkju hinni fornu.

256. Eptir þetta tóku Björgvinjar menn Inga til konungs, sun Haralds konungs. Þá var hann á fyrsta vetri, en þá er Þrœndir spurðu fall Haralds konungs, þá tóku þeir til konungs Sigurð, sun Haralds, þá var hann á þriðja vetri. Þá hafði Haraldr konungr verit 6 vetr, er hann [féll, fjóra[6] með Magnúsi frænda sínum, en tvá síðan[7]. Einarr Skúlasunr getr þess ok, at Haraldr konungr [hefði barizk[8] tveim sinnum í Danmörkú, annat sinni undir Hveðn við víkinga nökkura. Svá segir Einarr:

Ótryggum [lézt þú[9] eggjar
-eljunþrár- und hári
Hveðn á hauldum roðnar
-hrafnsmunnlitaðr!- þunnar.

Enn segir Einarr svá:

Áttuð sókn við sléttan
-serkrjóðr Hálfs!- merki
-harðr- þar er hregg um virðum,
Hléseyjar þröm, blésu.

[Svá er sagt at Haraldr konungr hefði[10] sigr í hvárritveggja orrostunni. Eptir [hans fall[11] fór Sigurðr slembidjákn norðr á Norðhörðaland ok inn í Sogn, ok drifu menn til hans. Sigurðr átti þing við Sygni ok Norðhörða, ok á því þingi var hánum gefit konungsnafn, ok þar géngu margir menn hánum til handa, ok gerðusk hans sverðtakarar. Svá segir Ívarr Ingimundarsunr:

1) Björgvinar bryggju 2) hafði bróðir 3) vera 4) ógæfusamligr 5) at sinni *tilf.* 6) fékk ríki 7) einn saman *tilf.* 8) hafði barzk 9) léztu 10) Hann segir ok at Har. k. hafði 11) fall Haralds konungs

Tóku við mildum
Magnúss syni
Hörðar ok Sygnir
at Harald fallinn;
sórusk margir
menn á þingi
buðlungs syni
í bróður stað.

þá fékk Sigurðr eina tvítugsessu ok nökkurar smáskútur[1], vendi þá norðr með landi. Ok þegar er hann kom norðr um Stað, þá risu Mœrir á móti[2] hánum, þvíat þeir höfðu játtat [þrœndum liði sínu móti Sigurði konungi[3]. Fór Sigurðr konungr þá norðr skyndiliga ok ætlaði at koma óvart norðr í Niðarós, ok kom [nótt eina[4] undir Niðarhólm. Var hánum[5] sagt at njósn myndi komin vera fyrir hann í bœinn. þá tók hann út or klaustranum Magnús konung, er blindaðr [hafði verit[6], ok hafði með sér, ok hugði at þá myndi drífa at hánum lið meira en áðr[7]; ok venda síðan út or firðinum[8], ok litlu síðar skildusk þeir[9].

Eptir dráp Haralds gilla var Sigurðr sunr hans tekinn til kon- 256.
ungs, þá er hann var á fjórða vetri, í þrándheimi; ok Ingi konungr var tekinn til konungs austr í Vík, þá er hann var á öðrum vetri. Fóstri Sigurðar var Guðormr Bárðarsunr faðir Philippúss. þeir efldu Sigurð konung: Óttarr birtingr, ok Ögmundr sviptir, Petr burðarsveinn. þeir efldu Inga: Ögmundr fóstri hans, ok þjóstólfr Álasunr. Hit næsta sumar eptir er Ingi var tekinn til konungs, þá áttu hans menn orrostu við Magnús konung hinn blinda á Upplöndum í Mynni ok höfðu sigr; þar féllu af liði Magnúss Halldórr Sigurðarsunr, Björn Erlingssunr, Gunnarr af Gimsum, ok mart annarra manna; Magnús flýði austr í Gautland. Aðra orrostu áttu Inga menn við Karl Sunasun á Krókaskógi, ok höfðu sigr; þar féll Munan Ögmundarsunr ok mart Gauta.

Í þenna tíma kom Eiríkr eimuni sunnan af Danmörku ok Magnús 257.
hinn blindi með hánum, ok höfðu ógrynni hers. þeir héldu liðinu til Túnsbergs; þar stóð á mót þeim Ormr Dagssunr, ok náðu þeir eigi uppgöngu. þaðan héldu þeir inn til Osló; þar var fyrir þjóstólfr Álasunr; þar laust þjóstólfr Áskel með broddi, stafnbúa Eiríks. þá fór skrín hins helga Hallvarðs upp á Raumaríki til Fors, ok var þar þrjá mánaði. þá brendi Eiríkr allan Osló bœ ok Hallvarðs kirkju; þá kom þjóstólfr ofan af Raumaríki með liði miklu, ok náði Eiríkr eigi uppgöngu fyrir samnaði landsmanna; ok lagði brott liði sínu ok suðr með

[1]) skútur smár [2]) við [3]) með þrœndum hlýðni til Sigurðar konungs [4]) um nóttina [5]) þar *tilf.* [6]) var [7]) ok svá var *tilf.* [8]) þrándheimi [9]) Magnús ok Sigurðr *tilf.* *B, som ender med disse Ord.*

landi, ok héldu orrostu í Hornborusundum við Inga konung ok Ámunda, fóstrfõður hans ok Gyrðar lögbersa sun. þeir feldu marga menn fyrir Eiríki, en hann flýði til Danmarkar með mikilli sneypu.

Sigurðr slembidjákn kom þat sama sumar til Danmarkar ok hafði tvær orrostur við Vindr ok hafði sigr í báðum. Síðan hélt hann í Elfi ok tók þar 3 skip af liði þeirra þóris hvinantorða ok Ólafs Haraldssunar kesju, er átti Ragnhildi dóttur Magnúss konungs Ólafssunar. þar elti Ólaf Sigurðr á land upp, ok þórir fór til Konungahellu. þangat hélt Sigurðr eptir liði sínu, ok skutusk þeir á; þar féll mikit af hvárratveggja liði; þar féll Úlfheðinn Saxólfssunr norðlenzkr maðr, stafnbúi Sigurðar. En er Sigurðr lá í Portyrju á Lungarðssíðu, þá gerði Magnús konungr lið at hánum or Túnsbergi, en þar kom Sigurðr nauðuliga undan. þar féll mart af liði Sigurðar, Fiðr geit ok Áskell Smiðssunr, en Sigurðr sigldi suðr til Danmarkar; þar týndisk Kolbeinn þorljótssunr á Bataldri; hann var á eptirbáti, er þeir sigldu mjök. þá braut Sigurðr skip sitt, er hann kom suðr. Um vetrinn var hann í Álaborg; um sumarit eptir fóru þeir báðir saman sunnan Magnús ok Sigurðr 7 skipum ok kómu á Lista; þar drápu þeir Beintein Kolbeinssun. þar fór Ingi sjálfr á móti þeim ok elti Hákon pungeltu á land upp ok alt lið hans. þeir flýðu undan inn í Fjörðu: Sigurðr stokkr sunr Eindriða í Gautsdali, ok Eiríkr hæll bróðir hans, ok Andres kelduskítr. Síðan sigldu þeir norðr Sigurðr ok Magnús hit ytra 3 skipum á Hálogaland. þann vetr var Magnús konungr í Bjarkeyju með Viðkunni Jónssyni, en Sigurðr fór á Finnmörk norðr með 20 menn. Um várit eptir þá hélt Sigurðr norðan með 2 skútum, er Finnar höfðu fengit hánum. þá fór Sigurðr inn í Vága ok tók þar Sigurð prest ok sunu hans; lét hann þá drepa alla. þaðan fór hann í Víkr austr[1] ok tók þar Vilhjálm skinnara lendan mann ok annan þóralda hest[2], ok drápu báða. Síðan mœtti hann Styrkár glæsirófu ok drap hann. Fyrir Valsundsbœ hittu þeir Svínagrím; af hánum lét Sigurðr höggva hina vinstri hönd. Suðr á Mœri tók Sigurðr Heðin harðmaga ok Kálf kringluauga; Heðin drápu þeir, en eigi Kálf. En suðr í Herðlu átti Einarr sunr Laxapáls bú, hann var farinn til gagndagaþings í Hamarsfirði; þá tóku þeir Sigurðr fé hans alt, þat er heima var, ok langskip hálfþrítugt, ok sun hans fjögurra vetra gamlan, er hvíldi hjá verkmanni hans. En verkmaðr kvað vera sinn sun, þá gáfu þeir [engar geymdir[3] sveinsins. Verkmanni gaf Einarr, þá er hann kom heim, 2 aura gulls. þeir fóru Sigurðr austr í Vik, ok tóku þar austr á Kvildum Finn sun Sauðaúlfs,

[1]) *rigtigere* suðr [2]) kept *Sn. og de övr. Kongesagaer* [3]) *rettet;* engi geymdar *A*

er hann fór at heimta landskyldir Inga konungs. Finn festu þeir upp, ok fóru síðan suðr til Danmarkar.

Í þann tíma sendi rit Sigurði Ingi með áskoru mikilli, at hann kvæmi til liðs við hann. En þat hit sama sumar eptir kvámu þeir Magnús konungr ok Sigurðr sunnan með 30 skipa nær vetrnóttum, bæði Dana lið ok svá Norðmanna. Þá fór Ingi ok Sigurðr á móti þeim með 20 skip allstór; en þeir hittusk sunnudaginn næst eptir Marteinsmessu í Hválum austan fjarðar við Hólminn grá, ok börðusk þar. Í hinni fyrstu hríð lögðu Danir ífrá 18 skipum heim suðr. Þá ruddusk skip Sigurðar ok Magnúss; þeir stóðu lengst fyrir Magnúsi, er hann hvíldi í rekkju sinni: Hreiðarr Grjótgarðssunr ok Sauppruðr; en allir féllu aðrir þar. Þar féll Brúsi stafnbúi Sigurðar, Hallvarðr fægir, ok Ívarr Kolbeinssunr. Ívarr gékk inn at Haraldi ok vann fyrst á hánum. Þar féll mikill hluti liðs Sigurðar ok Magnúss. Í hólminum féllu meir en 60 manna; þar var drepinn Sigurðr prestr sunr Bergþórs Mássunar, ok Klemetr sunr Ara Einarssunar. Ívarr Kálfssunr komsk á skip Jóns Bergþórssunar, er þá átti Cecilíu dóttur Gyrðar Bárðarssunar, ok Arnbjörn ambi ok Ívarr dynta Starasunr. Fé var fest fyrir Arnbjörn, en Ívar dyntu drápu þeir. 258.

En er þeir Ingi ok Sigurðr höfðu verit höfðingjar 6 vetr, þá kom Eysteinn af Skotlandi bróðir þeirra; þat var í Þrándheim norðr. Þeir fóru eptir hánum, Árni sturla, Þorleifr Brynjúlfssunr, ok Kolbeinn hrúga. En hann var tekinn til konungs á Eyraþingi um gangdaga, at hann skyldi vera konungr yfir hinum þriðja hlut landsins, ok á þat sættusk þeir brœðr, þá er þeir hittusk. Engi váru skírsli gör Eysteini til faðernis, þvíat trúat var Haraldi um þat er hann sagði. En þeirra brœðra fór vel á meðal, meðan er þeir réðu fyrir ríki. En eptir andlát Guðröðar, Ámunda, Þjóstólfs ok Óttars birtings, er átti Ingiríði móður Inga konungs, Ögmundar sviptis ok Ögmundar drengs sunar Kyrpingaorms, þá slitu þeir hirð sína Ingi ok Sigurðr. Ingi var hryggbrotinn ok var þó vinsælastr þeirra. Brátt eptir þat snérisk Gregorius, sunr Dags ok Ragnhildar Skoptadóttur, til landsgæzlu við Inga, ok varð hánum at mesta trausti alla sína æfi. 259.

Í þann tíma kom Nikolás góði kardínáli í Noreg ok gaf pallium Jóni Birgissyni, ok var hann fyrsti erkibiskup í Noregi; en er Nikolás kom suðr þá varð hann pávi, ok hét hann þá Adrianus. En þeir lögðu fund millum sín einn vetr á Upplöndum ok skyldu þeir sættask: Sigurðr hafði vegit 2 menn Eysteins konungs, Harald enn víkverska í Björgvin, en norðr í kaupangi Jóan prest tapparð sun Bjarna Sigurðarsunar. Þá sættusk þeir ok sátu lengi á máli. Kom þat upp af þeirra 260.

rœðu, at þeim sýndisk at taka konungdóm af Inga, ok láta hann hafa 3 bú ok 20, ok 30 húskarla, þvíat þeim þótti hann eigi hafa heilsu til at vera konungr. Þeir ætluðu í Björgvin um sumarit at hafa at því fund, ef svá mætti vera. Þat mál kom fyrir Inga ok Gregorium, ok fóru þeir til Björgvinar með miklu liði. Litlu síðar kom Sigurðr þar ok með muni minna liði. Eysteinn var seinni til þeirrar stefnu en ætlat var. Ingi konungr lét blása til þings í Hólmi út, ok kvámu þeir báðir þangat Sigurðr ok Ingi, ok var þingit fjölment. Gregorius gékk á þingit með hjálm gullroðinn, ok alt hans lið var hjálmat, óskrát níu tugir manna. Ingi konungr stóð upp ok sagði mönnum, hvat hann hafði spurt, hversu brœðr hans höfðu ætlat at skipa við hann; hann bað sér liðs ok kvazk heldr vilja láta af lifi sínu en af föðurleifð sinni. Menn gerðu góðan róm at máli hans ok létusk hánum vilja fylgja. Þá stóð upp Sigurðr konungr ok taldi þá brœðr ósanna at því, sem Ingi kendi þeim. Hann kvað Gregorium ljósta slíku upp, ok kvazk eigi skulu láta langt til, at hann myndi steypa hjálminum gullroðna; ok svá kvað hann at, at eigi myndi þeir lengi ganga. Gregorius svaraði stuttliga, ok lézk þess eigi trauðr, at þeir fyndisk. En fám dögum síðar þá vá húskarl Sigurðar húskarl Gregorii, ok vildi Gregorius atgöngu veita Sigurði; en Ingi konungr latti, ok fór þat eigi fram. Í hinum sama aptni vá Sigurðr travali sunr Eysteins travala, hirðmaðr Sigurðar konungs, Sigurð skrúðhyrnu hirðmann Inga konungs, gamlan mann ok allvinsælan, ok kendu menn Sigurði konungi ráðin. Af þessum sökum bjoggusk þeir at veita Sigurði konungi atgöngu, ok var í því ákafastr Gregorius. Sigurðr konungr drakk í garði Sigríðar sætu fyrir innan Sandbrú litlu. Þessir menn veittu atsókn Sigurði með Inga konungi: Gregorius, ok Árni Ívarssunr, ok Áslákr Erlendssunr. En Sigurðr ok hans menn géngu upp í loptit, þat er var í garðinum, ok skutu or gluggum, ok brutu upp ofna ok báru grjótit á þá. Þar féll Einarr Laxapálssunr af liði Sigurðar, ok Hallvarðr Gunnarsunr var skotinn í loptinu. Þeir Ingi hjoggu hús til þeirra, ok gékk liðit mjök til griða. Þá gékk Sigurðr konungr út, beiddisk hljóðs; hann hafði skjöld gullroðinn, ok kendu menn hann brátt ok vildu eigi hlýða hánum, ok skutu menn at hánum svá sem í drífu sæi. Þá er liðit var mjök gengit af hendi hánum, þá hjoggusk húsin fast. Þá gékk hann út, ok fyrir hánum Þórðr húsfreyja; þeir vildu þangat til sem Ingi var, ok kallaði Sigurðr til griða við bróður sinn, ok hann vildi gefa hánum grið, en því var eigi hlýdt, ok váru þeir þegar höggnir. Þá var illa um þetta verk rœdt, ok kendu menn

ráðin Inga konungi. En þat hafa flestir menn fyrir satt, at þat hafi engi hans ráð verit, svá sem váttar Einarr Skúlasunr:

Alls engi þarf Inga
úlfgrennir[1] þat kenna,
(hverr [spyri satt af[2] snerru
seggr!) at gram bitu eggjar;
böð gatat stillir stöðvat
styrjarmildr þóat vildi,
fús var forspell[3] ræsi
fylkis sveit at veita.

þá spurðu menn at, hverr út léti bera merki konungsins. Einarr kvað þá vísu:

Út lét stöng á stræti
-sterk- dýrligra merkja
-dúðusk dörr af reiði-
Dagssunr bera fagra.
Hnigu menn í gný Gunnar
gagls fyr strengjar hagli,
brœðr hafa barzk í miðri
Björgvin fyr ósynju.

Enn kvað Einarr aðra vísu:

Myndiat seima sendir
svá brátt hafa látit
-spjót flugu langt í ljótri-
líf sitt -boga drífu-,
ef alkostigs[4] austan
Eysteins flota leysti
beinn at Björgvin sunnan
byrr tveim dögum fyrri.

En þrim nóttum síðar kom Eysteinn konungr or Vík austan með 30 skipa í Flóruvága; þá báru menn orð á meðal ok sættu þá, en þeir funnusk eigi. Sigurðr Haraldssunr var konungr 19 vetr, ok var grafinn at Kristskirkju í Hólmi út. En þá er Eysteinn lá í Flóruvágum, þá bauzk Gregorius til at veita hánum atlögu, þó at Ingi legði eigi til: lét eigi munu síðar betra. þess löttu margir, ok tóksk eigi. þá fór Eysteinn í Vík austr, en Ingi norðr í þrándheim; ok váru þeir þá sáttir at kalla, en þó fundusk þeir eigi. Gregorius fór austr í Vík, ok var at búi sínu á Bratsbergi. þá gerði Eysteinn konungr för at hánum ok vildi hann aftaka; en hann varð varr við, ok flýði undan á Upplönd með 9 tugu manna, ok sótti síðan fund Inga konungs norðr til kaupangs, ok kom norðr fyrir jólin. Ingi varð hánum feginn, ok

[1]) arngrennir *Morkinskinna* [2]) spyrr slíkt frá *Mork.* [3]) fjárspell vísa *Mork.*
[4]) *saal. Mork.;* allkostes *A*

bað hann hafa af sínu fé, þat sem hann vildi. þá brendi Eysteinn konungr bœ Gregorius ok hjó búit. Á þeim sama vetri váru naust þau brend hin miklu ok hin góðu, er Eysteinn konungr hafði átt; þar brunnu skip með, er Ingi konungr átti. þau ráð váru kend Eysteini konungi ok Philippúsi Gyrðarsyni, fóstbróður Sigurðar konungs.

261. En sumarit eptir hittusk konungar í Seleyjum, ok kom Ingi norðan en Eysteinn austan; þá váru þeir fjölmennir ok þó Ingi miklu fjölmennari. þá var at komit, at þeir myndi berjask, en þó sættusk þeir at kalla, ok skyldi Eysteinn gjalda fé aptr Inga ok Gregoris; en þat kom eigi fram, ok raufsk sú sætt öll; þá fór Ingi konungr austr í Vík, en Eysteinn norðr í þrándheim. þá fóru ill orð á millum, ok lét hvárrtveggja drepa fyrir öðrum nökkura menn. Í þann tíma spandisk mjök lið frá Eysteini konungi undir Inga konung, ok váru í þeirri sveit Bárðr standhali ok Símon skálpr sunr Hallkels húks. En þá er tveir vetr váru liðnir frá falli Sigurðar konungs, þá sömnuðu báðir liði konungarnir, ok fór Ingi austan með átta tugu skipa, en Eysteinn norðan með hálfan fimta tug skipa. Ingi lá suðr í Mostr, en Eysteinn lá litlu norðar í Grœningarsundi. Eysteinn sendi Áslák unga ok Árna sturlu til fundar við Inga, ok höfðu eitt skip. En er Inga menn kendu þá, þá lögðu þeir at þeim ok drápu af þeim marga menn, ok tóku undan þeim skip; en þeir Áslákr ok Árni hljópu á land ok kómu á fund Eysteins, ok sögðu hánum hvat títt var. Eysteinn hafði þá húsþing, ok sagði hvern úfrið þeir buðu, ok bað menn at þeir skyldu duga hánum: „ok höfum vér lið mikit ok gott, ok vil ek hvergi undan flýja, ef þér vilið fylgja mér.“ þá varð engi rómr at máli hans. En um nóttina eptir réru þeir á brott mörgum skipum á laun, sumir til móts við Inga, en sumir til Björgvinjar, en sumir í fjörðu; en er ljóst var, þá váru 10 skip eptir með Eysteini. þar lét hann eptir drekann mikla, er hann hafði látit gera, ok enn önnur skip, ok hjoggu drekann ok spiltu hánum mjök. þá gékk Eysteinn á skip Eindriða Jóanssunar, ok fóru inn í Sogn, en þaðan ok austr í Vík.

262. þá tók Ingi skipin ok hélt austr liðinu hit ytra í Víkina. Eysteinn var fyrir austan Foldina, ok hafði nær 12 hundruð manna. En er þeir sá skipalið Inga, þá ökuðusk þeir undan ok tóku á skógana, ok síns vegar hverr. Konungr var eptir með annan mann; þá leituðu Inga menn eptir hánum. Símon skálpr hitti hann, er hann gékk undan hrísrunni einum; þeir Símon váru margir saman. En er þeir höndluðu konunginn, þá beiddi Eysteinn konungr at skjóta hánum undan, ok kvað þeim þat betr bera. Símon svaraði, kvað munu ekki verða. þá beiddi konungrinn at hlýða messu, áðr en hánum væri bani veittr,

ok svá gerðu þeir. Síðan lagðisk hann niðr á grúfu ok breiddi hendr ífrá sér, ok bað höggva sik í kross meðal herða, ok þat fram fór; ok þótti konungr verða vel við. En Símon fékk þar illan orðróm af því máli, svá sem váttar Einarr Skúlasunr:

Man, sá er morði vandisk
margillr ok sveik stilli,
síð af slíkum ráðum
Símon skálpr of hjálpask.

Lík Eysteins konungs var jarðat á Forsi.

Á móti Inga konungi efldu þeir Ögmundr, Sigurðr á Reyri, 263.
Philippus Gyrðarsunr, Eindriði Jónssunr ok margir aðrir höfðingjar Hákon herðibreið sun Sigurðar konungs, ok gáfu hánum konungsnafn. Þeir Ingi áttu orrostu mikla austr í Elfi; þar váru þeir þá báðir í liði með Inga, Gregorius Dagssunr ok Erlingr skakki. Þar féll Eindriði Jónssunr ok mikill fjöldi af liði Hákonar. Þaðan ífrá féllu þeim Hákoni þung viðrskipti við Inga, meðan er þeir lifðu báðir. Þó settusk þeir marga vega brögð við, ok gerðusk manndráp í mikil. En síðasta vetrinn er Ingi lifði váru þeir Ingi ok Gregorius i Björgvin; þá spurðu þeir at Hákon[1] * * * * * * * * * * * * * * * *
* * * * * * * * * * * * * * * * * * * * *
* * * * óstilling múgsins, at þat ódœmaverk væri tiltekit. Hann 264.
var manna snjallastr, ok kom sú tala mjök í einn stað niðr. Erlingr veitti um vetrinn í Túnsbergi, ok hann gaf mála um kyndilsmessu. Sigurðr fór með hit fríðasta lið ofan í Víkina, ok gékk undir hann mikit lið fyrir ofríkis sakar, en margir guldu fé; ok fór hann svá víða. Þeir váru sumir í flokkinum, er sér leituðu griða til Erlings á laun. En þar féngusk svör, at allir menn, þeir er þess leituðu, skyldu hafa lífsgrið, en þeir í mestum sökum váru, skyldi engi fá landsvist. Ok er þeir spurðu þat, þá hélt þat saman fólkinu, fyrir því at þeir váru margir, er sik vissu at því sanna, at Erlingi myndi þykkja sakbitnir við sik. Philippus Gyrðarsunr gékk til sættar við Erling, ok fékk aptr eignir sínar, ok fór til búa sinna; litlu síðar kómu þar Sigurðar menn ok drápu hann; ok mörg slög veittu hvárir öðrum í eltum eða í aftökum manna; en ekki váru höfðingjar við þat, ok fyrir því er slíkt ekki ritat. Um föstu öndverða kom njósn Erlingi, at Sigurðr jarl myndi koma með her sinn á hans fund; ok var stundum spurt til hans nær, en stundum fjarri. Erlingr gerði þá njósn fyrir, hvar sem þeir kœmi fram, ok lét blása öllu liðinu hvert kveld or bœnum, ok lágu um nætr í samnaði,

[1]) *Her manglede 2 Blade i A.*

ok var alt skipat til fylkingar. Þá kom Erlingi njósn, at þeir Sigurðr jarl væri uppi á Re. Býr þá Erlingr ferðina or bœnum; ok hann hafði með sér alt liðit or bœnum, ok alt þat er vápnum mátti orka, nema 12 menn váru eptir at gæta bœjarins. Hann fór or bœnum týsdaginn i annarri viku langaföstu eptir nón; fóru þá um nóttina, ok váru tveir menn um einn hest ok um einn skjöld, 13 tugir manna var talit. Ok þá kom njósn í móti þeim sú, at jarl var á Dynduxstöðum með 600 manna; lét þá jarl kalla saman liðit, ok sagði þat er hann hafði spurt. Liðit eggjaði, at þeir skyldi skunda ok berjask þar um nóttina. Erlingr talaði erendi ok mælti svá, at „þat man yðr þykkja líkara, at [várn fund[1] beri saman. Eru þar í þeirra flokki margir menn þeir, er oss mætti minnisamt vera þeirra handaverk, er þeir hjoggu niðr Inga konung eða aðra vini vára; ok er seint á þat tölu at koma. Gerðu þeir þat með fjándans verkum ok fulltingi ok níðingskap; því at þat stendr hér í lögum várum, at engi maðr hefir sá fyrirgört sér, at eigi heiti þat níðingskapr eða morðingjaverk, at menn drepask um nætr, en eigi undir sólu. Hafa þeir ok með þvílíkri framkvæmd unnit þann sigr at stíga yfir þvílíkan höfðingja, sem nú hafa þeir við jörðu lagðan. Höfum vér opt sagt þessa hluti, enda er nú at sjónum orðit um þeirra háttu. Skulum vér heldr hafa þat ráðit er oss er kunnara, at berjask um ljósa daga með fylkingu, ok stelask eigi á menn um nætr. Höfum vér lið œrit í móti eigi meira liði. Skulum vér bíða dags at ok lýsingar, ok halda saman fylkingum ef þeir vilja.“ Eptir þetta settisk liðit niðr; tóku sumir í sundr heyhjálma ok gerðu sér af ból, sumir sátu á skjöldum sínum; en veðrit var svalt ok [var á[2] drífa. Þeir Sigurðr fengu njósn á, svá fremi er liðit kom mjök svá at þeim, ok stóðu upp ok vápnuðusk, ok vissu ekki, hversu mikit lið er Erlingr hafði. Vildu sumir flýja, en sumir vildu bíða. Sigurðr einn var málsnjallr kallaðr ok eigi mikill tilræðismaðr; hann var þá ok eigi ófúsari at flýja, ok fékk hann af því mikit ámæli af liðinu. En er lýsa tók, þá hafði jarlinn fylkt liði sínu á brekku nökkurri fyrir ofan brúna á milli bœjarins; þar féll á ein lítil. En þeir Erlingr fylktu annan veginn árinnar, ok á bak fylkingu þeirra váru menn á hestum. Jarlsmenn sá at liðsmunr var mikill, ok töldu ráð at leita á skóga. Jarlinn svarar: „þat segið þér, at mér fylgi engi kjarkr, ok skal þat nú reyna: gæti hverr sín, at engi flýi eða fálmi fyrr en ek. Vér höfum vígi gott: látum þá ganga yfir brúna, en er merkit kemr yfir brúna, þá steypumk á þá, ok flýi nú engi frá öðrum!“ Sigurðr hafði brúnaðan kyrtil ok rauða skikkju, fitskúa á fótum; hann

[1]) *rettet;* var fyndr *A* [2]) *rettet;* váta *A*

hafði skjöld á hlið ok sverð í hendi, er Bastarðr hét, ok mælti: „þat veit guð, heldr en þiggja gull mikit, vilda ek ná Bastarði at koma einu sári á Erling skakka.“

Lið Erlings vildi ganga fram at brúnni, en hann bað þá venda 265.
upp með ánni, þar var svá gert. Jarls lið gékk upp með brekkunni ok á bakkana, er yfir ganga ána út. þá bað Erlingr, at lið hans skyldi syngja pater noster ok biðja, at þeir hefði gagn, er guð vildi. Ok sungu þá allir kyriat hátt, ok börðu vápnum sínum á skjöldu sína. En við þann gný skutusk í brott ok flýðu 300 manna af liði jarlsins. Erlingr ok hans menn fylgðu þeim yfir ána. þá brásk framhlaupit fyrir brekkuna, ok mœttusk menn á brekkubrúninni. þá tóksk orrosta mikil: váru fyrst spjótalög, ok þegar brátt eptir höggorrosta, ok fóru á hæli merki jarlsins, ok kómusk Erlings menn upp á brekkuna. Varð skömm orrosta, áðr en jarlsins menn flýðu á skóginn, er á bak þeim var. þá báðu þeir jarlinn flýja; þá svaraði hann: „Fram vér nú, meðan er vér megum!“ ok hjó á tvær hendr; ok féll hann þar, ok með hánum Jón Sveinssunr ok nær 60 manna. þeir Erlingr létu fátt manna ok ráku flóttann at skóginum, þá stöðvaðisk Erlingr ok hans lið, er þeir kómu at skóginum. þá hvarf liðit aptr ok kómu at, þar þrælar vildu draga föt af Sigurði; ok var hann eigi örendr, ok vissi þó ekki, ok hafði fólgit sverðit í umgerðinni, ok lá þat þá íhjá hánum. Erlingr tók þat upp ok laust þá þarmeð, ok bað þá á braut skríða. Eptir þat hvarf Erlingr aptr með sínu liði ok settisk í Túnsbergi. Sjau nóttum síðar tóku þeir Erlings menn Eindriða unga; var hann drepinn ok öll hans skipsókn. Um várit eptir halda þeir Markús it efra til Víkrinnar ok ráða sér þar til skipa. Um haustit eptir, er Erlingr spurði, ferr hann austr eptir, ok hittusk þeir í Konungahellu. Flýja þeir Markús upp í eyna Hísing; dreif þar landsfólk, Hísingsbúar, ofan ok ganga í fylking með Markúss mönnum. þá skutu þeir á Erling, er hann réri at landi. þá mælti Erlingr við sína menn: „Tökum skip þeirra, ok göngum eigi upp at berjask hér við landsher! Hísingbúar eru illir ok bráðir ok óvitrir: munu þeir litla stund hafa flokk þenna móti sér, þvíat Hísing er land lítit.“ Svá er gert, at skip þeirra eru tekin ok flutt yfir til Konungahellu. Erlingr settisk með sínu liði í Konungahellu. Markús ok hans lið fóru upp á Markir ok ætla til áhlaupa, ok höfðu hvárir njósn af öðrum. Erlingr hafði fjölmenni mikit ok tók lið or heruðum. Öndverðan vetrinn fór hann út í eyna Hísing með miklu fjölmenni, ok krafði þings; Hísingsbúar kvámu ofan ok héldu upp þinginu. Erlingr sagði sakar á hendr þeim, at þeir höfðu hlaupit í flokk með Markúsi; ok at lyktum festu þeir gjald; ok

gerði þeim þar til stefnudag á viku fresti í bœnum, ok nefndi til menn 12 bœndr. En er þeir kómu til Erlings, þá dœmdi hann á hendr þeim Hísingbúum 300 nauta. Nú fara bœndr heim ok segja sína ferð eigi góða. Litlu síðar gerði frost mikit, ok lagði ís á ána, ok fraus inni skip Erlings. Þá héldu bœndr gjaldinu, ok lágu í samnaði í Hísing. Erlingr var í bœnum ok hélt jólaveizluna, en Hísingsbúar héldu samöl ok sveitir í Hísing um jólin. En daginn eptir fimtánda dag þá fór Erlingr at þeim út í eyna, tók húsin ok brendi, ok drap hann menn, ok fór aptr við svá búit til bœjar. Markús snérisk þá til Upplanda; ok dvaldisk þar um hríð. Þá fóru þeir norðr it efra til Þrándheims, ok var þeim þar vel fagnat, ok réðu sér þar til skipa. Var Sigurðr þar til konungs tekinn. Kómu þar til flokks margir dugandi menn, ok er á leið várit, héldu þeir norðan Sigurðr ok Markús.

266. Erlingr bjósk ok austan um várit; hafði hann lið mikit ok stór skip. En er hann kom norðr í Víkina, fékk hann andviðri, ok lá hann þar mikinn hluta sumars; en sumt lið hans fór norðr til Björgvinjar til landvarnar. Var þar Nikulás Skjaldvararsunr, Nökkvi Pálssunr, Þórólfr dryllr, Þorbjörn gjaldkeri, mart annarra lendra manna. Þeir Markús sigldu hit nörðra útleiðina fyrir Björgvin. Höfðu menn þat mjök á máli, at þeir höfðu byr þangat er þeir vildu, en Erlings menn fengu andviðri. En er Markús kvam austr á Lista, þá spurðu þeir, at Erlingr hafði her úvígan í Víkinni. Venda þá aptr, ok ætla at leggja til Björgvinjar; en er þeir kvámu fyrir bœinn, þá sjá þeir mörg langskip ok stór róa á móti sér, ok sjá þá engan sinn annan en róa undan, ok svá gera þeir. Nikolás ok hans félagar róa eptir þeim ok elta þá; Markús gékk upp ok flest alt lið hans suðr í Skorpu, sumir réru suðr í Sund. Þar taka þeir skip, ok drepa slíkt af er þeir fá. Nökkurum dögum síðar fann Eindriði heiðafylja þá Sigurð ok Markús; váru þeir fluttir til bœjarins. Var Sigurðr höggvinn á Hvarfsnesi, en Markús hengðr út ífrá Grafdal. Þá var Magnús einn konungr fyrir Noregi. Erlingr skakki hafði þá einn landráð með höndum ok alla konungseign; en aðrir lendir menn sátu í veizlum sínum, sem fyrr hafði verit um Inga konungs daga. Erlingr hóf upp mjök frændr sína ok gaf þeim mörgum jarðir. Erlingr var stórvitr maðr ok orrostumaðr mikill, var auðigr ok málsnjallr maðr, grimmr ok refsingafullr. Þat var siðr hans um óvini sína, at alt stórmenni gerði hann landflótta. Af þessu varð ríki hans mjök herskátt, fyrir því at þeir höfðingjar, er verit höfðu með Hákoni konungi eða Sigurði, flýðu til Danmarkar eða upp á Gautland, ok herjuðu þaðan í Víkina. Þar var Ögmundr Símonarsunr ok Friðrekr kœna, Örnúlfr skorpa, ok Bjarni hinn illi, ok

margir aðrir. þá er Erlingr var í Túnsbergi, spurði hann til þeirra í Vík austr, at þeir ræntu. þá fór hann austr at leita þeirra, ok fékk tekit Friðrek ok Bjarna með 2 skipum; ok lét hann Friðrek binda við akkeri ok steypa hánum fyrir borð; ok Bjarni var hengðr, ok var þat engum manni harmanda; en Friðrekr var ættstórr maðr, ok var hann mjök harmaðr í þrœndalögum, sem síðar verðr getit.

Valdimarr Danakonungr ok Erlingr skakki gerðu þau einkamál 267.
meðal sín, ok váru þau með svardaga bundin af hendi Erlings ok hans hinna ágætustu manna: at ef Magnús Erlingssunr yrði konungr yfir Noreg, þá skyldi Valdimarr konungr eignask alt landit, þat er liggr milli Líðandisness ok Danmerkr at sköttum ok skyldum, sem at forneskju höfðu haft Danakonungar. Valdimarr konungr skyldi veita hánum Erlingi ok hans flokk styrk til at vinna Noreg, ok hafa friðland í Danmörk sínu liði. þá sendi Danakonungr menn sína með bréfum til Erlings ok krafði landsskiptis, sem svardagar váru til. þat mál bar Erlingr upp við landráðamenn sína, þá er ríkastir váru, ok mestu skyldu ráða af hendi Magnúss konungs; ok þá váru þau bréf upplesin á þingum ok á mótum, svá at öll alþýða heyrði; ok var þat allra manna einmæli, at þeir létusk eigi vilja landvörn hafa fyrir útlenzkum her, eða þjóna Danakonungi, ok eigi tvískipta Noregi; ok létusk hánum munu fylgja. Erlingr veitti þau andsvör at lyktum, at alt landsfólk reis á móti ok neitaði at ganga undir Danakonung; bauð hánum sína vináttu ok fégjafar, en kvazk eigi mega ráða við landsfólkinu at skipta hánum af landinu. En er Danakonungr spurði þat, þá líkaði hánum illa, ok galt fyrir fjándskap, ok kallaði Erlings menn ok sun hans eiðrofa.

Einum vetri eptir fall Hákonar konungs kom í Noreg Stefanus 268.
legáti; var hánum vel fagnat af hendi Magnúss konungs ok biskups. þá var Eysteinn erkibiskup. Eysteinn fór í sýslu sína norðr á Hálogaland. þá leitaði hann við bœndr, at þeir skyldu auka rétt ok sakeyri, þann er biskupi skyldi gjalda. En með því at Eysteinn biskup var snjallr maðr mikill, ok ættstórr, auðigr at fé ok vinsæll bæði (nú fylgði því máli Eysteinn mjök, ok kom til með sér mönnum ríkum, frændum sínum ok vinum): þá var þat framkvæmt er hann krafði, at þat fékksk af bóndum, at allr sakeyrir sá er hann átti at taka, þá skyldi vera silfrmetinn eyrir. En áðr var sakeyrir biskups slíkr sem konungs lögeyrir; en þess verðr helmings munr þeirra auralaga. En þó at engi væri til at neita af búanda hendi, þá fékk Erlingr af því mikinn[1] við alla þá menn, er þetta mál styrktu. Ok um várit eptir kom Erlingr skakki norðr til kaupangs; kærðu þá þetta margir menn fyrir hánum.

[1]) *her synes et Ord at mangle.*

Erlingr veitti því engi andsvör, ok hlýddi til hvat menn mæltu; en er hann kom á málstefnu, þá rœddu þeir marga þá hluti er til landráða horfðu. Þá mælti Erlingr skakki: „Herra!“ sagði hann, „kunnigt man yðr vera um lögskrá þrœnda; nú þat alt er þar er álagt, munuð þér vilja brjóta lög hins helga Ólafs konungs“ Erkibiskup svarar: „Eigi eru þá brotin lög hans, í því at aukinn er réttr hans; hitt er lagabrot, at eigi er sá konungr yfir Noregi, er í lögum stendr.“ Erlingr svarar: „Eigi var þat gert mjök í móti yðru ráði, er Magnús var tekinn til konungs, ok játtuðu því allir, svá biskupar sem annat landsfólk.“ Erkibiskup svarar: „Eigi vil ek því í móti mæla, at Magnús megi konungr vera, ef þú veizt, at eigi þykkir þrœndum vera raskat í því sínum lögum, at sá er konungr, er eigi er konungssunr. En því vættir mik, at eigi verði allir á eitt sáttir, ef nökkurir koma þeir er sannir eru, ok beiðask lands ok ríkis.“ Erlingr svarar: „Með því, herra, at eigi er ritat í öllum lögbókum, at sá skuli konungr vera, er eigi er konungssunr, ok væri þat at yðru ráði ok annarra biskupa, at Magnús væri til konungs tekinn yfir alt landit: þá meguð þér svá styrkja hann ok hans ríki, at þat sé guðs lög, at hann sé konungr. Vildið þér smyrja hann ok kóróna ok gefa hánum konungsvígslu, þá má eigi því neita, þvíat eru bæði guðs lög ok manna; en hann ok ek skulum veita yðr fullan styrk til allrar framkvæmdar, er þér vilið kraft hafa.“ Erkibiskup hugsaði þetta mál ok talaði við Erling, þar til er þat var alt ráðit; ok var sá fundr lagðr um sumarit í Björgvin. Kom þar þá Magnús konungr, ok legátinn, Eysteinn erkibiskup, ok mart annarra góðra manna.

269. Vígsla Magnúss konungs var gör, ok var hann þá 7 vetra gamall. Valdimarr Danakonungr var nú mikill úvinr Erlings, fyrir því at hann hafði svarit lagaeið ok þó öllu þeirra sáttmáli brugðit.

270. Um haustit eptir ok þó öndverðan vetrinn kómu til Þrándheims menn Danakonungs með bréfum; fluttu þeir bréfin fyrir ríkismenn ok vingjafir með, er Danakonungr hafði sent þeim. En þat var í bréfum, at Danakonungr ætlaði at fara með her sinn í Noreg ok vill leggja land undir sik ok kallar þat frændleifð sína, heitr þrœndum vingan sinni, ok at þeir skuli vera slíkir menn í Noregi, sem fyrr hafa þeir verit í forneskju, ok þeir eigu ætterni til; lætr meiri ván, at hann muni einnhvern þeirra til konungs taka eða landshöfðingja.

271. Margir skipuðusk hér vel við, ok gera í móti jartegnum hans bréf, ok heitask undir hann; ok fásk þau andsvör at lyktum: „Ef Erlingr skakki verðr svá djarfr, at hann kemr inn um Agðanes, þá skal hann eigi með fjörvi á brott fara.“

Erlingr var um vetrinn í Björgvin með sínu liði. Um várit 272.
eptir kómu vinir hans til hans ok segja hánum, at þrændir væri illvilja til hans, ok gefa hánum þat at sök, at hann tók af Friðrek kœnu; biðja hann varask at koma eigi á vald þrænda, þvíat þeir hefði mörg stórvirki gört, þau sem þeim líkaði. Erlingr svarar ok kvað þat mikla lygi vera. Um várit bjósk Erlingr at fara suðr til Ónarheims þings, ok hafði Bœkisúðina alskipaða ok með skútu fimtánsessu, ok bæði vel skipuð. Sunnanveðr lá á þrátt, ok leggsk mönnum illa andróðrinn, ok töldu móti at róa; ok kváðu Erling ekki erendi þangat eiga. Mánadaginn í gagndögum eptir messu lét Erlingr blása til skipa liði sínu, lagði við líf ok limi hverjum manni þeim er eigi kœmi, þar er skráðr var: hann vildi leggja or bœnum eptir nón. En hann lagði þó eigi or bœnum fyrr en þriðja dags eptir um morgininn snemma, ok var þá alt lið hans búit. Þeir réru út í Biskupshöfn. Þá átti Erlingr tal við sína menn ok mælti svá: „Mikinn kurr heyri ek af yðr, at yðr þykki ilt at róa andróðr. Takið nú ok reisið viðuna, ok sjám hversu snekkjan kann undir seglinu!“ Svá var gört. Sigldu síðan norðr með landi góðan byr, ok svá enn um náttina, ok svá um miðvikudaginn; ok um náttina eptir sigla þeir inn um Agðanes, ok var þá mikit samflot, fyrir því at þar fór vökuliðit inn til bœjarins. Þeir kómu upp í ána mjök óvart. Bœjarmenn sá seglin ok hugðu at vökulið væri; ok var sungit uppi at Kristkirkju, ok var þar flest bœjarliðit statt. Þeir Erlingr féngu njósn, hvat títt var í bœnum; en Álfr sat með sveit sína ok drakk, ok þeir Erlingr géngu þangat sem hann drakk, ok drápu hann ok flest alt liðit þat er þar var. Síðan géngu þeir ok ransökuðu, ok drápu slíkt af, sem þeim sýndisk, ok Erlingi þóttu sakir til vera. Sumir flýðu ok kómusk svá undan. Erlingr lét blása öllu liðinu til Eyraþings, ok var þar harðla fjölment. Erlingr talar ok gefr þrændum sakir, ok kvað þá vera fjörsmenn sína. Þar mæltu þeir á móti, ok kváðu þat vera lygi ok upplost. Razabárðr taldisk undan sökum, þvíat hann var málsnjallr, þartil er Erlingr kvazk eigi munu halda sökum á þá, ef þeir stœði fyrir með vitnum ok eiðum. Þá mælti Erlingr ok bað upp standa kapalín sinn, ok svá gerði hann. Hann tekr svá til orðs: „Kenni þér, þrændir! innsigli þetta, er ek hygg at þér sjálfir hafið látit gera ok fénguð í hendr dönskum mönnum?“ Váru þá bréf upplesin, ok sögðu svá, at þeir bundusk í þat ráð at drepa konung ok Erling, ef þeir næði. En þetta mælti Erlingr at lyktum: „Or þínum munni, Razabárðr, kómu þessi orð.“ Bárðr svarar: „Iðrumk ek nú, herra minn! ef ek mælta þat; en alt er nú á guðs valdi ok yðru.“ Allir géngu nú til, festu til við

Erling at bœta slíku sem hans miskunn var til. Lét hann dœma ógildan Álf ok alla þá er fallnir váru, tók af mörgum mikit fé, ok fékk enga mótistöðu at því sinni. Ok dvaldisk enga hríð at því sinni, ok fór aptr suðr. En þrœndir váru jafnan síðan úvinir hans.

273. Valdimarr Danakonungr bjósk með her sinn, ok hafði mikinn her, ok fór austan í Víkina; lætr uppskera þingboð ok krefr bœndr lands ok viðtöku. En Elfarbúar austr segja svá, at þeir vilja þjóna þeim konungi, er þeir játta norðr í Víkina. Nú á konungr Borgarþing. Konungr ferr stilliliga ok friðsamliga norðr um Víkina; en bœndr höfðu samnað alt hit efra, ok vildu eigi undir ganga. Eru nú gör orð sem skjótast norðr, ok kom hersagan til Erlings. Þá lét hann bjóða út almenning at liði ok skipum til landvarnar. Váru þá í hverju fylki mörg langskip gör; var þá nýtt hvert langskip, þóat eigi væri fullgört; ok kom nú saman allmikit fjölmenni, ok drósk herrinn norðan með landi. Valdimarr kom alt til Túnsbergs; ok svá sögðu menn, at landsfólkit var svá geyst at þeim, at þá er þeir kómu nær landinu, þá hljópu einn maðr eða 2 saman ok skutu á þá. Ok þótti konungi þar sýnask í því fullr illvili; ok kvazk finna á því, at þeir vildu engum kosti undir ganga; ok taldi tvá kosti fyrir höndum: þann annan at snúa aptr til Danmarkar með svá búit, eða fara með ránum yfir landit ok manndrápum; ok sagði meir sinn vilja at herja eigi á kristit land, ok kvað œrit vítt austr fyrir liggja í Austrvegum, at herja á ok fá sér fjár. Lýsir málinu, ok segir at hann vill suðr aptr snúa, ok svá görði hann: fór suðr aptr til Danmarkar, gaf þá heimleyfi leiðangrinum. Nú var Erlingi sagt, at Danakonungr hefði horfit aptr. Þá nefnir hann með sér lenda menn ok aðra sveitar höfðingja, ok siglir suðr eptir konungi; ok koma þar sem heitir Dýrsá, ok lá þar lið Danakonungs, þat sem þá hafði fengit heimleyfi. Erlingr lagði át þeim, ok barðisk við þá; þar féll Sigurðr ok mart af Dönum, en alt flýði. En þeir Erlingr tóku þar allmikit herfang, ok fóru aptr til Noregs. Eptir þetta bannaði Danakonungr Víkverjum kaupferð til Danmarkar. Svá ok bannaði hann at flytja korn í Noreg eða aðra þá hluti, sem þeim væri þurftuligir. En Víkverjar megu ekki missa Danmerkr kaupstefnu: báðu margir Erling, at hann skyldi gera frið við Danakonung með nökkuru móti. Erlingr gerði þat snildarbragð, er allir menn kalla mest hafa verit í manna minnum: at hann fór í þvílíkum háska einskipa til Danmarkar, ok kom þar mjök óvart. Fóru í hringabrynjur ok höfðu hjálma, ok utan yfir höttu ok léttimötla, ok undir brugðin sverð. Géngu í bœinn ok í konungsstofuna; þá sat konungr yfir mat, ok allir vápnlausir; en engi gaf gaum at hvar þeir fóru, fyrr en þeir koma.

þá mælti Erlingr: „Góðan dag, herra! Sel oss grið ok öllum várum mönnum!“ Valdimarr konungr mælti: „Grið skalt þú hafa, Erlingr! A engum hefi ek nízk, þeim sem á minn fund hefir komit. Tala slíkt er þú vilt, ok far sem þú komt, ok þínir menn!“ Erlingr svarar: „Selt hafi þér nú griðin fyrri; en ek vil tala við yðr í meira tómi, þvíat ek hefi erendi Magnúss konungs ok annarra Noregs höfðingja.“ Gékk Erlingr síðan til skips síns. Hann dvaldisk þar um hríð, ok var opt fyrir Danakonungi ok beiddisk af hánum sættar ok friðar; sagði konungi bæði forn dœmi ok ný, ok téði hánum, hversu friðr hafði settr verit millim Danmarkar ok Noregs; mintisk hann á þat, er Hákon hinn ríki jarl hafði haldit Noregsveldi at léni af Danakonungi. Erlingr fékk liðsinni margra manna; ok svá kom um síðir, at þeir réðu at Erlingr settisk í gísling með Danakonungi, þar til er sætt væri gör. Þá sendi Danakonungr í Noreg Ásbjörn snöru, ok dvaldisk hann þar um vetrinn. Um várit gaf Danakonungr Erlingi heimleyfi, ok með þeim kosti at bréf væri komin frá Magnúsi konungi: at Danakonungr skyldi eignask þvílíkt af Noregi, sem hann kallaði til ok áðr hafði verit í forneskju, ok í einkamálum þeirra hafði verit. Hann gaf yfir ríki vald Erlingi ok 274.
með jarldóm, ok skyldi Erlingr vera jarl Valdimars Danakonungs; sór ok Erlingr hánum trúnaðareið. At skilnaði þeirra fóru aptr gíslar hvárirtveggja. En Erlingr var jarl til dauðadags ok hélt vináttu til Danakonungs, ok réð ok stýrði einn Noregi af hendi Magnúss konungs sunar síns. Ok gerðisk hann ríkr höfðingi, ok því meiri maðr en fyrr, sem þá var hann tignari.

Ólafr hét sunr Guðbrands Skafhöggssunar ok Maríu dóttur Ey- 275.
steins[1] Magnússunar; hann hafði fóstrat Sigurðr agnhöttr, ríkr maðr í Vík austr. Ólafr hófsk upp með flokki í Víkinni ok Sigurðr með hánum. At því ráði hurfu margir menn, ok snérusk upp á Markir ok drógusk til Upplanda, ok féngu þar viðtökur. Drósk þeim brátt lið ok féngu styrk mikinn; en ekki kómu þeir til sævar, því at lendir menn ok þeir er kaupstöðum réðu váru fullkomnir vinir Magnúss konungs. Ok er Erlingr spurði slíkt til þeirra, þá setti hann ráð við at gæta kaupstaða ok skipastóls; en hann fór inn í Víkina ok var ýmist í Osló eða Túnsbergi, dvaldisk þar um hríð vetrinn. Ólafr lét gera veizlu á land upp langt. Jarlinn fór til veizlunnar at heimboði prests nökkurs, ok hafði lið mjök mikit, ok með hánum Ormr konungsbróðir; ok kómu um aptan fyrir kyndilsmessu þar sem heitir á Ryðjökli. Höfðu þeir fluzk yfir vatn nökkut, er bœrinn liggr skamt ífrá vatnströndinni. Þeir drukku fast um kveldit áfengt munngát; en prestr, sá er veizluna

[1]) *rettet;* Knúts *A.*

gerði, hafði sent þeim Ólafi áðr njósn um farar jarlsins. þeir Ólafr fóru um nóttina ok um kveldit 7 rastir, ok þótti mönnum þat furða
276. vera, hversu hvatliga þat var farit. Jarlinn svaf í stofu nökkurri ok hans sveit, ok stóð upp til óttusöngs um miðnætti, (en prestr sagði vera kveld), ok lézk eigi mega sofa, ok svá fór 3 sinnum. En langri hríð fyrir dag stóð jarlinn upp ok klæddisk, ok bað þá taka vápn sín. Fór þá prestr til kirkju. Jarlinn fór til óttusöngs með sveit sína, ok Ormr konungsbróðir; en sumir lágu í rekkju sinni. Ok í daganinni þá koma þeir Ólafr; snúa þegar at hinni miklu höllinni, hlaupa þar inn ok drepa þá er inni váru. þá œpa þeir heróp, ok varð jarl eigi fyrr varr við ófriðinn; hljóp þegar or kirkju ok ofan til skipanna. En svá myrkt var, at varla kendusk þeir. Sœkja þeir Ólafr eptir, ok þá er jarlsins menn hlaupa yfir garð nökkurn, þá snérusk þeir á móti jarlsmenn. Jarlinn var gyrðr sverði; þá greip hann til ok brá, ok snérisk sverðit á síðu hánum, ok skeindisk hann mjök. Ormr varð ok sárr mjök, ok féll mart af liði þeirra. En hann komsk sjálfr undan ok Ormr konungsbróðir mjök nauðuliga, ok réru aptr yfir vatnit. En Ólafr ok hans lið fóru sem áðr. Síðan kölluðu menn hann Ólaf ógæfu, fyrir þá sök at jarlinn hafði þá undan tekit, svá sem hánum var nær róit. Ok nökkuru síðar spurði Erlingr til þeirra Ólafs austr í Vík, ok fór at leita þeirra. þar sem heitir Stangir fann hann þá. Var þar orrosta, ok hafði jarlinn meira lið, ok hann fékk ok meira sigr. þá féll ok Sigurðr agnhöttr ok mart annarra manna, en Ólafr flýði upp á land. Ok þaðan af dreifðisk flokkrinn. Fór Ólafr suðr til Danmarkar, fékk þar sótt ok andaðisk í Árósi; ok kalla Danir hann helgan.

277. Haraldr hét sunr Sigurðar konungs Haraldssunar, móðir hans Kristín konungsdóttir; en hann var bróðir Magnúss konungs. Hann var fóstraðr á Upplöndum. Nikolás kúfungr tók þann svein ok flutti til Erlings. þat var hit vænsta barn, ok tók konungr vel við hánum, ok lagði konungr ást til hans, ok bað hánum vægðar ok margir aðrir menn. En jarlinn kvað hann ekki kunna fyrir slíku at sjá, ok kvað skjótt um hans daga munu gört vera, ef hann ætlaðisk nökkut slíkum ráðum fram fara, ok sagði at allir vildi þenna fyrir konung hafa en hann fyrir öxarmunni. Varð ok þat at framkvæmd, at sá sveinn var drepinn; ok var þat verk mjök lastat.

278. Á ríki Magnúss konungs hófsk flokkr, sá er austr samnaðisk á Mörkum. Var þar kallaðr höfðingi fyrir Eysteinn, sunr Eysteins konungs Haraldssunar. Hann var fríðr maðr sýnum; hann var kallaðr Eysteinn meyla. Í þann flokk hljópu margir dugandi menn, þeir kváðusk mist hafa brœðra sinna ok feðra ok annarra náfrænda ok fjár síns,

flestir menn ungir, menn meir at hreysti reyndir en at viti. En fyrir því at þeir höfðu eigi mikinn styrk fjölmennis, þá létu þeir víða verða farit ok mjök um óbygðir, svá at af þeim géngu klæði þeirra, svá at þeir váru berfœttir allir ok spèntu næfrum um bein sér. En er menn Magnúss spurðu þetta, þá kölluðu þeir þá Birkibeina. Fóru mjök hit eystra um Markir ok steyptusk ofan í Víkina, kómu fram þar sem bœndr höfðu samnað fyrir þeim austr um Elfarsýslur; ok gerðu ferðir at þeim ok hvárir at öðrum, ok drápusk menn fyrir. Höfðu Birkibeinar jafnan betr, þegar er eigi var múgrinn fyrir, en þegar er þeir áttusk opt við, þá tóku optast æ bœndr undan fast. Bœndr feldu brota fyrir þá á Krókaskógi; var þeim nær ófœru þar, ok létu menn sína, ok kómusk hlaupi undan. Ekki áttu þeir við konung eða jarl eða stórmenni.

Vetrinn eptir fóru þeir með flokkinn. En hit þriðja sumarit 277.
eptir réðu þeir sér til skipa ok féngu skútur ok léttiskip, ok fóru hit ytra fyrir landi alt norðr til þrándheims. þeir tóku víða fé ok menn, ok kvámu svá mjök úvart til kaupangs, at allir váru úbúnir þeir er fyrir váru. þat var Maríumessu ena síðari fyrir hámessu. Eiríkr Dagssunr gékk upp til kirkju ok hitti Nikolás Skjaldvararsun mág sinn, ok sagði hánum at fiskimenn nökkurir höfðu komit til bœjarins, þeir er þat sögðu, at þeir hefði sét segl þeirra mörg fara utan eptir firðinum, „ok hygg ek vera munu Birkibeina.“ Nikulás svarar: „Ofkvittsamr ert þú, mágr! þú fylgir hverjum fleygikvitt, er fiskimenn segja. Heldr vætti ek at þeir sé austr á Mörkum, en þeir fari hingat í hendr oss þrœndum; ok höfum fyrst messu ok görum út skútu eina, ef yðr sýnisk.“ Nikolás gékk til kirkju; en Eiríkr lét gera á njósn. þeir Birkibeinar kómu mjök óvart. Er sungin var messan, þá gékk Eiríkr inn ok sagði Nikolási, at þeir þóttusk at vísu vita, er á njósn váru, at úfriðr er. „Nú eru hestar búnir,“ segir hann, „ríðum á brott, mágr! ok inn í herað!“ Nikulás mælti: „Ek vil eiga þing við bœjarmenn ok sjá, hvat liðs er ok vápna í bœnum; en förum fyrst til matar!“ Eptir þat hvarf Eiríkr á braut ok í garð sinn; ok hljóp hann ok hans menn á hesta sína ok riðu or bœnum. En Nikolás gékk til borðs, ok setti vörð út á Eyrum. En fyrr en hann hefði matázk, þá var hánum sagt at þeir væri upp í ánni. þá mælti Nikolás, at þeir skyldu vápnask ok sœkja upp í lopt sitt it mikla; ok svá gerðu þéir. En Birkibeinar fóru um strætin ok sumir um bryggjur, ok kómu svá í garð Nikoláss. Ok vissu þeir eigi fyrr en garðrinn var horfinn allr mönnum, ok mátti engi þeim at liði koma. Birkibeinar kölluðu á þá ok buðu Nikolási grið, en hann neitaði. Eptir þat sóttu

Birkibeinar at loptinu bæði með skotum ok atgöngu, ok sumir hjoggu húsin ok skutu á þá. Þeir vörðusk vel með skoti, en grjót var á þá borit, ok féllu hvárirtveggja. Var þat at lyktum, at loptit varð sótt. Þar féll Nikolás ok mikil sveit manna.

277. Eptir þetta áttu þeir Birkibeinar þing í bœnum, ok gékk undir þá allr bœjarlýðrinn; en Eysteinn var til konungs tekinn á Eyraþingi. Hann dvaldisk þar um hríð, ok kom þar fjölment, ok gerðusk handgengnir. Váru þar hvártveggja bœjarmenn ok af heruðum komnir gott mannval. Þá kómu þeir til flokksins Saltnessveinar, Jón ketlingr ok brœðr hans. Ok um haustit eptir þá fóru með flokki inn í Þrándheim ok lögðu hann allan undir sik. Þá kom til flokksins Þorfiðr af Snös, Helgi sunr hans, ok mart annarra ríkra manna. Ok er þat sannast, at allir hinir beztu bóndasynir kómu þá til þeirra um öll Þrœndalög, svá at skorat var, er þeir kómu út aptr í Orkadal, nær 20 hundruð manna.

278. Þeir búa nú ferð sína upp til fjalls, ok fara svá til Upplanda: leggja undir sik alt landit. Magnús konungr var í Víkinni ok Ormr konungsbróðir ok mart lendra manna. En Erlingr var í Björgvin ok hafði mikit lið. Birkibeinar sóttu út í Víkina, ok stefna ferðinni hit ytra um landit; ætla svá til Túnsbergs á fund Magnúss konungs, ok var þat um jólaskeið. En er Magnús konungr spurði til þeirra, þá stefnir hann til sín liði sínu. Kom til hans þá Ormr konungsbróðir með sína sveit, ok margir aðrir. Hann hafði mikit lið. Fór konungr á móti or bœnum ok alt upp á Ré; fá þá njósn at Birkibeinar váru nær komnir. En veðrit var furðu kalt, ok svá mikill snjór, at alt var
279. kafhleypt, þegar er af vegum var. Menn Magnúss konungs tráðu sér gadd fyrir ofan bœinn; en um þveran veginn skipa þeir liðinu í fylkingar. Nú ganga þeir Birkibeinar í fylkingar við bœinn ok bjoggusk við, er þeir sá konungsliðit fyrir sér. Fór merki Eysteins konungs mjök framarla í liðinu. En með því at ökuvegrinn var ekki breiðr, ok þröngfœrt út ífrá, þá fór sveitin sú í fyrstunni, er konungsmerkit fylgði, ok þeir kómu fyrst fram á gaddinn. En Magnúss konungs menn runnu fram í móti þeim með fylktu. Tóksk þar orrostan, ok var Birkibeinum óhœgt við at komask, ok fór liðit mjök sundringum, er þeir höfðu ekki rúm á gaddinum. Snérisk þá mannfallit brátt á þá; en Birkibeinar féllu þeir er fremstir váru. Sóttu þá fram Magnúss konungs menn. Var þá sem optar: þóat menn sé vápndjarfir ok hraustir, þá kemr lítt at haldi, þegar er flóttinn brestr. Tók þá brátt at flýja meginliðit þeirra Eysteins. Tók þá af nýju mannfallit til þeirra liðs at snúask mjök; þvíat vegrinn var mjór, en Magnúss konungs menn váru ekki

mjök friðsamir; var drepit alt náliga þat er þeir náðu, ok ráku langt flóttann. Eysteinn var í flóttanum; ok þá er hánum var svá nær stýrt, þá hljóp hann inn í hús eitt ok bað sér griða; en sá maðr er inni var lézk munu gera þat er hann var fúsari, ok drap hann. Þá funnu brátt Magnúss konungs menn hann, ok var lík hans tekit ok borit í stofu þá, er Magnús konungr var í. Eldr var görr á miðju gólfi, ok var konungrinn farinn af klæðum sínum ok bakaðisk við eldinn. Géngu þá menn til at kenna líkit, nökkurir af Birkibeinum, þeir er svá váru sárir, at eigi máttu renna; en er menn kendu líkit til fulls, þá snérisk konungr frá eldinum. Einn maðr sat í pallinum at baki þeim, ok var ekki gaumr at hánum gefinn; en svá sem þá varði minst, þá stóð hann upp ok greip öxi eina, ok hjó til Magnúss konungs yfir herðar nökkurum mönnum; kom á háls konungi, ok snérisk höggit ofan í herðar ok tók líttat beinit, ok var þat mikit sár. En þegar reiddi hann annat ok hjó til Orms konungsbróður, ok stefndi á fótleggi hánum upp við knéit. En þá er Ormr sá þat, þá kastar hann fram fótunum yfir höfuðit; ok tók höggit í pallstokkinn, ok stóð þar föst öxin. Þá var þeim skamt allstórra höggva á millum ok laga bæði. En þá er hann féll, þá fannsk þat í pallinum, þar er hann stóð, at hann hafði dregit innrin eptir sér um gólfit.

Flokkr þessi er undan komsk flýði austr á Markir, ok sóttu 280.
flestir á Gautland austr, ok mest fyrir því at þeir vissu sér eigi ván friðar í Noregi, heldr en þeir aðrir er fullan fjándskap höfðu fengit af Erlingi. En þat bar annat til, at þau váru í Svíþjóðu Birgir jarl, sá er átti Brigðu dóttur Haralds gilla, ok hafði veitt mikinn styrk Eysteini konungi bæði með liði ok með fégjöfum.

*Nú hverf ek þar ífrá.*



# Constructionen i de mest indviklede Viser.

*Side 7.*

Hákon, Högna meyjar viðr, varð vápnberr, er vega skyldi, ok Freys áttungr lagði sinn aldr í oddagný á Fjölum.

Ok varð Stafaness vágr um blandinn manna blóði við Lóðurs vinar stóran gný, þar er margir Haralds vinir féllu.

*Side 9.*

Harðráðr barnungr ens bleika bárufáks hrjóðr lét hæstrar tíðar þrungit skipa barðum á lög.

Þar barsk svá at at borði, at hlífar valdr rak borðhölkvi norðan fyr tveggja döglinga Hildar hregg, ok orðnæfrir jöfrar kvöddusk dunskotum orðalaust at morði; rauðra randa rödd endisk.

Gramr háði geira hregg við seggi, þar er bryngögl gnúðu í Sköglardyn; rauð ben fnýstu blóði; æfr gall hjörr við hlífar, þá er seggir hnigu fjörvanir fyr ræsi á rausn; egglituðr réð sigri.

*Side 15.*

Hákon reið vestan á bak borðhesti, skörungr léta brim bíta börð, er gramr hefir (*sc.* tekit) fjörðu *(da, siden han har naaet Fjorde, d. e. er kommen indenskjærs, uden at have lidt noget paa Havet).*

*Side 23.*

Törgur ok hausar tröddusk fyr Norðmanna bauga Týs hjalta harðfótum; róma varð í eyju, konungar ruðu skírar skjaldborgir í skatna blóði.

*Side 24.*

Valgrindar-veðrheyjandi gumnum hollr né Gefnar gulli baðat Skreyju vinda sinni stefnu, ef sigrminnigr vilt finna sára sólrýri *(Saarenes Sóls d. e. Sværdets Fortynder, Haakon);* haltu fram, njótr! þannig at nýtum Norðmanna gram. *Optager man Læsemaaden af B* sólspennir sunnan *og i sidste Linje* hranna, *da faar man:* ef sigrminnigr hranna sólspennir! sunnan *(Bölgernes Sóls d. e. Guldets Omspænder, her Eyvind Skreyja, som kommer söndenfra)* vilt finna Norðmanna gram, fram haltu, njótr! at nýtum.

Ek veit at hinn bitri benvöndr or báðum konungs höndum beit búlkaskíðs meðaldyggvan byggving; ófælinn óla galtar eldraugr, grandaðr Dana, klauf skarar hauga gullhjöltuðum brandi.

*Side 25.*

Herr gékk lystr til hjörva hnits á Fitjum í Storð, þar er böðharðir landa bands jódraugar börðusk, áðr nausta blakks hlémána gífrs drífu gimslöngvir þorði ganga hit næsta Norðmanna gram.

þrot var sýnt, þá er settusk úfár (*d. e.* úfáir) bœndr sárir við sinn stinnan róðrs hlumm, maðr lét önd ok annarr; ok hjörkrafðir munins tuggu (*Aadsels*) gauks (*d. e. Ravnens*) huggendr (*d. e. Krigerne*) höfðu sand í munni við gjálfr um leikna (*havomskylte*) grunnu.

þat veit afreks, er allríkr gunnar Njörðr gekk næst jöfri í styr slíkum, þar er gerði hugins drekku.

*Side 27.*

Vel hefir Haraldr hefnt Gamla, fólkrakkr fylkir vann framligt, en hjörs berdraugar hafna fjörvi; ok dólgbands dökkvalir drekka Hákonar dreyra; ek sá rauðra benja reyr roðin fyr handan ver.

Flugvarr konungr rauð fyrr Fenris varra sparra í Gamla blóði (málmhríðar meiðum svall móðr), þá er óstirfinn of rak alla Eiríks arfa á sæ; þat grams fall tregr geira gætigauta.

*Side 28.*

Hörða landvörðr! lítt kváðu þik láta geð fálma, er benja hagl brast á brynjur, álmar bugusk: þá er úfólgin fullegg fetla svell gullu endr or þinni hendi, Haraldr, til ylgjar fyllar.

*Side 29.*

Snýr á Svölnis váru; höfum sem Finnar at miðju sumri inn um bundit birkibrums hind.

Ímunlauks Ullr! bárum Fýrisvallar fræ á hauka fjöllum um alla ævi Hákonar; nú hefir fólkstríðir um fólginn meldr fjölglýjaðra Fróða þýja í mellu dólgs móður holdi.

Fullu brávallar fallsól skein á Ullar kjóls fjöllum skáldum um allan aldr Hákonar; nú er elfar álfröðull um fólginn í jötna dólgs móður líki; ráð rammrar þjóðar eru rík.

*Side 30.*

Skerja foldar skíðrennandi! ek skylda síðan finna þinn þursa bœs byr góðan frá þvísa, er verðum selja þér, valjarðar mens veljandi! þat lyngva látr, er minn faðir átti lengi.

Ok jarðráðendr næmdu fjörvi Sigurð, þann er veitti Farmatýs svönum Haddingja vals hróka bjór.

Ok öðlingr ófælinn alnar orms varð of lattr lífs í jarðar ölun, þá er landrekar sviku Týs áttung í trygð.

Noregs konungr var nœrir naddskúrar, braut bág við stóra brynjunjóta í rifjunga ságu; vargfœðandi lét þorna marga valgaltar velta (*Ulvens Mæskere*) jafnborna sér, réð (mörgum) úvægum jöfri.

*Side 35.*

Mætra hjalta málmóðinn, sá er þorði rjóða þjóðum völl, mælti þróttarorð: víðlendr Haraldr um bað verðung vinda sverðum at morði; þat fylkis orð þótti flotnum frægt.

At þat lét foldarvörðr, sá er forðum varði sik fjörharðan, hvína heinþyntan brynju hryneld.

*Side 36.*

Hjörveðrs óðstafr hvarfat aptr, áðr en hafði erfðan föður; herforðaðr réð herða (at) konungs fjörvi; varðat né man síðan (verða) sá fólkskíðs Freyr, er fœri fram slíku jarls ríki; því bregðr öld við aðra.

*Side 37.*

Ok herþarfir hverfa til blóta, ríkr Hlakkar móts rauðbríkar *(saal. B)* rækir fremsk ásmegni slíku. Nú grœr jörð sem áðan, auðrýrir lætr geirbrúar áru aptr óhryggva byggva hapta vé.

Engi ættum góðr geirbríkar gætinjörðr nema Fróði varð á jörðu, sá er gerði slíkan frið.

Gamla kind, sú er þorði granda véum, bygði forðum lönd; en gunnborðs lunda orð lék á því. Nú er sóknarhvatr geirvaðils Ullr, hverjum gram betri, settr at setri þeirra afrendra jöfra.

*Side 38.*

Vandardýr hóf at landi und þundar hyrjar kneyfi, unda fjöld hraut, þat sleit víg á vági; né fjölsnerrinn fémildr konungr vildi fyrri biðja friðar; jarl, Yggs niðr, vægðit fyr jöfri.

Haulda morðs valdr lézk búinn at halda velli, ef konungr vildi heyja valmey; herr féll of gram.

Hitt var meir, er morðfíkinn Mœra fólkverjandi lét of görva för fjörva norðan til Sogns. Heðins byrjar Freyr ýtti allri yrþjóð af fjórum fólklandum; branda Ullr sá stoð af því.

Ok sjau landrekar þurðu fram til móts með randa svarfa spörgœli á Meita mjúkhurðum.

Guðr varð ströng, áðr gunnar lunda þröngvimeiðr um þryngvi þrimr hundruðum und hramma nás gammi. Fólkeflandi fangsæll fylkir knátti ganga þaðan at höfðum hafs-bragna; þat var hagnaðr.

*Side 39.*

Varð þriðja logs þrymr, er odda leikmiðjungar lögðu saman randir; arngreddir varð andvígr. Sœkiþróttr sundfaxa kom Söxum á flótta; þá er svá, at gramr varði garð með gumna yrþjóðum.

*Side 40.*

Flótta fellitýr gékk til fréttar á velli; Heðins váða draugr gat dagráð dólga sägu; ok hildar haldboði sá ramma hrægamma, sá tíra teinlautar Týr vildi Gauta fjör.

Jarl háði hjörlautar hyrjar þing, þars engi maðr áðan und sörla ranni kom at herja; maðr barat randir, lyngs barða loptvarðaðar, enn lengra frá sjó; gramr vann um gengit alt Gautland.

*Side 41.*

Fróða hríðar áss varð at hrósa gagni, ragna konr hlóð völlu valföllum; Óðinn hlaut val.

Hinn svinni lét of herjuð hofsland ok öll sönn vé banda, hverjum mönnum kunn.

Nú liggr alt und jarli fyr norðan Vík; Hákonar, ímunborðs veðrgœðis, ríki fremsk víða.

Þeim er Valtýs (Óðins) brúðr liggr und bœgi alt austr til Egðabýs.

*Side 48.*

Skjaldhlynr lét mjök margar snekkjur sem knörru ok skeiðar dynja á brim; mærðar örr óðr skálds vex; mörg lind var fyr landi, þá er ólítill oddherðir fat gerða utan síns föður lönd með röndum.

Ógnfróðr jarl, sá er atti hrefnis stóði hót á lög, setti háfa stafna á móti

Sigvalda. Margr hlummr skalf, en hvergi ugðu bana sárgamms huggendr, þeir er gátu slíta sjó ára blöðum.

En glæheims mávar skriðu í gegn Dana skeiðum at gunni, leiðangr rendi langt með landi.

*Side 49.*

Oss er góðr leikr fyr handum, þryngr at Viðris vandar veðri; en vinr lauka feimu liggr heima; vér skreytum spjör; ek kveð hœla bosa neyta hlýs, hann væntir sér annars und vörmum vífs bœgi.

*Side 51.*

Varðat hœgt at leggja til Vagns, þá er ek sá geitis hjörklofnar hurðir rofna; hátt söng Högna hregg. Gunnar þunníss þröngvir! þar géngu ver í böð til knarrar; ströng var darra flaug danskra drengja.

*Side 53.*

Þat kvað jarl at unnviggs æri fyr sunnan haf, þá er sárelda spor váru á seima særi: eybaugs viggja valdr! öllungis illa hefir þinn faðir haldit (*nl.* þér), ef skalt deyja; víst hyggjum þat.

*Side 54.*

Ungr fór mjök síð um dag með jöfnu gengi meita skíði at móti útvers frömum hersi, þá er randvallar rauðvita reiðir lét falla Skopta; úlfteitir gaf opt átu blóðvölum.

Bróðir Sigurðar, blóðhelsingja bræðir, varð jöfrum œðri, en Danir urðu falla allhvast.

Varga meinrennir! ljóða læ brá litlu síðar ævi Hákonar; manna sköp fýsa margs. En þá er hraustr herr fór vestan, hygg ek sun Tryggva kómu til lands þess, er lindar láðstafr hafði vegit.

*Side 55.*

Eiríkr hafði meira í hug sér við auðs særi, en upp um kvæði; slíks var ván at hánum. Reiðr þrœnzkr jarl sótti sœnskan konung at ráðum, því rann engi manna; þrœndum gafsk þrályndi.

Svá frá ek hitt, at hörgbrjótr hlóð háva valköstu í mörgum stað; opt kom (hann) at hepta hrafn blóði. Endr lét végrimmr allvaldr falla Jamta ok Vinda kindir í styr; snimma vandisk hann á þat.

Hjördjarfr Hörða dróttinn var hættr Gota fjörvi, ek frá gullskerði görðu geirþey á Skáneyju. Hlunnviggja hleypimeiðr hjó barklaust böðserkjar birki í Danmarku fyr sunnan Heiðabœ.

*Side 56.*

Tiggi, Tryggvasunr, vann tíðhöggvit ljótvaxin Saxa hræ fyr styggvan leiknar hest á lesti. Vinhróðigr vísir gaf víða kveldriðu blökku stóði at drekka brúnt blóð margra Frísa.

Hilmir vann hörð hjálmskóð roðin blóði at Hólmi ok austr í Görðum; hvat ofdyldi þess höldar. Ríkr lægir rógsrekka brá valkera líki; herstefnir lét goldit hröfnum hold Flæmingja.

Ofvægr konungr gerðisk ungr bægja við Engla; sá nœrir naddskúrar réð Norðhumbra morði. Tiggi barði brezkrar jarðar byggendr, en hjó kumbrskar þjóðir; gráðr þvarr geirahríðar gjóði.

Seims skerðir gerði með sverði sverðleik í Mön, ógnblíðr úlfa greddir eyddi víða Skotum. Œgir ýdrauga lét eyverskan her ok Íra deyja; dýrra tjörva Týr var tírargjarn.

*Side 59.*

Konungr fór sunnan sjau tugum skeiða ok einu (skipi); mætr unnviggs meiðr rauð sverð at óna morði, þá er jarl hafði um krafðan lagar hún Skánunga fundar; seggja ættar sætt gékk sundr hánum.

*Side 64.*

Ormrinn langi kom heldr í harðan fjörð; tungl tingla tangar skárusk þar, hnitu saman dreyra reyr, þá er brynflagðs regina lagði borðmikinn barða við Fafnis síðu.

Snarpra sverða gangr gerðisk um Orminn langa, þá er gollin spjör gullu; drengir slitu frið lengi; kváðu svænska menn ok danska fráns leggbita runna fylgja hánum fram sunnr at dólgs sennu.

Hykkat ek vægð at vígi, vann sóttan ógnharðan jöfur; drótt sik sparðit; jarl kom at fjarðjörðu. Lítt var Sifjar sóti svangr, fólkharðr! þá er fœrðuð Barða á fjarðmývils tröð við Orminn langa.

*Side 65.*

Heðins baugs-serkjar verkendr gerðut vægjask við í naddfárs böð; sukku sárir niðr af naðri. Þóat alldýrr konungr stýri Ormi, man Ormr lengi vanr slíkra drengja, þar er hann skríðr með lýða lið.

Þjóð stökk aptr um þóptur með Óleifi; hugreifr þengill hét á sína heiptarnýta drengi, þá er höfðu lokit hafvita um snjallan Hallands (*d. e.* Haðalands) gram; vápnreið varð um Vinda myrði.

*Side 66.*

Armgrjóts ógrœðir sá Trönu fljóta auða ok báða naðra (hann rauð glaðr geir at gunni), áðr en hjaldrþorinn hugframr Þorketill, snotr sunds, héldi undan or ramri böð á snœris vitni.

Veit ek eigi hitt, hvárt ek skal leyfa heita dýrbliks dynsæðinga hungrdeyfi dauðan eða þó kvikvan: alls seggir segja mér sannliga hvártveggja; sárr man gramr at hváru; hætt er til hans at frétta.

*Side 67.*

Oddflagðs árr, hinn er þat sagði at lofða gramr lifði, var samr læstyggs Tryggva burar um æfi. Öld kveðr Ólaf kominn or stála eli; menn geta ferri sönnu máli, mjök er verr en svá.

Er þegnar sóttu þróttharðan gram með lýða liði, frá ek mundut landher ðar (*d. e.* þar) verða þess sköp, at margdýrr mundjökuls stýrir myndi koma or slíkum her; mér þykkjat gotnar geta glíkligs.

Enn segir sumr seggr auðar kenni frá sárum tiggja eða brott um komnum or málma gnaustan. Nú er sannfregit sunnan or miklum styr siklings morð; ek kann ei mart við manna veifunarorði.

*Side 68.*

En eptir víg lagðisk land und gram norðan frá Veigu suðr til Agða eða stundu lengra. En Sveinn konungr sunnan er sagðr dauðr, en auðir hans bœir váru; fátt fár flestra ýta bilar.

*Side 70.*

Rétt er at sókn en setta (var), þar er Ólafr sótti Lundúna bryggju; snarr þengill bauð Englum Yggs at. Völsk sverð bitu, en víkingar vörðu þá díki; sumt lið átti búðir í sléttu Suðrvirki.

*Side 71.*

Láðvörðr! komtu í land ok lendir Aðalráði; framr rekka rúni naut þíns ríkis at slíku. Harðr var fundr, þar er fœrðuð niðja Játmundar á vit friðlands; ættstuðill réð áðan þar grundu.

*Side 75.*

Konungr fór válaust á vári austan or Vík, en jarl kom norðan; þeir knúðu báðir blá borð. Kann ek segja œrin skil órum sunds sigrviðum, þeim er þar váru, hve þeirra fundir bárusk at.

*Side 76.*

Gylt stöng óð, þar er géngum Göndlar serks gnýs greiðendr und merkjum í skip fyr göfgum ræsi.

Sjálfr Sveinn bað harðliga skeina svartar kylfur; áðr var hánum nær róit í óra auðván, þá er (menn) féngu gört hræ svörtum hrafni til góðs við Yggs gjóða; herr lét um höggvit skeiðar stafna.

Né hœfilig hygg ek dróttins svik þóttu þeim, er forðum héldu allvel sín orð við hreifa elds gram.

*Side 79.*

Hetlendingar eru þér kendir at þegnum; haldið gegn á góðra þjóðskjöldunga veldi. Engi ógndjarfr ynglingr varð austr á jörðu áðr en þér náðum, sá er þryngvi undir sik eyjum vestan.

*Side 80.*

*Omkvæd:* Knútr var höfuðfremstr jöfurr und himnum.

Herr ferr austan, fríðr fráneygðr Dana fylkis niðr. Viðr skreið vestan; sá (viðr) var glæstr, er bar Aðalráðs andskota út þaðan.

Ok landreka drekar báru blá segl við rá í byr; döglings för var dýr; ok þeir kilir, er kómu vestan, liðu um brimleið til Limafjarðar.

Ek hygg at frétt, hug duga vel í her Haralds ætt; Ólafr, ársæll jöfurr, lét lið fara lýrgötu suðr or Nið.

*Side 81.*

Svalir kilir þurðu norðan með gram til slétts Sælunds; þat namsk; en með annan her sænskan ferr Önundr at há (*nl.* bardaga) á hendr Dönum.

Gramr lét mörg lið nefbjörgum lokit saman um lönd með marbeðjum; þar er graðr fundr grám hjálmum of lá fyr gnóð, þrimu þornheims þundr!

Snarir dróttnar máttuat spanit Danmörk und sik sökum herfarar. Dana hlöðr hafði herjaða snarpla Skáney.

Ílendr Jótlands jöfurr létat etask af; ætt manna fannsk at því. Dana hlífskjöldr vildi hafa fæst rán foldar.

*Side 82.*

Sóknaörr siklingr! þú hnektir Svíum, en ylgr fékk mikla úlfs beitu, þar er heitir áin helga.

Rínleygs láð! ek hefi ráðit at ríða héðan mínum löngum leiðar dynmari heldr en ganga, þóat Knútr, leggfjöturs lundr, liggi herskipum úti í Eyrarsundi; þjóð kann keski minni.

*Side 83.*

Skjótum eik fyr utan læbaugs ey; lætka ek Lundar ekkjur né danskar meyjar, iflaflausts jörð! hlæja at því, at ek þyrða eigi á hausti fara aptr krapta vali á Fróða flatslóðir.

*Side 84.*

Örr Knútr, sá er alt hefir úti, ok Hákon tegask gerva Ólaf fjörvaltan; megum kvíða konungs dauða. Haldisk vörðr, sem Knútr ok jarlar vildu varla; ef hann kemsk sjálfr undan, er (þat) dælla fundi first á fjalli.

*Side 85.*

Knútr er und himnum (*Begyndelsen til Omkvædet*). Minn hliðnæmr vinr fór þinnig með mjök mikit lið. Fimr gramr færði ólítinn otrheims flota út or Limafirði.

Mjök sökrammir Egðir ugðu för sigrsvans vána örbeiðis. Alt grams lið var framit gulli, var slíks sjón ríkari sögu.

Kolsvartir hafviðir liðu hart fram fyr Lista ok Hafdyri. Alt Eikunda sund suðr var lukt innan brimgalta sæskíðum.

En griðfastir friðmenn liðu hvast fyr fornan haug Hjörnagla. Þá er stór stafnklif drifu fyr Stað, varð örbeiðis för ægilig.

Mjök langar svangs súðir knáttu bera byrröm brimdýr fyr Stim. Svá liðu svalheims valir sunnan, at nýtr herflýtir kom norðr í Nið.

*Side 88.*

Ek hlaut stýra skipi or Slygs, því er Óleifr hinn digri átti; ván erum hreggs at hlýrvegs hreini, en sæta síðfregn at ek kvíða. Ýstéttar funa kleifar! sjálfr gramr var ræntr sigri á sumri.

*Side 89.*

En at skilnað ykkarn lézt skjótt um sóttan Knút; emka ok tamr at samna skrökvi of iðnir manna. Lundúnagramr lét fundna þér fold, áðr færir vestan; frest urðu þess; þitt líf erat lítit.

*Side 90.*

Ek man þora at verja þann arm, er ek hlýt í standa; rjóðum vér rand af reiði, þat er nekkvat munr ekkju. Enn ungi gunnblíðr greppr gengra á hæl fyr spjótum, þar er slög ríða; menn herða mót at morði.

*Side 93.*

Fylki, er bar hervíg í hug, kómu farlystir, hafanda staf. Ræsir kærr keisara rauf af suman Rumsveg (at) Clúspetrúsi.

Fár hringdrífr man svá hafa metinn feril fetum suðr. Bar kappsamr Knútr hinn ríki bjartan seim und búendr.

*Side 95.*

Nú hygg ek rjóðanda eggja rógörs hneitis réðu seggjum; þeygi segja seimstafir, þvíat veitk görva. Hraustr ormsetrs hati varat allra ellifu vetra, þá er Hörða vinr glæsti herskip or Görðum.

*Side 98.*

Veltir þjófs! gjaltu varhuga við þeim haulda kvitt, er nú ferr héðra; skal um stytta hönd í hófi.

Þat er heldr greypt, er þingmenn hnepta höfðum ok stinga nösum niðr í felda. Hætt er þat, er allir hárir menn ætla at móti skjöldungi, er ek heyri; skal áðr ráða hót við því.

*Side 101.*

Sjálfr Úlfs mögr var austr í Elfi; þar réð Sveinn at sverja, sínar hendr at skríni, ok hét fögru. Ólafs sunr, gramr Skánunga, réð eiðum; þeirra sáttir hafa átt skemra aldr hánum en skyldi.

*Side 104.*

Jarl flýði af auðu skipi sínu þaðan, þar er Magnús, otvin, gerði Sveini meinfœrt morð. Herkonungr réð hrjóða hneitis egg í sveita, blóð sprændi á brýndan brand; gramr vá til landa.

*Side 105.*

Höfum heyrt hitt, at heiti Helganes, þar er inn víða frægi vargteitir hrauð marga vágs elgi. Rygjar reggbuss bað leggja saman randir öndurt rökkr; rógskýja regni hélt haustnótt gegnum.

Hringserks lituðr rauð næst frán merki á Fjóni; gramr dróttar sótti fold; herr galt ráns frá hánum. Öld minnisk, hverr herskyldir fyldi annan tug, jafnþarfr blám hrafni; hilmir gat ört hjarta.

*Side 108.*

Ungr hötuðr tandrauðs ormtorgs hætti sér; (þú) mátt segja tekna átta tugu borga á Serklandi, áðr Serkjum hættr herskorðuðr gékk heyja harðan Hildar leik und skildi í sléttri Sikiley.

*Side 109.*

Darrlatr dasi hefir staðit fjarri, þar er dólgljóss skyndir tók endr ómynda Rindar elju. Varat hlýðisamt Affríka jöfri at halda haglfaldinni Ánars mey né lýðum fyr hánum.

*Side 110.*

Eggdjarfr ofrhuginn fór leggja und sik Jórsali; efri fold var virk víga valdi ok Girkjum. Ok með œrnu ríki kom úbrunnin heimil jörð und gunnar herði. *Den sidste Linje maa som Omkvæd forbindes med sidste i næste Vise:* Haralds önd (á) vist um aldr með Kristi ofar löndum.

Ráð Egða grams stóðu af reiði svikamannum á ýmsum Jórdanar borðum; þat orð rann. En fyrir sanna afgerð gat þjóð illa frá stilli, fékk vísan váða.

*Side 111.*

Görr jöfurr náði handa glóðum, en Girklands stólþengill gékk steinblindr ströngu aðalmeini.

Heiðingja sútar eyðir lét stinga út bæði augu stólþengils; styrjöld var þá byrjuð.

Bauttu, hilmis kundr! hanga helmingi af stundu; þér hafið skipt svá at eptir eru Væringjar færi.

*Side 113.*

Ógnblíðr yngvi! síðan slöng eik und þér í haf frá Svíþjóðu; rétt óðal var um ætlat yðr. Rifhind bar fyr slétta Skáney, þar er rendi rétt á stag; en skeiðr skelktu brúðir, nánar Dönum.

*Side 114.*

Haraldr! gerva léztu herjat alla Sælund; tiggi, þú hnyggr andskotum; hvatt vann vargr at vitja valfalls. Fjölmennr konungr gékk á Fjón, en fékkat hjálmum erfiði lítit; ríkula ristin rít brast.

Bjartr eldr brann í bœ fyr sunnan Hróiskeldu; nenninn ræsir lét reykvell fella ofan rönn. Gnógir landsmenn lágu; hel ló (*d. e.* laug) sumum frelsi; harmvesalt hyski drósk til skógs á flótta.

Dvöldum dapрt of skilda ferð; þeir Danir er eptir lifðu drifu undan, en fögr sprund urðu fengin. Láss hélt líki drósar, mart fljóð leið fyr yðr til skeiðar; fjötrar bitu fíkula bjartra hörund.

Iðlíkt var (at) sjá inn í miðjan ormsmunn, þá er hélduð yðrum skipum sunnan, sem eldr brynni. Skeið bar hinn rauða skolt; skein af hreinu gulli; dreki fór mikla dagleið dúfu braut und húfi.

*Side 117.*

Hoddstríðir! síðan varð grœn grund heimil þér, er (þér) Magnús funduzk, ok (þú) bautt hánum gull. Sætt endisk allfriðliga milli ykkar frænda, en Sveinn vætti síðan rómöldu einnar.

*Side 120.*

Menn feldu mörg tár, þá er báru mildan þengil í gröf; þung byrðr var sú þeim, er hann gaf seima. Hugr deildisk, svá at varla héldu grams húskarlar vatni; en síðan sat siklings þjóð opt hnípin.

*Side 121.*

*Haraldr.* Meðan líneik litlar *(kjæler)* veri sínum, galdrs gerðr! látum akkerin halda í Goðnar firði.

*Þjóðólfr.* Ek segi eina spá: annat sumar skal kaldnefr halda furu fleini sunnar; vér aukum kaf króki.

Ár hit næsta bjóttu leiðangr af láði; lögr gékk um fögru skip; reistu grœði glæstum gjálfrstóðum *(saal. maa der læses for* gjálfrstóð er). Dýrr skokkr lá á dökkri báru, Danir váru þá illa staðnir; herr sá hlaðnar skeiðr fyr hauðri.

Meyjar eybaugs Dana skáru akkeris hringa af jastosti; þat þing angraði þengil. Nú sér mörg mær œrnan krók or járni halda allvalds skipum; færi hlær at því í morgun.

*Side 122.*

Úsvífr Kraka drífu hlökk lét aldrigi brá þorna úti í harða þykkum Hornskógi. Fila dróttinn rak flótta grams fjánda til strandar, Dóttu faðir varð út at greiða auð allskjótt.

Ván erumk vígs kœnum vísa; örr finni á rakna stígum Innþrœnda lið í odda snerru; þar man enn guð valda, hvárr nemr annan öndu eða löndum; lítt hyggr Sveinn á sjaldfestar sættir.

Reiðr Haraldr, sá er opt hefir rauða rönd fyr löndum, fœrir breið borðrökn norðan á Buðla slóðir. En gullmunnuð, steini fagrdrifin, lauks glæsidýr Sveins, þess er rýðr geiri, sœkja sunnan.

*Side 123.*

Fengsæll Dana þengill (reiðr hefir hann hábrynjuð skip fyr hauðri) man synja fjörs flestum hersi, er (hann) rekr sunnan sex hundruð hlunntamda húnferils hreina til fundar við Hörða gram.

Úlfs óskmögr, sá er hleðr hæsta hrækóstu í Gunnar veðri, stýrir fögrum skipum til Elfar. Gullmörkuð vé skullu þar er rauðu vápnlauðri drífr (um) völlu, Gauts regn drepr í gögnum Hálfs serki.

Linns láðbrjótr! brynþings Baldr, sá er land á sunnar fyrir (at) ráða, hefir logit at fetilstinga Baldri; sjá inn nerðri Njörðr glymhríðar borða man hála fastmálari; gramr! þú ert flestum fremri norðr.

*Side 127.*

Randabliks rjóðandi man ráða oss or landi, nema Einarr kyssi inn þunna öxar munn.

Ek sé hinn örva Einar þambarskelfi, þann er kann skeina þangs þjálfa,

ganga hér upp fjölmennan. Fullafli bíðr fyllar hilmis stóls; ek finn opt, at drífr minna húskarla lið á hæla jarli.

*Side 128.*

Frán sveit hefir skipt sinni dáð ok góðum dróttni við Sveini; þat drengspell er lengi til minna.

Hugstrangr dróttinn, hinn er hitti hersa, beið Dana fundar með hálft annat hundrað langra skipa. Þat var næst, er reiðr atseti Hleiðrar réð rísta þangs láð þangat þrim hundruðum sunda mörum.

*Side 129.*

Úlfr, grams stallari, hét á oss alla, þá er hákesjur skulfu; róðr var greiddr úti á grœði. Skeleggjaðr bað leggja fram sitt skip með skylja, en seggir játtu snjalls landreka spjalla.

*Side 130.*

Flest hirð, sú er tœði vel hraustum dökks hrafns fœði, varð dauð áðr en döglingr næði at stökkva á land. Öll skipun skóp þá furðu snjöllum hrings skerði; hverr Jóta konungs fótr var þá genginn til heljar.

Kváðu gegnan Sogns gram í einni sviptu hrjóða Sveins þjóðar skip, hit fæsta sjau tugu.

Sveinn á sigr at launa sex Dana jörlum, þeim er vexa örleiks hvöt innan eina gunni. Vígbjartr Fiðr Árnasunr, sá er vildit forða snöru hjarta, varð fenginn í miðri fylkingu.

*Side 132.*

Landkarlar lystir sleitu létu gram varla sœma lög; öld gerði ódœmi á jörðu. En troll brutu hrís í hæls hleypikjóla *(Hælens Löbeskibe d. e. Benene)* vísa andskotum *(bröde Ris for Benene paa dem d. e. de bleve haardt straffede)* þeim er ollu því ráði þjóðar.

*Side 136.*

Skœð brúðr aurnis jóða sér görva úför konungsins (ok) lætr skína rauðan skjald, er dregr at hjaldri. Svanni sviptir manna holdi í sveiflandkjapta *(d. e. Ulven)*, óðlát konan litar úlfs munn innan blóði.

*Side 139.*

Krjúpum vér eigi í skjaldarbug at hjaldri fyr vápna brökun; haldorð valteigs hildr bauð svá. Menskorð bað mik forðum bera hátt hjálmstall í gný málma, þar er Hlakkar íss ok hausar mœttusk.

*Side 140.*

Skalkat ek hverfa frá ungum grams erfingjum, þó at fylkir falli niðr til vallar; gengr sem guð vill. Sól skínnat á sýnni konungs efni en þá báða; snarráðs Haralds hefnendr eru görvir haukar.

Varðandi geirahreggs, sá er vætki sparði fjör, gékk glaðr í gögnum orrostur þaðra sem vindr. Gramr sá flýðiat síðan eld né felda járnit; þess of eru sœm dœmi und els erkistóli.

Hlítstyggr hilmir hafðit lítit brjóst fyr sér í hjálmþrumu, né bifðisk böðsnart hjarta konungs, þars herr sá þat til hersa þengils, at ins barra döglinga hneitis blóðugr hjörr beit skatna.

*Side 141.*

Hins œgja konungs dauði varð eigi auðligr, hoddum reknir broddar hlífðut

hlenna sœfi. Allir liðsmenn ins mæra mildings kuru heldr meir falla um fólksnaran fylki, en vildi grið.

*Side 143.*

Ek sékat fljúga dörr á dœla mengi or Hrólfs hendi né Hrollaugi; dugir oss hefna föður. En í kveld, meðan knýjum rómu, sitr þessi Þórir þegjandi jarl á Mœri um kerstraumi.

Ek hefi rekit Rögnvalds dauða at fjórðungi mínum, nú er fólkstuðill fallinn; en nornir réðu því. Snotrir seggir! hlaðið grjóti at háfœtu, þvíat vér ráðum sigri; ek vel hánum harðan skatt.

Ek man æ glaðr, því at böðfíkinna bragna geirar bitu þengils ungan sun. Þeygi dyl ek, nema holunda vals gœli *(Saarfalkens Glæder d. e. Kongen)* þykki *(er vred)*; þar fló hræva valr ár af sárum um hólma.

*Side 144.*

Vilhjálmr, sá er rauð málma, hefir víst um véltan í trygð hraustan Valþjóf, hinn er skar sunnan hélt haf.

*Side 148.*

Í kaupangi, þar er heilagr gramr hvílir, man sóknstrangr banna Sveini sín óðul; hann er ríkr jöfurr. Ólafr konungr man unna sinni ætt hála; Úlfs arfi þarfat kalla til alls Noregs.

Mætr hilmir verr köldum málmi ok röndum Rauma grund; ek man skjöldungs lof. *Omkvædslinjerne maa forbindes saaledes*: Ríklundaðr Ólafr veit sik borinn miklu beztan gram und sólu.

Eggdjarfr Egða stillir biðr sóknörr frama seggi stika öll sund dörrum; fíra (Fila) dróttins jörð man eigi verða auðsótt sverða sóknherðendum.

*Side 150.*

Ek hét á góðar skipasagnir hvern vetr, þá er sátum gagnvert hrafns verðgjafa; gramr drakk jafnan líð.

*Side 152.*

Stórhugaðr Þórir dró vítt saman sínar sveitir með Agli; þau ráð váru heldr haglig hauldum. Ek frá Skjálgs vinum endr snörp mein á því, er lendir menn urpu steini um afl sér við morðvals brynni.

*Side 158.*

Hvat þarf kvitta heimför? minn hugr er í Dýflinni, en ek kem eigi í hausti austr til kaupangs kvenna; ek uni því, at eigi synjar ingjan *(Pigen)* gamanþinga, œrskan veldr því, er ek ann írskum svanna betr en mér.

*Side 161.*

Böðstyrkir lét barka síga ofan fyr gýgjar gagnstíg (bragnings verk á Serkjum hafa gerzk fræg), þar er hernenninn Göndlar þings gnýþróttr sótti neðan í hall at fjölmennum helli með gengi.

*Side 166.*

Luku Björgvinjar vág viku; varat kostr brýns (Magnúss) háskrautum fara braut.

*Side 168.*

Eljunþrár hrafnsmunnlitaðr! þú lézt roðnar þunnar eggjar á hauldum und hári Hveðn.

Harðr Hálfs serkrjóðr! áttuð sókn við sléttan Hléseyjar þröm, þar er bregg blésu um virðum.

*Side 173.*

Alls engi úlfgrennir þarf kenna Inga þat, at eggjar bitu gram; hverr seggr spyri satt af snerru; styrjarmildr stillir gatat stöðvat böð, fylkis sveit var fús at veita ræsi forspell.

Dagssunr lét bera dýrligra merkja fagra stöng út á stræti; sterk dörr dúðusk af reiði. Menn hnigu í Gunnar gagls gný, brœðr hafa barzk í miðri Björgvin fyr ósynju.

Seima sendir myndiat svá brátt hafa látit líf sitt (spjót flugu langt í ljótri boga drífu), ef beinn byrr tveim dögum fyrri leysti austan alkostigs Eysteins flota sunnan at Björgvin.



# Register over Persons-Navne.

# Register over Stedsnavne.

## Rettelser.

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| *Side* | XII | *Linje* | 6 | *f. o.* | *nogle l. paa nogle* |
| — | 1 | — | 2 | *f. n.* | *i Noten* Háfdan *l.* Hálfdan |
| — | 2 | — | 15 | — | atburðr *l.* atburðar |
| — | 14 | — | 13 | *f. o.* | á sjónum *l.* ásjónum |
| — | 24 | — | 9 | — | kreyja *l.* skreyja |
| — | — | — | 19 | — | Hakon *l.* Hákon |
| — | 25 | — | 13 | — | vá *l.* svá |
| — | 30 | — | 7 | — | leng *l.* lengi |
| — | — | — | 7 | *f. n.* | konungs *l.* konungr |
| — | 58 | — | 6 | — | *i Noten* húin *l.* búin |
| — | 71 | — | 10 | — | Hæli *l.* Hœli |
| — | 72 | — | 5 | — | Sauðangasund *l.* Sauðungasund |
| — | 87 | — | 9 | *f. o.* | Aslákr *l.* Áslákr |
| — | 104 | — | 21 | — | Arós *l.* Árós |
| — | 111 | — | 7 | — | myskvastofunni *l.* myrkvastofunni |
| — | 141 | — | 20 | — | Þjódólfr *l.* Þjóðólfr |
| — | 171 | — | 8 | — | Hválum *l.* Hvölum |

